# Atli

edr

## Raadagiørdir Yngismañs um Bwnad sinn

helst um

# Jardar- og Qvik-fiar-Rækt

## Atferd og Agooda

med Andsvari gamals Bónda.

Samanskrifad fyri Fatækis Frumbylinga, einkanlega þaa sem reisa Bw aa Eydi-Jordum

Anno 1777.

---

Aristoteles Libr. Politicorum

*Optima est Respublica, cujus cives e re Rustica & pastione vivunt.*

---

Prickt ád Hrappsey 1780,
af. Gudmunde, Olafssyne.

Til

# Stift-Amtmanden

over Island og Færøer

# Hr. Lauritz Andreas Thodal.

# Høyvelbaarne
# Hr. Stift-Amtmand,
## Naadige Herre!

En Ære, som Island glæder sig ved, en paa ottende Aar, er at have en Stift-Amtmand herinde i Landet: en Stift-Amtmand, som uden Persons Anseelse handhæver alle

alle med mild Retfærdighed og rætfærdig Mildhed, De er en Gave hvorfore vi skylde Himmelen uafladelig Lof og Tak: En Stiftamtmand, som næppe kand kiendes af sin høye Myndighed, uden naar Fortrængte finder hos Ham Redning, og andre Søgende sin Lykke.

Høyvelbaarne Herre! foruden disse uforglemmelige Fuldkommenheder,

er det ogſo bekiendt, hvor ſtor Patriot Deres Høy-velbaarenhed viſer Sig af dette Land, og opſøger af alle Naturens Riger, det ſom Landet og Indbyggerne kunde meſt være til Opkomſt: det viſe Rensdyrene fra Finnmarken; Træplanterne fra Norge; med den heele Have og Agerdørkning paa Beſſeſtæd, den Kongelige Gaard hvor De reſiderer, og endelig Jordarternes mang

fol-

foldige Prøver: Dette sidst bemælte giver mig Forhaabning, at Deres Høyvelbaarenhed ikke unaadig optager, det jeg hermed tilskriver Dem, en liden Piece, eller Samling af Oeconomiske Forsøg for fattige Bondekarle, som vil reise Boe, uden Evne eller Midler, og dog nære sig ærlig. Lidet Stykke af denne min liden Beg tilhørende Parter eller Deele, har jeg skikket til det

Kongelige Landhusholdnings Selskab, og faaet igien Svar, ved dets Præsident Hr. Professor Abildgaard, af 27. April 1776, med Tilskyndelse at lade det trykke.

Naar jeg nu seer Deres høye Navn ibland Selskabets ordentlige Medlemmer, tør jeg desto meer haabe, at dette mitt

mit ringe Arbeide, vil finde sikker Tilflugt, i Deres Høyvelbaarenheds Skygge.

Den Allerhøyeste forunde længe vort Island, Deres Nærverelse, og Deres Høyvelbaarenhed Selv fuldkommen og bestandig

 Sund-

Sundhed, med blomstrende Lykke og Ære, indtil det ævige Ærens Riges Grændser.

Saa beder uafladelig,

Naadige Herre!

Deres Høyvelbaarenheds

Savdlavksdal
24. Junii 1778.

underdanigste Tiener
BIÖRN HALDORSÖN.



# Til Lesarans.

At Qvikfenadar rækt og Fiski-fang sieu þeir almennustu næringar útvegir, og gagnlegustu til lifsbiargar á Islandi, vita allir þeir sem Landid þeckia. Bædi á fyrri olldum og nú hafa menn hér á Landi átt kost á þvi, at siúga gnægd Siafarins og þá Fiársiódu, sem hyliaz á Mararbotni 5 Mos: Bókar 33. 19. Fiskur aflaz og eydiz fliott, giörir marga menn avduga, færir Peninga inn i Landid,

og

og fædir margann Sióbónda betr enn Landbú þeirra: hann er besti partr Kavpeyris danskra Kavpmanna, sem færa oss marga ómissandi hluti, enn Landid vidhelst ecki af þeim útveg, og gengr alltid af ser, á medan Jordin ræktaz ecki. Þad er ecki gledileg Tilhuxun, at Land þetta verdi eydiklettr i Siónum til at þurka á veidarfæri Siómanna. Ez: 26. 14. Sióbóndinn lifir vel og grædir á Fiskifanginu, á medan þad luckaz vel, og Sveitabóndinn færir honum allt hvad hann þarf af Búmati fyrir Sióætin, enn hans Búskapr óhægiz á bádar hlidar þegar minst von um varir; annadhvort vantar hann Kavpeyrir, þegar Sióaraflinn bregst honum, ellegar hann vantar Kávpunavt, þegar Sveitabóndinn, sem veri hiá honum um vorid hefr eingvann Búmat

af

at missa, er hann hlutadi ecki nær fyrir útgiordinni: Þó eru Sveitabóndans kior verri þegar hann óþrifr Iord sína, og lætr hana alltíd spillaz meir og meir, því hvar skyldi hann þá athvarf hafa, er hann yfirgefr sitt eigid hreidr? um þetta efni hefr vel skrifad, bædi eptir Náttúru þeckingar Reglum, og márgfalldri eigin Reynslu Sýslumadrinn i Dala Sýslu Magnus Ketilsson, og er sá lærdi framqvæmdarmadr Æru og Þackar verdr fyri þad hann skrifad hefr, og enn helldr med reynslunni sýnt hvad ábótavant sie i jardyrkiu bænda, og hvorninn þad meigi lagfæraz. Hvad þennann Bækling snertir, þá er hann Samtíníngr af nockrum tiltækium og Reglum, sem einstaka Bændr brúkudu, og mer synduz hentugar fyri fátæka Frumbýlinga: líka reyndi eg fyri siálfan

mig

mig hitt og þetta, avk hins fyrra, sem mer þóckti síðan betra enn ecki. Nockrum almúga meiníngum med þeirra andsvari er her stráð innan um. Þessi Bæklíngr mun þeim óþarfe shnaz er langt um betr vita til Búnadar enn hann kennir, enn því svara eg, a) hañ er ei skrifaðr fyri þá. b) það var illa farið, at þeir urdu ei fyrri til at skrifa betur um þetta efni, c) er hann þeim og ødrum þarfr ef hann gefur þeim ordsok þartil. Vilie nockur fátækr Frumbylingur nýta eitthvað úr hønum, þá óska eg hønum verdi hann at blómgan og gagni, einkanlega at hann styrkiz móti rongum meiningum annara manna, enn til þess þarf bædi Skynsemi og so kiark, at standa af sér Stravm þeirra Hleypidoma sem madr er uppalinn við. Bæklingurinn er innrettadur

sem

sem Samtal i millum Yngismannsins Atla (*) og gamalls bónda, eptir Reglum þess **Konunglega Landhusholdings Selskabs.** Inntak hans er at sýna ásamt hinu, það sem satt reýnist, at eckert ervidi, og einginn Næringar útvegr er þarfari her i Landi, eñ Jardyrkian, eg meina Tun og Engia rækt, og sídan það sem þar med verdr at fylgia Navtpeningr, sem feitir jordina, og fædir verkamanninn: eckert ervide lavnar betr Búandanum Fyrirhøfn sína; já þar af lifir hann sæll i Landinu,

(*) atall edur østull. Helga Qvida Haddingia Skata. Atli heitomc atall skal ec þer vera; miøg em ec gifrom gramast. Olafs h: Saga. Þann kellar hann allann ein. Atla og at samann sagdi Þorvidur um Freyvid bródur sinn.

Landinu, og hans afgværni eptir hann: hiá hinni ókomnu olld hefr hann Sæmdarmanns Nafn, og með þessum, dugnaði i Landyrkiunni kemr hañ þvi til leidar, at Gud fær margann þacklætis Bord-Sálm af þeirra munni, sem annars hefdu alldrei verid til, eda lifad i Eymd og ánægiuleysi; þvi jardar ræktin er sá retti vegr til þess, at bornin uppaliz til dygda og dugnadar, og Mannfólkid fiolgi i Landinu.



Cap.

    

# Cap. i.

## Atli leytar Raads, og vill qvongaz.

1. Atli. Þu veist þad Bondi! at eg hefi verid hiw þitt sijdan eg vard matvinningr, og lijka veistu hvort eg hefi verid hlydinn og dyggr, edr ecki, hefr mer at ollu vel lidid med þer; enn þo er mer nw komid i hug, at stadfesta Raad mitt, og qvongaz, vil eg hafa þitt Raad, i þvij sem fleiru. Hefr eg nw, um Jonsmessu leytid einn um twijtugt, skie maa, þer synis eg ofwngr til þess?

Bónde. Satt er þad Atli, at med mer hefr þw verid, sijdan þw vart fyrst matlavnamadr, og til þessa, lijka aattu at mer skilinn þann vitnisburd, at þw hefr verid gott hiw, hlydinn, trwr og dyggr, og leytad i ollu gagns minns eins og Skyllda þijn var. Alldr þinn er nærri sanni til at qvænaz, og nogr þo; þar sem þw ert i brædgorrara lagi, at verti, kroftum og fyrir-

 hyggiu,

hyggiu, myndi eg ecki hafa lœtt þig ektaſkapar i fyrra, heſdir þw lœtid mig vita at þer var þad hugleikid; enn hvar hyggr þw til qvonarefnis?

2. A. Þar ſem er hwn Arnbiørg viñukona þijn, hwn heſr verid her œ Bœ, vidlijka lengi og eg, þeckir eg hana þvij betr enn adrar konr, og hwn þeckir mig lijka. heſi eg merkt, at henni er ei ſiœrri Skapi at geſaz mer.

B. Gott er þad at þid þeckiz, fyrr enn þid gangid at eigaz enn ſegia mœttu mer, hvort einſaman Tilhneigîng rœdr fyri þig, edr meiri Skynſemi. Menn ſegia eptir Drottning nockurri i fyrri tijd, ſem het Olympias, at konr ſkuli menn velia ſer, ei ſijdr med Eyrum enn augum. Heſurdu grenſlaz eptir hvad adrir ſegia um hana Arnbiørgu?

3. A. Jœ, eg heyri alla ſegia þad ſama um hana, ſem eg þykiz lijka hafa ſied, at hwn ſie god vinnukona, þriſin, nytin, og ſparſom, hwn er holl og trw i þionuſtu, hlydin vidfelldinn og ſveigianleg i gedi, hwn er rœdvend og gudhrœdd, og helld eg Gud muni bleſſa hana þegar hwn giſtiz, enn þad þyki mer miklu mœli ſkipta hvort þw gefr henni godann vitnisburd.

B. Vel mœ hwn fœ hiœ mer þennann vitnisburd allann, ſem þw bart henni, og

er

er þad vel, at þw gengst fyri þvi, enn fylgir ecki einni saman fysn þinni, þo hwn sie ei meir enn 16 vetra, þaa er hwn giafvaxta, og nw aa besta alldri til at giftaz manni, hwn er heilbrygd, af heilbrygdum forelldrum, sem voru bædi fromlynd, og hofdu nockra manndaad.

4. A. Er þad aa moti Raadi þijnu, Bondi, at eg fari þaa strax at qvongaz? og þaa verd eg at segia þer upp vist ockar.

B. Vel lijkar mer Aform þitt, og oska eg þer til lucku; enn so lijtst mer, sem þid megid bwaz vid miklum barnlagnadi, og megi þid þaa byggia fyrifram, hvorninn þid megid ala þavg vel upp, til gagns, enn ecki til Ogagns Fodurlandinu.

5. A. Þad mun vera meiri vandi, enn eg geti lært þad allt i einu, og fyrr enn eg hefi fengid konu eda barn.

B. Mikid af þvij verdr Reynslan at kenna yckr, þo get eg sagt þer þad strax. Þid eigid 1.) at fæda bornin, og þad vita allir Forelldrar Skylldu sijna. 2.) Eigid þid at leyta Fullkomnunar Saalum þeirra, med þeirri uppfræding, sem gefi þeim skyra þecking sinnar farsælldar, so at þeira vilie sannfæriz, at fylgia þeim reglum sem þar til heyra, og 3.) eigi þid at leyta fullkomnunar lijkomum þeirra, hvar til allt þad heyrir, sem eykr og styrkir heilbrygdi, afl, lettleika,

friidleika, handverkskonstir og allt atgørfi liikamans i ollu sem fyri kann at falla.

6. A. Margt verdr ockr vant i þessu.

B. Þad fyrsta og siidasta af ædr toldu kennir yckr siælf nætturan, þegar þid gætid hennar vega og ræda, enn hvad Sæla fullkomnun barnanna snertir, hafi þid Prest yckar til hiælpar, og Ræda, til hans heyri þid hvorn helgann dag. Veri þid i ollu dygdar og dugnadar Fyrimynd barnanna, þad eykr bædi yckar og þeirra fullkomnan og farsælld.

## Cap. ij.

### Atli tekr ser Jord.

7. **N**. Fyrst þu rædr mer ecki fra hiuskapnum, þa muntu ecki ræda mer fra buskapnum.

B. Rett getr þu til þess, þvij þad er avmingia hættr og Oræd, at vilia qvongaz til at ala born, i annara manna husum. Hvor madr a at ræda fyri konu siina og born, enn þad mæ hann ecki, hvar hann er annara hiu.

8 A. Her eru allar jardir bygdar, og mun einginn vilia leggia af Abyli siinu vid mig, gefdu mer ræd þad, sem tiltækilegast sie, so sem nu stendst a hogum miinum.

B.

B. Þad er hægt at gøra, þvij þer gengr gæfan i greipar, Kongr vor sendi hingat i land nw i aar mikla Rettarbot Nybælingum. Hwn hlioodar so. Hlustadu til.

„ Vier Christian sá Siounndi, „ af Guds Náð, Danmerkr og „ Norregs, Vinda og Gavta Kóngr: „ Hertogi i Slesvik, Holstein, Stor„ maren og Ditmersken, Greisi i Old„ denborg og Delmenhorst; Giorum „ øllum vitanlegt, at vegna þess oss er vid „ ymisleg tækifæri allraundirdaanugast fraa „ þvij skyrt, at Islands innbyggiarar sieu „ nw aa þessum tijmum miog fækadir, at „ margir Bæir, jaa heil Smaaherud, sem „ fyrrum hafa bygd verid, og ecki sijdr ad„ rar Vijdlendr, sem byggiaz kunna, liggia „ i avdn, til lijtillra edr eingra nytia: Þaa „ vilium Vier, af þeirri einkar Konglegri „ umhyggiu, sem Vier hofum fyrir Islands „ Vidretting, til þess Landid rætiz betr, „ og Folks Fioldinn vaxi, fyrst um sin hafa „ veitt og skipad, lijka sem Vier her med „ allranaadugast veitum þeim ymisleg Frij„ heit, sem her eptir kunna at setia þar aa „ Landinu bw aa eydi-jordum, og framvegis „ giorum þar til þessa Skipan, sem eptir„ fylgir.

I.

" Hver sem vill taka ser til bwstadar, bæ edr plaats, a þeim storu vijdlendum i byggdum Herudum, sem til lijtillra edr eingra nytia liggia i Orækt, skal lysa þvi i Alþijngisbookinni, so þad verdi kunnugt; eñ þeir sem kunna at hafa edr meina sig at hafa Eignar-rett til þvijlijks jardarparts, skulu vera skylldugir til at avglysa þad fyri þeim Amtmanni i hvors Amti jordin liggr, ei seinna enn a nærsta Alþijngi, ef þaa eru meir enn 3 Maanadir, edr nærri 4, fraa þvij lysingin var birt i Alþijngisbookiñi. Nw ef at einginn kemr frañ a tilteknum tijma, sem þykiz hafa rett til þessarar Eignar, skip- ar Amtmadr þeim Syslumanni sem þar a hlut at, med tilteknum 4m. rettsynum og skynsomum daanumonnum, at skoda landid, og med reglulegri giörd, afgreida honum þad, sem fyrstr gaf sig frañ, med so mikilli vid- lendu sem hooflegum Bæ syniz navdsynleg vera.

II.

" Til slijkrar giordar stefniz alltijd nær- stu bæa Eigendr, þegar þeir eru innanlands, ellegar þeir sem þar bwa, so at þeir megi reyna hvad þanninn afgreidiz til Byggingar. Komi einginn þessara, edr ecki allir, þaa halldi menn samt Giordinni frañ, og hafa þeir

Þeir eignarmenn eingvann rett at œtelia ſijdan, ſem ecki komu, þœ þeir voru loglega ſtefndir. Nw mætir einhvor þeirra, og ber þad fram, at fyri bygging þeſſarar nylendu, lijdi ſijn jord Skada og Landkreppu œ Uthogum beitarlandi og ſlægium, ſem henni ſie þo reiknad til dyrleika og ſkullda; þœ ſkal Syſlumadr, og hinir tilteknu menn þegar i Stad giora grein œ þvij, hvort nockud af þvij landi, ſem afgreidt var, hevri honum til med rettu og ſanni, eptir dyrleika og ſkulldum hans jardar: Finni þeir þad ecki, þœ ſkal giord þeirra til lykta leidaz og gyllda. Þad metſt ecki fyri nockurn ſerilagi Eigindoom, þo ad nœnuſtu bygdarmenn haſi lagt þad i vana, at reka Pening ſinn, i þad land-plœts, œ medan, og vegna þeſs þad lœ i eydi, þar þad er at œlijta ſem almenning, til hvors ſem menn hafa œdr hagnytt ſer þad, ſo at þar ſkal ei at ſijdr gioraz grein œ, hvort þar er ecke nog Rwm, fyri nyann Boolſtad og Sambeit; þvij þad er Vor allranœdugaſti vili, at landid ſkuli ecki, fyri Misbrwkan, i Ævdn liggia.

III.

" Komi nockr fram med vafalavſann Eigindooms rett, til landſins, framſer þo, eptir Amtmans Fyriſogn, ſw giord, ſem

ađur er sagt. Finni þaa Syslumađr og tilteknir menn, at Uthaginn liggi onytr, ćan nockurs serlegs gagns, enn kunni þo gefa hagqvæmd og nog rwm fyrir eitt nytt byli, þaa skal þar byli setia; þo so, at Eigandinn halldi sinum retti at reisa þar Bæ, og lijka at semia vid þann sem bylid tekr, eptir logum og sanngirni um landskulld og leignagialld, ef hann vill Qvilldi faa, þvij ćan þess maa ecki þreyngia honum til at taka þavg; enn þaa skal Eigandinn gangaz undir þat at hefia þar bygging, fyrr enn ćarid se lidid. Nw vill hann ecki, edr megnar ecki, at koma þessu til leidar, og vill samt sem ćadr ecki selia þennann jardar part Nybyggiaranum, fyri sanngiarnlegt verd, þaa skal samt afgreida landid, þeim sem fyrst gaf sig fram̃, at vilia byggia þad, sem þaa byggir þar sialfur bæ sinn, med þeim Frijheitum, sem Vier vilium allranaadugast unna slijkum Nybyggiurum, og her eptir verda talin; þo at okrenktum eignar-retti Eigandans.

IV.

" Komi nockur fram̃ med þad, hann vili taka ser byli, i afrettar almenningum, og obygdu vijdlendi upp til Fialla, skipar Amtmadurinn menn til giordar, sem fyrr er sagt, þegar þvij hefur ađur verid lyst i

Al-

Alþijngisbookinni, hvar til Syſlumadrinn lætr ſtefna eignarmonnum edr Bwendum þeirra Bœa, ſem næſtir liggia ſlijkum Obygdum, ef mætti ſkie, at nockrir af þeſſum Bœum, ættu þar med rettu eitthvort Itak, ſo þeir ſiæ megi, hvad mikid land er ænafnad til Nylendunnar, hvar eptir Syſlumadrinn med þeim tilteknu monnum, æqvardar og mælir þad land, ſem ſlijku Byli mæ nægiaz bædi til Twns og Haglendis, og þad ſama ænafnada land, uppſkrifar hann næqvæmlega, eptir þeſs Stærd og Landamerkium.

V.

Med Bœa Byggiing i þelm Herudum, ſem fræ fyrri tijmum hafa legid i avdn og kaldakoli, fari ſem ædr er mælt, um afgreiding, mæling og uppſkrift, hvad ſnertir ſtærd og landamerki, at þvij fræteknu, at ecki þarf ſo lavngu fyrirfram at lyſa þvij i Alþijngisbookinni, ſem virdiz oþarfi, þvij þeſs er ecki at vænta at nockr madr kunni at eigna ſer þad, ſem hann væri Eigandi edr Erfingi þeſs, eptir ſo langann tijma, helldr mæ þad teliaz yfirgefin Eign, og eingis manns Eiga, og þeſs vegna dugir þar eckert tilkall, edr mootmæli; Sæ ſem þæ vill taka ſer Boolfeſtu, i ſlijkum avdnum, lætur Amtmanninn vita þad, hvor er ſier fyri



þvij at Sysslumadr giori þar um løglega, sem ꜳdr er mælt. Þo vilium Vier, til frekari Orsunar i þessu, allranꜳdugast hafa eptirlꜳtid, at þegar einhver, sem vegna langrar yrkingar, edr annara orsaka, meinar sig hafa nockra tiltølu til þessarar jardar, i bygdum edr utan þeirra, sem legid hefr i eydi, um løghefdar tijma edr lengr, at þeir, eptir þessari Forordning meigi fremr ødrum niota Rettar til þeirra Lendna, þegar þeir vilia reisa bygd ꜳ þeim, ef at þeir giøra þat sijdan i tijma.

VI.

" Þegar nockr Landspartr er þanniñ ꜳqvardadr og mæltr til Abylis, fær Sysslumadr Amtmanninum Utskrift af þeirri Giørd, enn Amtmadrinn gefr Nybyggiaranum Byggingarbref. Giørdinni skal lysa ꜳ Þijngi, og skal hwn þꜳ i allann mꜳta ꜳlijtaz og gylda fyri fulla Heimild.

VII.

" Allar þessar afgreiddu lendr skulu nꜳqvæmlega uppskrifaz, sem ꜳdr er mælt, at Stærd og Landamerkium, so þad verdi varaz, at slijkr nyr Boondi færi wt Landamerki sijn, umfrañ þad sem honum er afgreidt. Ecki helldr mꜳ honum meira afgreidaz,

greidaz, enn med Rækt og Þrifnadi þarflegt maa virdaz goodum, hooflegum midlwngs Bwnadi, enn sijdr so mikid Vijdlendi, at hann kunni at setia þar nidr adra Bændr, ellegar eptir lyst sinni, laata þad liggia orækt-ad; helldr skal þad, sem hann þarf ecki med, verda ødrum at gagni, sem eptiraa kunna at gefa sig til at vilia reisa þar Bæi, bædi vegna þess, at þad er gagnsamlegra til Sambiargar, aa afviknum Stødum at hafa Naagranna, enn vera i Einbyli, og lijka hins, at einginn maa hafa meira Land undir, enn maatulegt sie fyrir hans jardarhæd. Nw kemr þad upp, at undirhyggia hafi brwkud verid, þegar Afgreidslan skedi, þaa skal hwn sijdan ecke gylda, þegar seinna er loglega aa-talid.

VIII.

" Þeir 4. daanumenn, sem i fyrstu grein eru nefndir til at skoda og afgreida Landid, villum Vier allranaadugast, i tilliti til þessarar Giørdar serilagi, skuli fyrirfram tak-az i loglegann eid, at þeir vili þar i framfa-ra, skoda, afgreida og aalykta, sem þeir best vita, og sem þeir skynia rettast og sannast vera. Fyri Giørdina og Ferdina til Plaat-sins fær hver þeirra 40 Skillinga Courant aa Dag, þegar Land er wtgreidt til Nybyl-is, enn þegar ecki verdr af þvij, þaa 20

Skillinga

Skillinga fyri hvorn Dag, sem þeir þurfa til Ferdarinnar fram̃ og aptr. Sysslumadrinn fær, fyri hvoria slijka Giord, at Utskriftinni medreiknadri, þegar Nybyli er afgreidt, 3 Rijkisdali Courant, og þar at auki betalijng fyri Ferdina afram̃, eptir vegalengd 1 Rijkisdal fyri hvorn Dag, edr Þijngmannaleid; enn þegar ecki verdr af þvij at Nybyli sie wtgreidt, fær hann at eins betalijng fyri Reisuna fram̃ og aptr, eptir fyrri tiltolu; vilium vier allranadugast lata vijsa hlutadeigendum til þessara launa, þegar Amtmadrinn i þvij Plaatsi auglysir þad voru Vestindiska Gvineiska Rentu og General Toll-Cammere, at slijk Giord hefr fram̃farid, eptir þeim mata, sem Vier hofum fyrisagt.

IX.

" Þeim sem̃ taka sier Abyli og byggia Bæ, i Mannabygdum, vilium Vier allranadugast veita at þeir sieu frij fra Skatti og Tijund i 20 Ar. Deyi þeir fyri þann tijma, niota þeirra Eckiur edr adrir Erfingiar somu Frijheita, allt þar til 20 Ar eru wti, hvort sem þær gifta sig edr ecki, og hafi einginn neinn serlegann Eignarrett til Landsins, verdr þar at auki þessi nybygda Jord, med þvij Landi sem þar til er lagt, Abwandans Odal og Eign.

X.

X.

" Eigi annar madr Landid, skal sáa sem þar byggir vera frij fyri Skatti og Tijundum sijna lifstijd, eins Eckia hans eptir hann, so lengi sem hwn lifir, og þeirra Son edr Doottir hafi rett og tilkall fram̃ yfir adra, at bwa áa þeim Bæ, ef þavg eru þar til dugleg. Fyri Landskuld og Utsvar skal Nybyggiarinn vera frij i 3 Ar, ef at Landsdrottinn hefr haft kostnad fyri Bæar Byggingunni; enn hafi Nybyggiarin̄ kostad siaalfur þar til, skal hann vera Landskuldar og Utsvars frij 10 Ar, og þaa skal áa Jordina setiaz sanngiarnleg Landskuld, eptir hennar Gædum. Þetta hid sama áa og so at skiliaz um fiarlæg Beitarlønd og Afrettir, sem tilheyra einhvørium Gardi edr Kyrkiu; enn ef at Landid heyrir siaalfum Oss til, þaa niooti Nybyggiarinn, þegar hann hefr kostad fyrir Bygging hins nya Bæar, auk tilteikinna Frijheita fyri sig, Eckiu sijna og Børn, einninn frijunar fraa Landskuld og Utsvari i 20 Ar, og deyi hann aadr, fylgia þavg Frijheit Eckiu hans, þar til 20 Ar eru lidin.

XI.

" Þeir sem setia Bw og byggia Bæi i Afrettum, sem ei eru serilagi nockrs man̄s Eign, ellegar i eyddum og yfirgefnum Bygdum

um, ſieu frij fra Skatti og Tijundum, bædi þeir og þeirra Eckiur, eptir undangeingnum 9da. Art. ſamt nidoti Jardarinnar til Odals og Eignar, fyri ſig og ſijna Erfingia.

XII.

" Allir ſlijkir Nybyggiarar ſkulu aňars vera ſkylldir at hlada forſvaranlegar Girdingar, bædi i krijngum Tunin, ſem þeim hafa verid afgreidd, og lijka krijngum hina Landeignina, ſo mikid ſem þeir orka, þar at auki med allri koſtgæfni rydia og rækta Jordina: Skal Syſlumadr jafnlega komaz eptir þvij, hvorninn þad tilgangi, og láta ſijdan Amtmanninn fa þad at vita. Finniz nockr doſinn og hyrdulaus, ſkal þad auglyſaz voru Veſtindiſka og Gvineiſka Rentu og General Toll-Kammere, þa ſlijkr madr ma vænta, eptir Malavoxtum, at miſſa þeirra Frijheita, ſem honum vooru gefin, og at Jordin verdi fengin ødrum duglegra manni til abwdar.

XIII.

" Amtmadrinn, ſem her a Hlut at, a arlega at láta vort Veſtindiſka og Gvineiſka Rentu- og General Toll-Kammer vita hvad framgengt verdr um þeſſa Nybyggiara., einninn hvor torvelldni, hindranir og moot-

mootnæli þessu kunna at mæta, so hann geti, eptir æsigkomulagi fengid vora nægvæmari allranædugustu Urlavsn; so sem Vier allranædugast vilium vera forhuxadir, enn þær framar med tijdinni, at styrkia og stydia þetta Uppætæki, med slijkum Rettarbootum, sem finnaz megu þarflegar, eptir þeim krijngumstædum, sem hvad eptir annad syna sig, og þvij Gagni, sem þar af mæ vænta: Hvar eptir allir og serhvör hlutadeigandi eiga sig at retta. Gefid æ Voru Sloti Christiansborg, i Vorum Konglega Residents Stad Kaupmannahøfn 15. Apr. 1776."

Undir Vorri Konglegre Hendi og Signeti

Christian R.

(L. S.)

Onnur Forordning um Garda og Þwfna=Slettun med fleyru á hrærande Jard Rrkiuna á Islande.

„ Vier Christian sæ Siounde
„ med Guds Náð Kongur til
„ Danmerkur ꝛc. ꝛc. Giorum ollum vit-
„ anlegt, ad þar er Vier, eins og Vorer
„ hæloflegu Fedur, jafnan hofum bored
„ alla fodurlega æhyggiu fyrir, ad Islande
„ mætte

„ upphiálpaz, og vorra þar bwande kæ-
„ ru og hollu Underſaata Kior betraz, og
„ þeßvegna laatid koſtgæfelega eptergrenſlaz
„ þeim orſokum, er þvij kynnu vera til
„ hindrunar, ſem og ſkipad ad ſiña uppaa
„ þav Medol, med hvorium þad kynne
„ ad vidrettaz og komaz aptr aa fætr;
„ So hafa, aaſamt odrum hindrunum
„ þeſſar vered Oß allraunderdaanugaſt til
„ kynna gefnar, ad Twnin aa þeim fleſtu
„ Jordum þvert aa moot Lands-Logunum,
„ eru aan Gyrdijnga, og morg þar ad
„ avk full af Þwſum, hvad hid fyrra er
„ Skulld i, ad þav verda ei aan ſtærſta
„ Omaks varinn, medann aa Grasvextin-
„ um ſtendr, enn aa odrum tijdum trod-
„ az þav nidr og yferrijdaz af Navtpen-
„ inge og med Heſtum. Hitt annad, þad
„ er ad ſkilia Þwſurnar, wtheimter jafn-
„ adarlegann og mikinn Aburd, og gefr
„ þo eige ſoddann Avoxt eda Gagnſeme,
„ ſem þar til ſvara kynne, vegna þeß þær
„ liggia meir enn Slettlendid, vid froſte
„ og ſtormum, hvar af þær loſna, blaaſa
„ upp, Moldin i þeim deyr, og þær ver-
„ da Moſavaxnar, ef þær faa eige idulegs
„ ann Aburd: Hier ad avk verdr Boon-
„ dinn ad eyda ſerſolldum tijma og erfide
„ til ad ſlaa graſid af þeim og mille þeir-

„ ra

„ ra, hvad allt giører hanns heyskap mædu
„ og kostnadar samánn, og þeßvegna spill-
„ er hanns Aburde, tijma og erfide. Þar
„ nw tilbæreleg yrkia og notkun Jardariñar
„ er grundvøllr og Stofn under hvørs eins
„ lands velmegan, enn hennar forsoomun
„ þar œ moote til þeß vanmœttar og þurfd-
„ ar, so høfum Vier œlited þad yfrid navd-
„ synlegt, til Jardyrkiunnar sønnu betrun-
„ ar og uppreistar, hier med allranœdugast
„ ad tilskipa og bioода sem epterfylger:

I.

„ J krijngum alla bœe og twn, hvørt sem œ Jordunum bwa Bœndr eda Embætt-ismenn, Andleger eda Veralldleger, þar sem annadhvørt avngvar eda eige fullkomlega goodar Gyrdijngar eru uppsettar, skulu hier epter allstadar sem þvij verdr vidkomed bygg-iaz forsvaranlega hœer Gardar af Steine, so ad fullvaxinn Madr gete genged œ Gardi-num fram og aptr, œn þeß ad nockur Steiñ hrynie wr hønum. Þeßkonar Gardur skal vera ad mindstu 2. Alna hœr, og sem framast mogulegt er leggiaz beint œfram.

II.

„ Ef so hagkvæmr og flatr Steiñ eige er ad fœ, skulu Gardarnir hladaz af Gras-

 torfe

torfe eda Hnavsum, $2\frac{1}{2}$ Al. þyckver nedann til, enn ωvaler og miooer ofann til. Þesser Gardar skulu hladaz ωn nockurs Steins ω mille laganna (nema eitt lag nedst ω hvoria hlid, ef Stein er ad fω) med Grasrootinne snwande wt til beggia hlida og allt i kriing, hvarmed Gardarner eige einasta verda varanleger, so ad þeir med liitille Adgiord geta allt astaded, helldr og innann skams tiima munu riikuglega aptr giallda þad erfide sem fyrer þeim hefr vered haft, þar þeir strax ω fyrsta Are epter ad þeir eru hladner, bera gott Gras, þegar Grasrootin er nockurnvegin good; Þesser Gardar eiga ad vera $1\frac{1}{2}$ Al. hωer þegar þeir hafa siiged.

III.

„ Þar sem Jordin er blavt, ellegar eige noogu fost og þett, til ad bera Steingarda þwnga, so ad uggvænt være ad þeir kynne ad sockva eda hrynia nidur, þar eiga ω sliikum blavtum stødum, nockr stycke af Gardinum heldr ad hladaz upp af Grastorfe eda hnavsum ω þann hωtt, sem Art. 2. fyrerseger, jafnvel þo þar annars sie fære ω ad hafa godann Stein.

IV.

„ Þar sem Jordin er good og fost, skal stiingaz wt Veita eda Grof fyrir wtann Gard-

Gardinn ¾ al. diwp ꝏ ſkꝏ nidr og wt ad, ¾ al. frꝏ Gardinum; Ef Jordin er blavt og Myrar kend, ſkal veita Vatninu frꝏ med Grof eda Rennu 1. al. diwpre eda meir ef medþarf; Enn ſw Renna ꝏ eige ad grafaz med eda rett hiꝏ Gardinum, ſo ad Grundvollurinn eige veikiz þar af, og Gardrinn falle nidr, helldr wt ad, i þꝏ ꝏtt, hvar vatnid hefr beſt afrennſle.

V.

„ Hvor og einn ſkal vera ſkylldugr ad hlada ꝏrlega 6. fadma af Steingarde, eda 8. fadma af Moldargarde fyrer ſiꝏlfann ſig, og eins miked fyrir hvorn verkfœrann Karlmann ſem hann hefr ſier til vinnu. Enn ef hann hledr framyfer þetta ꝏqvardada Mꝏl, ſkal hann af þeim Hofudſtool eda Summu, ſem Vier vilium allranꝏdugaſt ætla hier til, fꝏ til upphvꝏtnijngar fyrir ſlijka ſijna vinnuſeme, fyrer hvorn fadm af Steingarde 16. Sk. og af Moldargarde med Grasſverde logdum allt i krijng 12. Sk. Danſka i Courant, hvor Skenkr þo einaſta er handa Bœndaſtandinu, og þeim af Preſtaſtandinu ſem hafa þav allra ſꝏtœkuſtu Preſtakoll. Fyrir annarſlags Garda af Steine eda Moldu gefz einginn Skenkr, eige helldr, ef eige allt, bœde þad ꝏqvardada Mꝏl, og hvad þar fram yfer er hladid, er ſo ꝏ ſig komed,

 

sem hier ad framañ allranaadugast er uppaaboded.

VI.

„ Ef omegulegt kynne reynaz, ad faa annadhvort hendtugann Stein eda Grastorf til slijkra Garda, sem hier eru tilskipader, maa i þeirra stad grafaz aarlega krijngum Twnid eins langt og aadr er um Gardana sagt, hvor Grøf eda Skurdr skal vera i þad minsta 1. al. diwp, og ad ofanverdu 1½ al. breid, enn aa botninum ¾ al. breid. Allre þeirre Moldu sem þar upp wr er grafiñ skal kasta uppaa þann grafarbarminn, sem er iñ ad twninu, so haatt og bratt sem hwn møgulegast legid getr. Enn þar slijk Gyrdijng ei verdr miøg varanleg, og jafnadarlega wtheimter erfide og adgiørd, so maa hwn helldr eige brwkaz, nema aa þeim Stødum hvar reynaz kynne olldwngis omøgulegt ad faa annadhvort Grastorf edr Steina, hvad þaa med løgformlegre Skodun og yferlite aa sialfum Stadnum af vidkomande Sijslumanne med tilteknum skinsømum Mønnum aa ad metaz og afgioraz.

VII.

„ Þar sem Gardr verdr mille bæia og twna, þar aa hann ad hladaz med sameigenleau erfide af jafnmørgum og duglegum Moñum fraa hvoriu af slijkum Naabylum, so langt

langt sem þeirra twn liggia samaun. Enn sæ af þeim sem best kann ad hlada gard, eda best vill læta hlada hann, skal standa fyrir verkinu og hønum æ i þvij ad hlyda. Ef alfara vegr liggr þar um, þæ kosta þeir bæder hlid þar fyrir, og halde þvij vid Magt. Hlidid æ ad vera forsvaranlegt, og hanga soleidis æ jærnhiorum, ad þad lukiz aptr af siælfu sier.

VIII.

„ Pad skal vera Hreppstiooraña skyllda, þo epter Syslumannsinns tilsioon, ad adgæta ad gardarner verde ærlega so langt og forsvaranlega hladner sem sagt er, og þeim sijdann tilbærelega vidhallded, hvorsvegna þeir eiga ad skipta hreppnum eda Sveitinne sijn æ mille, med Syslumannsinns samþycke, og lijka æ þeim i Landslogunum tilsettá tijma, aller til samanns, eptersiæ i Sveitinne, hvort og hvornin sw tilskipada Gardahledsla og vidhalld sie sett i verk. Finniz þæ brestr æ einhvoriu þar vid, skal sæ sakbitne gialda fyrir hvorn Gardfadm sem annadhvort vantar, eda eige er forsvaranlega hladinn epter þessare tilskipan, ellegar og eige er tilbærelega vidhalldid 10. Sk. til Sveitar-Kassanns, sem Hreppstioorarner strax skulu upptaka hiæ hønum, og hann þar ad avk vera skylldugr æ nærstkomande Are ad hlada upp þad sem



a brast, avk þeß sem hann annars a upp ad hlada. Ef þa enn vantar nockud a, gialde hann fyrer allt þad sem adr er sagt. Enn finniz slijkr brestr hia honum i 3 samfelld Ar, svare hann somu bootum, og þar ad avke byggiz honum wt af Jordinne, fyrer slijka hanns ohlydne og lete, ef hann er leigulide, so ad einhvor duglegre abwande gere orded til Jardarinnar tekinn. Enn sitie hann a sialfs sijns eign, gialde twofalldar bætr fyrir hvorn fadm sem abrestr, eda eige er forsvaranlega hladinn eda vidhallded. Og hallde hann afram̃ i 3. Ar ad forsooma þad, sem hier i er tilskipad, skúlu Hreppstioorarner hafa Myndugleika til, epter radslogun vid Syslumanniñ, ad fa og kaupa adra Menn til ad giora erfidid uppa þeß sakbitna kostnad, hvor, ef hann eige med goodu vill gialda, skal upptakaz af hanns bwe an frekare Lagasooknar.

IX.

„ Ef nockr, hvort hann helldr er Boonde eda Koongl. Embættismadr, andlegr eda Veralldlegr setr sig upp moote Hreppstioorarna edr annara Yfervalda radstofun um Gardahledslu, ellegar hindrar þa Meñ sem Hreppstioorarner setia uppa hinns sakbitna Kostnad, til ad lwka þvij verke, sem a brestr, skulu Hreppstioorarnir strax fyrir utañ minn-

stu

ſku bid, undandrœtt eda tilſlœtt, ſtefna
þeim ſakada med Politie Fyrirkalle fyrir Sy-
ſlumanninn ſem ſtrax ſkal dœma i Mœlinu;
Og ef hann þœ kemz ad ravn um, ad nocke
hafe med virkelegu forbode eda lijkamlegre
Mootſtodu hindrad eda varnad þeirrar Gard-
hledſlu, ſem annadhvort Hreppſtioorarner
eda adrar Yfervalldsperſoonur hafa giort
rœd fyrir, og ſem annadhvort epter þeſſare
Forordnijngu eda odrum Logum er tilſkipud,
þœ ſkal ſœ ſakade, ef hann er Boonde, gial-
da til Sveitar-Kaſſanns 2 Rdr. og ſie hann
Veralldlegr Konwngl. Embœttismadr ſkal
hann gialda til Sveitar-Kaſſanns 3 Rdr. og
jafnmikid til þeß Islendſka Juſtitz-Kaſſa.
Enn ef hann er andlegr, þœ gialde hann 3
Rdr. til Sveitar-Kaſſanns, og jafnmikid til
fœtœkra Preſta-Eckna. Somu Sekt ſkulu
þeir vera undervorpner ſem ſetia ſig moote
ſtœr upptekt fyrir þær bætr, ſem þeir kynnu
verda ſkyllduger ad lœta wt fyrer ſijn Mis-
brot, moot þeſſare tilſkipan. Allar þær ſekt-
er ſem epter henne tilfalla Sveitar Kaſſanum
ſkulu annars ganga til jafnra ſkipta mille
Sveitarinnar olmuſu Manna og Hreppſtioo-
ranna, fyrir þad omak ſem þeir hafa fyrir
þeſſare Innrettnijng; lijka ſem og þeir af þeim
ſem her i kynnu ad ſyna fremr odrum nockra
ſierlega koſtgæfne, meiga þar ad avk vænta

 ſier

sier frekare lavna þar fyrir epter atvikum; hvar a mooте þeir sem hier i forsooma sijna skylldu, eiga ad tiltalaz af Sysſlumanninum, og aan Appells dæmaz i sekter til Sveitariñar olmusu Manna, epter þeirra brots fyrir fundnu aasigkomulage og þeirra formegan.

## X.

„ Þar þwfurnar eru sw onnur stoora taalman fyrir Jardyrkiuna, so skulu þær og aarlega hier epter burttakaz, þar sem twnin finnaz med þeim vaxin, so ad Twnid smaamsaman gete ordid slett. Hvorsvegna og einn sierhvor, sem hefr þyst twn, skal aarlega sletta og jafna 6. fadma i ferkant fyrir siaalfañ sig, og eins mikid fyrir hvorn vinnufæramn Karlmann sem hann hefr til verknadar, og brwkar til Jardarinnar fyrir vinnu.

## XI.

„ Þwfurnar eiga ad pælaz upp i ferstrendum Styckium, fraa hvorium Moldina aa ad skera med liaa, so ad Grassvordrinn verde epter einnrar handar þyckt; Eñ framar aa Moldin ad takaz eins diwpt uppwr þwfustædinu, hvar i þav ferstrendu Stycke eiga sijdann nidr ad fellaz, og med treslеggiu wt ad beriaz, so ad barmarnir falle vel samann. Þeß betr sem grassvordrinn er

barinn

barinn (þo ei ſo hart ad hann fare i ſundur) þeß hentugre verdr hann til ad taka a moote aaburde, og ad bera mikid gras; hvorsvegna og þeſſar torfur eiga ſo ad uppſkeraz, ad þær eige fullkomlega fylle holuna a allavegu, fyrr enn þær eru nidrbardar. Þaa affkornu og uppgrofnu Mold, a ad wtbreida til aaburdar a þær þwſur ſem a þvij Are eiga ad ſlettaz; Hvad jafnvel er nytſamlegt ef Slettaninn ſkedr nockud ſnemma a vore, enn ſier i lage ef hwn ſkedr a hauſt, ſo vel ſem og ad breida hana þunnt wt a þad ſlettada twn. Sierlega getr þeſſe Mold þienad til ad kæfa Moſann a Moſavoxnum Þwſum, eins og hwn epter a giorer hinn beſta Grasvoll, þegar aaburdr Arid epter er borinn þar a. Þaa a þann haatt wtbreiddu Mold a ad medhøndla og melia um ſumarid med Klaarum eda Mykiukvijſlum eins og annann aaburd. Hvada ſteinar ſem finnaz i og under þwſunum, ſkulu koſtgæfelega ſamannſafnaz og burtflytiaz eda kaſtaz i Grundvollinn a þeim Stodum, hvar Gardar eiga upp ad hladaz. Enn hittiz ſo ſtoor biorg i twninu, ad þeim eige af ollu bæarfoolkinu verde olted til Gardſtædeſinns, ſkal þo ſlettaz i kriingum þau, og eiga þau ad hyliaz med þeirre Moldu ſem upp verdr grafinn og epter verdr fra þwſna Slettaninne, þaa ſa Gras

svordr i kriingum þessa Steina, sem annars hefde legid under Moldinne, a ad stiingaz upp og leggiaz ofann a, so langt sem hann hrockr til, og allrahellst a Kollinn so hann þeß fliootar gete grasbyndiz.

XII.

„ Uppa þad twnaslettanin gete ordid Gardhledslunne ad gagne, og erfidid falla þvii lettara, skal twnid slettaz under eins og smaamsamann, sem gardrinn er hladinn, so ad sw Mold sem epter verdr af þwfunum, og ofmikil verda kann til ad breida a twnid, sie logd nedst i Gardinn, aasamt med þeim Steinum og Mol, sem hittiz i twninu.

XIII.

„ Finniz so davdar og spilltar þwfur, ad þær aalijtiz oþienanlegar ad nidrleggiaz til grasvaxtar, edr þær tolla eige samann, þa skulu þær burtflytiaz til ad fylla med Gardana, eda til ad hylia med þav stoor biorg i twninu, sem eige kunna burt ad veltaz, ellegar og til ad fylla upp med bleytufull, vot og swr plaats, ef nockr þvijlijk kynnu finnaz i twninu, hvadann vatninu eige verdr hæglega veitt med skurdum. Þad stycke af twninu, hvar þessar onytu þwfur hafa stadid, skal pælaz upp a havst, og Moldarkeckerner sundr krassaz,

kraſſaz, hvad ꝏ ny ꝏ ad itrekaz nærſtkom≈ ande Vor, og þꝏ ſkal breida þar ꝏ nock≈ urn ꝏburd epter efnum, og þar epter ſꝏ þar i Korne, ef þad er ad ſꝏ; hvar epter Kor≈ nid ſkal kraſſaz nidr med ſingꝏum Jꝏrnhok≈ um eda med Klꝏrum. Sie eige Korn til, þꝏ ſkal þar i planta Jardeple, ef þav er ad ſꝏ, ellegar og ſꝏ þar i miog giſid Næpna≈ fræ, þegar ꝏdr er bwed ad ſletta med Klꝏr≈ um, hvad er ꝏ ny ꝏ ad ſke med odrum hrijſum, þegar fræinu er ſꝏd.

## XIV.

„ Þwfurnar verda og brwkadar til Gardahledſlu, þꝏ hlidarnar af þwfunum eiga fyrſt ad ſtijngaz frꝏ allt i krijng, ſo ad þær ad nedann lode vid Jordina, hvar epter þwfuna ſialfa ſkal ſtijnga i mꝏtulega hnav≈ ſa, og þar epter pæla Moldina upp iñañ wr þeim epterſtandande bormum, hvoria ſijdañ med Sléggiu ꝏ nidr ad beria, þꝏngad til þeir eru ordner ſletter, og liggia jafnt þeim Grasſverde ſem ꝏdr var mille þwfanna.

## XV.

„ Hvor ſem ꝏrlega ſletter meira af ſijnu twne enn þꝏ vidd ſem i X. Art. er ꝏ≈ kvordud, ſkal ſꝏ fyrer hvorn fadm i ferkante ſem þar yfer er 8. Sk. til ſkenks, og ſꝏ ſem

gef≈

gefr sig fram til ad fær slijkann skenk, so vel sem þann, hvorium heited er i V. Art. skal þar um framleggia Hreppstiooranna Vitnisburd, um hlutarinns sanna æsigkomulag, hvor vitnisburdr þar ad avke æ ad hafa med sier ad bera Prestsinns og Syslumannsinns Uppæaskrift, til þeß frekare vissu. Skylde annars nockr leigulide skara so miøg fram wr, annadhvort med Gardhleðslu eda twnaslettan yfer þad ækvardada Mæl, ad hañs Hwsboonda Jørd þar af so ytarlega betriz, ad hwn þeßvegna mege ælijtaz ad vera hæckud ad dyrleika, finnum Vier þad allranaðugast ad vera tilbærelegt, ad slijkr leigulide, ef Hwsboondinn seger honum wt af Jordunne, eda hanns Eckia og born, þegar hann deyr, og einginn af þeim verdr vid Jordina, skule niota nockrar þocknunar fyrir slijka Jardarboot, epter Syslumannsinns og opartiskra Dæanumanna Alite, ef sialfer vidkomendr eige geta æn þeß komed sier samann.

XVI.

„ Hreppstioorarnir skulu med Syslumannsinns tilsioon gefa nækvæmann gaum ad twnaslettaninne. Sømu Sekter sem i fyrirfarande VIII. og IX. Art. eru tilsettar fyrir forsoomun æ Gardahledslu, eiga eins i ø'lum greinum ad gylda ef forsoomun skedr i Twnaslettaninne. XVII.

XVII.

„ Og þar Vor allranædugaste vilie og osk er, ad Kornyrkian i Islande mætte komaz i gang og brwkun, hvar til vier æ nærst-lidnum Arum allranædugást hofum láted senda Kornsæde til reynslu æ hafnirnar æ Sudurlandinu, so vilium Vier ad so stöddu, enn frekar til þvij stærre upphvatnijngar til nefndrar yrkiu, allranædugast tilsegia hvor-ium og einum, sem getr afląd hælfrar tunnu af fullbornum Rwge eda Bygge 1½ Rdr Skenk, og fyrir eina heila tunnu af sama 3 Rdr. Skenk. Þeir sem þar til hafa efne og lyst, eiga ad bwa til einn teig i twninu edr utann twns, sem hagkvæmaz feller med Gyr-dijng, pælijng og Slettan, og kasta þar æ øllu þvij er til Aburdar er þienanlegt, so sem torfmilsnu, gamallre øsku, eda og lijtlu af Kwamykiu, ef hwn er til, sem þo hid minsta æ ad vera ærsgømul. Til slijkrar yrkiu i smæu er nægianlegt ad pæla Jordina upp og eins vijst, eins og ad plægia, þegar Mold-inne er vel krassad wt yfer þad wtsæda Korn; enn nær Innbyggiararner kunna ad fæ lyst til ad hallda lengra æfram med þessa yrkiu, vilium Vier allranædugast hafa i þanka hvorninn þeim kann verda hiælpad og þeim wtvegud hentugre verkfære.

XVIII.

XVIII.

„ Jardeple hafa vered flutt til Sudurlandsinns, og a nockra Stade a Vestur-landinu til reynslu a nærstlidnum Arum, og Skenk hefr heited vered fyrir þeirra yrkiu. Og þar þad er reynt ad þesse avoxtr luckaz þar i landinu, eins og annarstadar i allslags Jordu, utann i Leirjordu og a votum Stodum, ja jafnvel og i gamalle osku, sem noog er af a morgum Bæum, i hvorre yrkian þar ad auk er hæg, og þarf eige nema miog lijtils Omaks; So væntum Vier allranadugast, eins og Vier hier med vilium hafa tilskipad, ad Innbyggiararner læte sier vera kostgæfslega umhugad ad yrkia þenna Jardar avoxt, sem er so drivgur i bwe, þar þeim ecke einasta frambydz so æskelegt tækefære og gagnsemd þar af, helldr og þeir þar med under eins geta allraunderdanugast giort epter Vorum allranadugasta Vilia og Velþocknan.

XIX.

„ Eige sijdr vilium Vier ad Innbyggiararner h... læte sier annt um vera, ad brwka til Kaal- og Næpna-Gardayrkiu þad fræ sem Vi r allranadugast hosum læted flytia til Landsinns, hvad Vier og framvegis vil um læta giora, þegar Oß er allraunderdanugast til kynna gefed ad þeir tilbærelega

færa

færa ſier þad i nyt. Hvar epter aller og ſierhvor einn eiga allraunderdaanugaſt ad breyta. Gefed a Voru Slote Chriſtiansborg i Vorum Konwnglega Adſeturs Stad Kaupmannahøfn þann 13. Maji 1776."

Under Vorre Konungl. Hende og Innſigl.

C h r i ſ t i a n R.

(L. S.)

Moltke. Prætorius. Erichſen.

Vormſkiold.

9. A. Bleſſadur ſie æfinlega Kongur vor fyri þeſſa Rettarboot, og henni ſkal eg dyggilega hlyda, ſaai eg hennar at niøota. Segdu mer Bondi! hvar ſerdu þaa Eydijørd, ſem aaradilegaſt ſie at fala?

B. Laattu lyſa þvij a Alþijngi ſtrax i Sumar, at þw vilir taka til bygdar þer eydijørdina Konwngſtadi, Amtmadur lætur Syſlumann mæla þer hana wt, med ſtoddum landamerkjum. Sw jørd er Kongseign, og lofar Hann i Forordningunni, at hwn ſkuli

li verda Odal þitt og barna þinna eptir þinn dag, ef þw byggir, ræktar og situr hana vel, æsamt med fleirum Frijheitum, sem þw heyrdir i Forordninguni sialfri.

10. A. Hvørninn get eg bygt þar? eg æ eingvann vid til Hwſa, og ecki get eg wti legid, þegar eg kem i vor at aydinni.

B. Þw verdur at fæ læn, þar sem þig sialfann brestur, at kaupa vid til bæar þijns; þw geldur þæ skuldir þær, er Gud gefur þer efni.

11. A. Samt verd eg at liggia wti æ klaka, þegar eg kem til boolstadar mijns at vori.

B. Eg skal gefa þer vikuverk þitt i havst, geturdu þæ bygt þer kofa, sem þer mæ verda at vorskiooli, þegar þw kemur at Konwngstodum, enn fyrst þw verdur at byrgia hann strax fyri snioonum, þæ varastu at sofa þar inni æ vori, fyrr enn þw hefur opnad hann fyri viku, læatid þar vind innblææsa, og sijdan kyndt Eini edur hrijsi þar inni, þvi þar sem jord hefur verid opnud æ havsti, bygt yfir, og byrgt so hwsid allann veturinn, þar kunna at hafa safnaz þeir dampar upp af jordinni, sem eru banvænir, helst sovandi monnum.

# Kap. iij.

## Atli velr ser Baarstædi.

12. Nw verd eg strax, er eg fæ Byggingarbref fra Amtmanni, at velia Bæarstædi, segdu mer nw fyrst, hvorninn þer lijtst at eg velie affstødu og landslag, sem byggilegast, þar sem eg tek eydijørd til fialla, sem legid hefr i kalda koli, marga manns alldra?

B. Fyrst skaltu velia þer gott vatnsbool, þvij flestum ohægindum er þad verra ef þess er vant. Þad Vatn er best, sem eingvan smeck, og eingva lygt hefr, og þad sem skwmar vel med Saxpu. Þessi kenniteikn telr D. Joh. Sam. Carl, og hroosar mest Regnvatni til dryckiar. Hann segir og þad bati miog vatn, at heita þad sem Theevatn, og drecka þad siidan kalt, þvi þa skilie sig fra þvij, þad sem jardarkyns sie. Þar mattu vænta at fa gott vatn, hvar diwp uppspretta kemr wr gryttri jørd, edr hvar lækr brytst miog i gegnum griot og Steinsand. Fair þw ecki annad, enn osmecklegt og barkandi vatn wr Myrarbrunnum (sem er langtum betra til litunar, enn dryckiar,) þa verdr þw at hlada upp brunn þinn allt um kring med grioti og bera þar at utan

Steinmol og Stelnsand, vel þyckt, og eins i botninn halfrar alnar lag edr meira; þar synast þau vatnid igegnum, og verdr betra. EckertSly edr Gras maa i þvij lijdaz, þvi yrmlingar tijmgaz þar þaa, og kunna at dreckaz i vatni af mönum. Þw verdr at hreinsa brunn þinn aarlega, so ecki nai þar at ilengiaz brunklukur edr annad illyrmi. Nockrir hafa veidt Smaasilwnga og hleypt þeim lifandi ofani Brunna, til at eyda þar ormum, lifa þeir þar heillt Missiri nidri, ef Brunnurinn er stoor. Þess verdr þw og at gæta, og en helldr kynna þer fyrifram, at vatsmegin sie so mikid, at hverki þorni upp i Sumarhita, nie taki heima, i Vetrarfrostum, og nægi til allra bwþarfinda.

13. A. Er þad allt oheilinda vatn, sem hefr Smeck?

B. Einn lærdr madr i Norvegi Strøm skrifar so: *) Heilsubrunnar vooru ei þecktir i Norvegi, fyrr enn 1768, þad vatn hefr Mineral- Anda, og Ætheriskt Loft. Merki þartil er sterk lygt og dampi af vatninu, og miklar boolur aa þvij, ef þad hristiz i glasi; þavg votn hafa i ser Salt, Brennistein og jaarn. Med Saltinu þynna þavg blodid, leysa Slijm, og þreyngia ser igegnum

*) Tilskueren paa Landet Tom. 1. Num. 9.

i gegnum finustu Ædar, opna þær, og hreinsa burt það skadlega fyrir Urin, Vallgang og Sveita. Med Brennisteininum lina þavg Verkium, og orka Svita, og þeirra jaarnkraptr styrkir Sinar og vodva: segia það Læknarar, at margir Siwkdoomar lækniz alldrei til fulls, nema med jaarnvatni, sem gefr Styrk og festu þeim portum lijkamans sem linadir eru. Merki þessara Brunna er: hvar þeir vella upp er brwn jord i kriijngum þaa, og jarnlaa ofanaa þeim: Myra vatni verdr fraa þeim at veita, ef það rennr i þaa, einfalldasta merki til at proofa þaa, er at leida Hest at þeim, vilie hann drecka, þaa er saa Brunnr goodr, og allar Skepnur vilia giarnan þetta vatn. Menn proofa þetta vatn so: þeir laata Gallepli, grænt Thee edr Tormentillu-root, hvort af þessu vel mulid, koma i flosku sem þetta vatn er i, Þess sliootara, sem þetta miol sockr, þess hreinnra er vatnid. Þess meir sem það breytir litum, fraa brwnum til hins svarta, þess sterkara er það. Það er og Styrkleiks merki, ef það fær nockud aa Hofudid, og leggr wt i limina. Þegar meñ hafa reynt þetta vatn, verdr at byggia yfir þvij, so at hverki Soolskin nie regnvatn komi þar at. Menn drecka vatnid af Bruñin

 um,

num, edr læta færa ser þad i flöſku, med þettum Tappa. og taka 2 Glös þar af, einum Tijma ædr menn fæ mat at morgni, og eins mikid, eptir middag, þæ matrinn er nærri meltr. ſijdan hræri madr ſig, edr gangi til ſijns erindis; þetta gioriz um Hæaſumar, ſo lengi ſem madr þarf, og hætti ei, þo eingvann bata finni i 14 daga; þvoi lijka i þvij veika limi. Gott er at purgera ædr og eptir. Menn kunna at drecka 1 pott æ dag fyrr enn þeir fæ fyrſt mat, og ſijdan at ödru hvoriu allann daginn, vid þorſtanum. Fyrifram mæ bloodrijkum Manni opna æd, og byria vatslækninguna daginn þar æ eptir. Her vid læknaz lidaverkir, ofþyckt blood, Tijdamiſir Qvenna, þrwnglyndi, þo þetta hid ſijdaſta, med þvij mooti madr drecki ædr Seidi af Horblödku, (Buckeblade, Trifolium fibrinum) ſem opt ver hiæ þeſſum Brunnum. Þetta vatn er talid gott, vid öllum innvortis Siwkdoomum, it. Skilnijngar vita og blooſins breſtum, eins magans og þvagſins, it. lijkþrar, og öllum þar med fylgiandi Krænkleikum, einkanlegaſt öllum þeim, ſem ſnerta bloodid og Saftirnar; gott er at ſmyria veika limi, med þeirri brwnu feitu jörd, ſem ſetſt undir þetta vatn. Lika kunna menn bada ſig i þeſſu vatni, nær madur heitir

annad

annad vatn, og hellir þar ofani þessu mineraliska vatni, til þess mætulega volgt er ordid, og brwka þetta bad æ 8 edr 9 daga fresti. Þetta skrifar Strøm.

14. A. Mun ecki þetta vera ykiur? og þo satt væri, hvar hefir eg æ Konungstodum slijkann Brun?

B. Sæ norski Sunnmærá Prestr Hans Strøm, er nw af morgum þeckter fyri einn af þeim lærdustu og bestu mønnum, i Nörvegi: og allt hvad han skrifar um slijka Brunna er samqvæmt Skynsemi athugasamra manna, enn þessvegna vildi eg læta þig vita þetta, at þer mætti at gagni koma; finnir þw slijkañ Bruñ i landeign þinni, sem mer þyki meiri von at verdi, ef þw gefr gaum at, þvij færri munu lendur þær æ Islandi, helst þær sem til fialls næ, at ei hafi þesslags Brunn, enn ecki alla þæ jafnsterka; og nockud af verkuñum þvijlijks vats hefi eg reynt her æ Bæ, mun eg þo hafa betri Brunna enn þæ eg hefi enn fundid, þvij noog hefr her jordin af ollu þvij brennu Brennisteini, Salti og jarni. Vidlijka dygdir eignar J. S. Carl, Hoflæknir Greifans af Isenborg, *) þvijlijkú Heilsubrunna vatni, hafir þw hvorki

 Sal

*) vom Wasser Engel.

Gallepli, Thee nie Tormentillu-root, þaa er þer betra enn ecki, at brwka i þess stad Burni-root edr Sortulings Mydlinga, til at reyna vatnid med.

15. A. Ecki lifi eg aa einusaman vatni; seigdu mer affstodu Twns og Bæar.

B. Taktu til raads med þer forstandugamenn, sem þeckia þar landslagid, þeir geta sagt þer og varad þig vid, hvar nedangongu vatn sie, og hvar is svellr upp aa vetrum, veldu þer þaa med þeim þann Stad; 1.) Hvar byggilegast er, og bestr jardvegr. Hans merki eru þessi. Haatt gras edr lijng saman vid: þvol, svortmold, einsaman edr leirblandin: Hvar menn grafa grof ofani jordina, og geta ei komid allri þeirri mold ofani grofina aptr, sem upp wr henni kom, verdr þess meira afgangs, sem jordin er feitari. Hvar laagt og rijrt gras er, þar er jordin jafnan mogr, nema mosa myri sie, hwn er jafnan aavaxtarlaus. 2.) Hvar Bæar og Penijnga hws kunna at standa aa Hooli, leyti, edr so haatt, at þad aa renni oll rækt wt aa Twn, enn ecki ofani læki dy eda fen at onytiu, þaa er lijka þerri sællra vid Bæinn, enn verdt er at varaz hvar vedr næmt er, helst Bilia vedr, ef menn eiga kost aa þvij. 3.) Hvar Bæ, Twni og Engium er sem ohættast fyri Skridum, Snioo-

Snioofloodum, Landbroti, af Am, Vötnum, Sandi, Siooargangi, edur ödrum Skada. 4.) Hvar Twnid er meſt ſudur undan Bænum, og a mooti Soolu, helſt ef raklendt er, ſo hennar neyti ſem beſt framan af degi, enn liggi i Hlie fyri norrænum. 5.) Hvar Twnid hefr ſem minſt af Kulda veſli og nedangangs vatni, þvi þeßhattar jord er alldrei frioodſom, ſijſt þegar hwn ligge i mooti nordlægri att, enn þad koſtar opt mikid erfidi, at velta öllu þvij vatni burt. 6.) Pad er hagqvæmt at Bondi ſiai innan wr Hwſi ſijnu, hvad um er wti, hvört nockr ferdaz um, edr kemr at Gardi; um Twn ſitt og Engiar, Fioos og Fiarhws, Hialla og Skipavor vid Sioo. Þetta ſijdaſta taka Sioobændr a Veſtfiördum til vara, og ſia þeir wr Rumi ſijnu, hvört Sioovedr er, og hvad Sioofarföllum lijdr. 7.) Hvar þurt og gott er atreidar, þvij blotni þeir trodningar miog upp, þa leggia Ferdamenn hvoria Gotu wt af annari, og verdr allt þad land, ſem upptredſt önytt a meddn ſo fer fram. Waradu ſo til at Leſtamenn hafi goodann þioodveg, utan til vid Twn þitt, ſo þeir þurfi ei at reka yfir þad, og er beſt at ein Gata ſi ſkyr og breid fra þeirra vegi heim og framm at Bæ þijnum, fyri þa ſem koma vilia. Þegar þw

giorir sijdan Trod at Bænum, ꝏ hwn at vera ei minna enn 5. ꝏlna breid, og er þier langtum minni Skadi, at missa þad Plꝏts, enn at Twnid trodlz. 8.) Getirdu komid þvij vid, þꝏ verdr þer þad mikid hagrædi, at leggia þer þar Twn, sem hægt er at fꝏ efni i Twngard allt um krijng, hvort helldr er Grioot edr Hnavs, og hid sama er jafnan athugandi, þar sem menn brioota jord til Engis edr Akra. Þetta flest allt er tekid, wr Bæklijng Varronis de re Rustica. Lib. 1. Cap. 12. 13. P. Juels, Gooda Boonda Cap. 13.

## Kap. iv.

## Atli hysir Bæ ꝏ Konwngstodum.

16. **A.** Heyrt hefir eg hvorninn eg eigi at velia Boolstad, enn segdu mer, hvorninn ꝏ eg at velia sialfst Hwsastædid?

B. Hart og hꝏtt, þurt og þiett, einkanlega at þw sert viss um at ecki sie nedanganga, (§. 15.) hvar ei hallar miog landinu, þvi þar kostar ervidi, at hlada grundvoll jafnan, sem gioraz verdr af stooru griooti; ef duga skal, og Hws eigi snarast undan breckunni. Best er at Bærinn standi ꝏ breidum

Hool,

Hool, sem halli wt af allt um krijng. Sie þyckr jardvegr undir, þa verdr Bygging þijn ecki stodug, nema þw grafir nidr undirstodur, so langt, sem jord srys a vetrum, þvi þegar Klakinn kemr i jordina, þa hefr hwn sig, og twtnar wt,. þvij helldr sem Hwsid stendr hærra, 'mattu þa skilia þad, at þegar klakinn at utanverdu hefr sig upp, og vegginn med þeim meiginn, enn Hwsgoolf er þydt at innanverdu og þar er veggurinn i sijnum rettu skordum, nema hvad hann er jafnan at sijga, a medan hann er nyr, meir innan enn utan, þvi þar er hann þurrari a Sumrum, enn styfr og frosinn a Vetrum, þa vill veggurinn snaraz at Hwsinu, eins og klakin ytra steyþir honum, einkum hafi veggir verid hladnir meir vid ser utan enn innan, hvad margir ofyrisynju giora. Nockud hialpar þad raad her a mooti, at hafa meira grioot i veggnum innan til, þa verdr hann styfari, at standa af ser agangin. Þad Hws, sem hefr leir i Grunduelli sijnum, segia menn travdt verdi Slagalaust, og enn sijdr loptid hollt þar inni, þvij leirin i Goolfinu halldi i ser ollum Swr og naamu Sofstum, sem þar vooru adr, geraz þær þar nidri, þegar Mannylr og umtrodningr koma' at ofan, og gefa þa upp af ser Gufu nockra, helst vid vedra brygdi. er þetra meint

unn þavg Hws, sem ei hafa Kakalon, Fiala edr Steingoolf. Þad bætiz med ræsum undir Hwsum, og enn betr med þvij, at grafa burt leirinn, sem langtum þarfari er til annars, enn fella avr og sand ofani goolfid aftr.

17. A. Þad mun kalt, at hafa Steingoolf edr Hellugoolf i Hwsum þeim, sem menn sitia og standa optast i a Vetrum?

B. Bædi er þad kalt og lijka ohollt barnskonum, edr þeim sem hætt er vid at missa Tijdir sijnar, lijka Karlmonnum sem Holdsveiki byr i (Skorbut) þo skadar þad mest, at standa lengi, kyrr a Steininum, einkum ef lijtt eru klæddir til Ylianna. Þar-vid hofdu Fornbændur gott raad, sem enn er tiltækilegt, hvar Hws ecki driwpa: þeir þoktu hvort Havst Vetrar hwsa goolf med þurru retthversu Gras-torfi, hefr þad verid hlytt og miwkt a at ganga. Normen hofdu Hoalm a Hwsgoolfum i þess Stad, helst i dryckiu Stofum. Skrifar so Assessor Arne Magnússon yfir ordid Hvirfings dryckiu, at þeir hafi setid i Hrijng rettum Beinum i Halmi, þegar þeir hofdu bod inni; og vijsar til Norreas Koonga Sogu, um Haralld Koong og Einar Þambarskelfir, þegar hann voog Griootgard.

18. A. Segdu mer nockud um veggina, a þeim rijdr meir enn a Goolfinu?

B.

B. Graf-hnavs nyum muntu kunna at hlada, og Snidtorfi innani, eins Griooti og Toom, eda Snidtorfi saman, ellegar hvar veggir eru i jord grafnir, þa einusaman Griooti at innanverdu. þo slagar giarnan þad sem vid griootvegginn liggr, ef inni bæar Hws er. Her skal eg nw segia þer þann Bæa Byggingar maata, sem kendr er i Oeconomiska Magazini Tom. 6. Pag. 341 þar segir so: Boondabyli kunna vel at byggiaz af almennilegu Griooti og leiri, hvar ei er Kalk at faa. Steinvegurinn maa vera i mesta lagi danskrar alnar þyckr. Stiaka setia menn nidr utan og innan vid Grundvollinn, og negla þar aa beinar Raar, hveria upp undan annari, ellegar og so bord, hanga þadan Snwrur aa lodi, so menn geti alltijd sied ofanfraa, hvort Steinar setiaz rett. Fella skal Smaasteina i millum hiña Stooru Undirstodu Steina, og jafna þaa fyrst, til þess alnar hæd er komin. Nær meñ byria þaa annad Griootlag, skaai þeir til, at laggoodr Steinn komi ofan yfir allar Samkomur hinna fyrri Undirstodu Steina, so at hvert lag bindi annad, og skal jafnan hinn besti flotr Steinsins snwa nidr. Þegar meñ eru nw komnir 2ia alna haatt yfir jardvegiñ, med alla Bygginguna, þaa eru Glugga Kisturnar innsettar. Dyragrindina setia meñ

af

af 5. eda 6. þumlwnga þycku Tre, ẻa hvorn kant af fioorum, þoo er betra, kunni madr at fẻa gooda Steina i þeſs Stad. Leir lẻata menn ẻa loftin, tveggia þumlwnga þyckvan, enn nedan ſtriwka menn þavg med þunnu Kalki. Golfid jafnaz ofan med leiri, og ſie Svefn-hws, Geymſlu-hws, eda Loft, þẻa er betra, at madr melie Gler, og lẻati ſo mikid af þvij, ſem menn hafa efni til, ſaman vid leirinn, þad ver ollum Ormum at hreidra ſig i Goolfinu. Þegar bwid er at byggia, þẻa plocka menn at utanverdu leirinn wr ollum Samkonum, og fylla aptr med tilbwnu Kalki, og þẻa fyllaz undir eins, allar rifur med Smẻaſteinum. Þeſſi veggr þolir bẻdi vind og regn. Sie berg ſprengt i þeſſa Byggiug, þẻa er beſt at hver Steinn liggi ſem hann hefr ẻadr legid, og þad ſnwi upp, ſem ẻadr var. Þegar fyllt hefr verid upp med Smẻaſteina, og leir, i millum tveggia laga, þarf at fẻa laggoodann flatann Stein innani, ſem bindi yfir um þverann vegg, wt ẻa midia hlodſlu Steina, at alldrei geti kloſnad. Ibidem 335 Þad er funded beſta Rẻad at giora leirvegg varanlegann, menn blanda hver 2 Hloſs af leiri, med einum Hioolborum af Hroſſatadi, lẻata menn þad vel eltaz og trodaz ſaman vid leirinn. Þegar þeſſi veggr er þakinn ofan ſo vatninu wt-

af halli, er hann varanlegr. Sama ſegiã menn um Kwamyki. Eg ſegi þer fraa þeſſu, þvi ſlijk Bygging er eigi koſtnadarſamari eñ ſo, at bædi þw og adrir orijkir menn, geta fylgt þeſſum Reglum, þar ſem Grioot og Leir er hægt at faa, og mættu þeſſi Hws verda at morgu betri, enn vor moldar veggia-Hws, og ſtanda lengr enn fleſt af þeim. Pad heyrir og ſo til Bæarſtædi, at ſetia hañ þar, ſem veggia Efni eru noog vid Hondina og hentug.

19. A. Hvor Hws þarf eg fyrſt? kendu mer lijka Hwſaſkipan.

B. Sw er þer Hwſaſkipan haggvæmuſt, at þw ſiaair fraa Bæardyrum þijnum, allar Utihwſa dyr, og at ſem meſt af ollu Añvirki þijnu ſie þer ſtrax fyrir augum, er þw lijtr wt wr Bænum: betra er at Bærinn ſie tvijdyradr, nema Gluggar ſie ſo ſtoorir, at meñ megi vel wtkomaz, þvij þad hefr ſtundum koſtad lijf manna, þegar elldr kom framarlega i Bæ, at þeir komuz hverki fram um hañ nie añarſtadar wt at forda ſer. Sialfr kantu at velia, af annara manna Sidum, þann Hatt ſem þer gediaz beſt, at rada Huuſum nidr, ſkamta Bæarhlad, og añad þeſshattar. Nw þarftu fyrſt at byggia þer eitt Bæar huus, enn þad ſem allra ſtærſt þw fær efni til, og eigi minna enn Fiogur

Staf=

Stafgoolf, 6 alna breidt, þarftu þa ecki fleira enn þad eina Bæar huus fyrst um siñ, og getr þw haft þar inni betri hentisemi, eñ þottw fengir fleiri og smærri. Þar hefr þw Buur og atdrætti yckar i ødrum enda, hinumeginn Pall fyrir yckr at sitia og sofa um vetur, enn vesstad a golfi. Vilier þw helldr lijkiaz Fornmanna hættsemi, þa mattu hlada þer upp elldsto a midiu golfi, med elldstockum um krijng a 4ra vega, og ma þer samt duga huusid, kantu þa sitia vid maalelld at Qølldum, med ovandada vinnu, og hefr þw allt þurt og slagalavst inni, og er þat mikil Hybyla boot, enn ecki mattu þa loft hafa i Huusinu, nema þw geymir efst a Skamþitum Ambod, og allt þat sem reykiaz skal, hvort helldr ætt edr vætt. Vilir þw helldr hafa Onstofu wt wr Huusi þessu, þa verdr þw at buua vel um hana, þvij oft hefr Huusbruni komid af Onstofu elldi.

20. A: Fleiri Huus þarf eg þo enn þetta eitt.

B. Uti þarftu Fioos fyri 6 navt. Þw munt taka 2 kyr a leigu, fyrst þw att eingva sialfr, beggia þeirra kaalfa elr þw uw a fyrsta ari, þvij ecki muntu i annad siñ hafa færri menn fram at færa. 2 gelldneyti tekr þw til Foodurs, þvi þess getur þw hægast aflad

aflad, sem þavg lifa a. Verdr þa Fioos þytt 8 alna langt, og 4. a breidd, og snuna þriw navta Hofud at hvorium gafli. Þa þarftu Huus fyri leigu æruar 6, til þess þarftu eingvaun vid, þw getr hladid þat at ser upp, sem annad Byrgi, og lata op eitt vera upp wr midiu, enn dyr þar sem hentugast er eptir afstodu: eins maat:u elldhuus byggia utan bæar med ravf upp wr fyri Reykhafi. lambhuus er enn, sem þw þarft fyri 20 lomb, ef þw ætlar þer at borga Qvijillda leigur i lambafoodrym. Þess verdr þw at gæta um oll qvikfenadar huus, at veggir þeirra sie innan til, af einusaman Griooti upphladnir, so langt sem Andi fiarins kann til at na, annars morknar sa veggr strax i sundr, og verdur at fuua mold. Annad er þer atgætandi um alla veggi, hvar griooti einu er hladid, beggia meiginn, enn fyllt med mold innani, þar tuutnar moldin wt i veggnum þegar huun frys, so allir steinar fara wr lagi, eru her til somu Rok, sem sagt var um Grundvollinn.

21. A. Ecki sæ eg hrijs a Konuungastodum. hvad a eg at hafa til Trods?

B. Faair þw þunnar hellur, og stoorar, maattu hafa þær bædi fyri Trood og Raft, enn langbond sie þa so þett, at hvor hella nai a 2, og sie þavg þa sterk at þvij skapi.

Surtarbrandr er og þar til goodr, hann fuunar ei helldr enn Steinn undir Torfi, og slijk Bygging hefr her vijda tengi stadid. Sie hvorugt þetta at faa, maattu bruuka þurr-ann Gambr mosa, ruumlega qvartil þyck-vann þaa hann er lagstr, edr Sinu, edr Melstavng, og sie allt þat vel þurt. Þat er reynt gott Raad, at brenna utan Bita hofud, Sperru tær, og alla þaa vidi, sem helst mæta vætu og fuua. Þanninn brendr utan vidr hefr fundiz 2 til 300 aara gamall ofuuinn, bædi i Fornmánna hadgum og aũ-arstadar undir jørd. Gamlir bændr hafa lijka borid navtamykiu at Huusastofum ned-an, so eingin mold gæti at þeim komiz, og eru þeir þar beinhardir, eptir mørg aar, eins og Syruker, sem med þvij mooti geymaz nidri i jørd, so barmar einir standa upp wr, og eru þar ofkemd, bædi ad girdi, og odrum vid, einn Manns alldr eptir annann. Þar maa Krijnglutorf faa, sem ecki fæst langtorf, enn hvar hvorugt er, þar maattu sem best tyrfa med Snidtorfi eda Hnavs, hann grær fyrri, þvij at i honum hallda sier allar Rætur, verdr þat þak þett, vid þat at hnav-sinn sijgr hvør aa annann ofaneptir hlidinni, enn bæta þarf i Mænirinn aa hvøriu aari, af þremur þeim fyrstu; travdl ga þarf þat Huus ovtar Torfs med enn um sinn, þott þat verdi gamallt.

Kap.

# Kap. v.

## Atla vantar Rwmfot, Skooledr 2c.

22. M. Eg er so fætækr, eg a eingin Sængur klædi.

B. So mikid muntu eiga fyriliggiandi af Fata vadmæli þijnu fræ fyrri ærum, med þvij sem eg geld þer at vori, at yckur Hioonum dugi i Sæng og Reckiuvodir, þar innan i geti þid fengid yckr þurrann Dyamosa eda þann sem menn kalla Barnamosa (Sphagnum paluſtre) mæ hann lijka bruukaz fyrir ij-leppa i Skoom. Samann vid þann minukasta mosa, sem þw fær, mættu blanda þurkadri Balldurs bræ at þw sert þvij helldr frij fyri Floom, og til at veria Ruum yckar fyri Mavr, Mel og Mocku þæ er Burkni goodr, helſt Hrijsburkninn (Filix frutescens ramoſa) af honum vel þurrum mættu hafa þyckt lag undir Sæng yckar, hann er vijda at fæ til fialla, og her veſtra med Talkna- og Vattar-Fiordum. Vædi i Rumſtædi þijnu, og vijdar i Svefn og Setu huuſi hafdu nockud toluverdt af þurru Reyr-graſi, og odrum ylmandi Urtum, þat giorir loftid þar inni hollt og þægilegt, eink-

um þeim sem at koma utan fra. Hafir þu ecki Brekan, geturdu giort þer Yfirdynu af einskeptu edr odru odyrasta tægi, og fylla hana eptir þorsum, med vel þurru og kemdu Tiarna Slyi, sem er þar til langtum betra enn Fiisan, mattu þar vid lijka blanda nockru litlu af Ylmgresunum, edr þurkadri Modru. Af myra Sefi og Barna mosa mæ og so rijda miuuka dynu.

23. A. Eg a ecki Skooledr, en þoli ecki at ganga bersættr.

B. Von er þer þyki þat ovidkunnanlegt, fyrst þu hefr ecki vaniz þvi. Nockud lijtid Skooledr þarftu at kavpa, og þegar þu hefr eignaz þat, þa taktu Birki-, edr Vidir-bork, Birkiblod, Sortulings og Einirlavf. Burnir-root, Kornsyuru, Mariu stack, hvad helst af þessu þer er hægast at fa, edr allt þetta saman, saxa þat og set a vatn, lat standa ei skemr enn Manud, helst hvar hlytt er, seyd þat so gooda Stund i Katli eda Jarnpotti ef Ketill er ei til, sya loginn fra, og þegar hann er volgr at eins, sem blood i lifandi navti, þa leg ledrid þar ofani, snu þvij opt, og velk þat þar innan um, lat þat liggia þar i halfann manud eda lengr, betra er at velgia upp loginn at odru hvoriu. Þetta verdr gott ledr og mykra enn annars. Þat ledr slijtst og betr, sem ellt er. Sortulogr

ulogr bruukaz vijda til at lita Skooledr, lijt-
id batnar þat i honum, og spilliz ecki helldr,
ef þat liggr ei lengi, so jarnkroptr Sortuñar
brenir þat ecki, sem annars er hætt vid.
Lærdu þat af Utlendskum Þioodum, at snijda
þer Skoosola, epter ylveg sootarins, til
Sparnadar vid Ledvid, enn hafdu annad
lakara Skinn yfir rijstina lodid, þegar þw
villt hallda til hita, eins og þegar Gissur
Jarl bruukadi lodna Kalf-Skins Skuua, i
koldu vetrar vedri, enn snodid annars. Vid
Sioosijdu bruuka nockrir allslags Fiska Skiñ,
lijka Skinn af Bægslum og Spordi Hvala
til Skooleista, hallda þeir Skoor þegar þeir
ræktaz vel einum manni, ꝏr um krijng.
Þetta Hvalskinn rækta nockrir, eins og
Grænlendingar Selskinn sijn, lꝏta þat ligg-
ia i Keitu, þar til oll fita er wr þvij, og
hefr setst ofan ꝏ; Sijdan er þat herdt,
barkad og ellt, meiga þeir Skoor verda
nettari, enn Utlendskra Sioomanna Skoor.
Treсko bruuka Nordskir, sem her i landi eru
vid Fiskina, þeir eru ecki vandgordir, kosta
lijtid, enn vinna þo sijna Skylldu.

24. A. Þꝏ hefir eg lijtid ockr til Fædis,
þegar eg kem at Konuungstodum ꝏ Kross-
messu i Vor.

B. Þegar þw fer wr Vistiñi ꝏ Kross-
messu, er lijtill wtvegr til matfanga, þar sem

ecke er Sioovarafli, Skelfiskr, Veidivøtn, Alakelldur, eda Fuglaveidi. Þw verdr fyrst at faa þer mat at kavpi eda lœni, enn hønum til dryginda mœttu faa þer, Hvanna-Muru- og Holta-rœtur eda Fjjflarœtur, Gooebitla, Fiallagros. Skamt eptir Kroßsmessu kantu at faa Alfta og sijdan Riuupu, Anda, og fleiri Villifugla egg. Nœir þw til Sioovar, kantu at faa Sol, Hrognkelsi, Sild, Sijluung, Lax, Sel ꝛc. serhvad i sijnum Stad. Mœttu truna Krijunni til þess, at þaa sie kominn Siluungr og Lax iñ at landi, og i Aroosa, er huun lœtr til sijn heyra.

25. A. Get eg nockud buuid mer i haginn fyrifrañ, sem drygia kunni matbiorg mijna aa fyrsta Sumri?

B. Ecki dugir mikid at þeirri maturta rœkt, hvar jordin opnaz ecki havstid aadr, so Svordurinn sie afstuunginn, þvi strax aa vori, fyrrenn jordin er stungu þyd, er grasrotin buuin at draga at ser Frioosgunar vessa wr jørdinni, og koma þeir ecki til gagns nyu Saadfrœi aa þvij Sumri, enn þegar allr grasſvordurinn er afstuunginn havstid fyrir, þaa gengr ei neitt fraa krafti jardarinnar, enn lezgst mikid til hans, bœdi þat, at Rootaranaar finna i Flaginu um veturinn, hvar vid jordin batnar, og lijka hitt, at opin

jord

jord tekr aa mooti nyum Frioofgunar krapti, af loptinu med Regni og Snioo. Þegar eg lofa þer i havst, at byggia þer huusskofa aa Konuungsstodum, þaa maattu fara fram til Fiallshlijdar og veldu þer þar i landeigninni gooda jord og feita, i hvammi nockrum, sem liggr i mooti Sudri, edr ein hvorri sudrænni aatt, stiktu þar flag, og lattu allann hnavsinn veltaz um, at grasrootin verdi nidr aa, nema þw faair tijma til at hlada gard wr honum. Getirdu þaa pælt upp flagid undir þeirri fyrstu veltu, þaa er þat langtum betra. laattu þat so liggia til vors. Þegar þw kemr nw þar at aptr, aa vori, þaa pælir þw upp sem fyrst at Klakinn er allr edr mest allr wr jordinni, sem ecki er at vænta fyri Fardaga, þar fram til hlijda, og maaske enn seinna, helst ef vatn hefr stadid i Flaginu um veturinn, sem eg gaadi ecki at vara þig vid, enn þw þarft at fordaz, þvij hvar vatn stendr aa, tekr jordin langtum seinna i mooti vorhitanum. þaa fuuna sijdr i henni tægiur og rootarangar, og huun fær minna lijf af loptinu, i gegnum þat kalda vatn og þietta ijs: enn at snioor liggi þar yfir um vetr og frameptir vori, er einuungis bati, og er þat giarnan frioodsomust jord, sem hann liggr sem lengst aa. Rijfdu þer sijdan gamburmosa, helst þann sem þw fær groofastann og styfastann,

ſling og Fialldrapa maa og til ſomu bruukun-ar hafa, enn þat ættir þw helldr at ſpara til annars, ſie ecki nægt af þvij) legdu moſann ofan yfir þetta Flag, halfrar alnar þyckt, og jafnvel meir, ef hann er þar hægt at faa, haltu honum þar til þerris, ſem þer er hægt ad giora; þvij hann þornar noog aa einum goodum þerrir degi: legdu ſijdan elld i hann, ſo hann brenni til oſku, jafnt yfir ollu flagi-nu. Þegar kulnad er wr þeſsari oſku, þaa ſaadu þar næpna fræi; hélſt wr norſkum Svi-dum, ſem Danſkir kalla Braate Næper, ef þw aatt þeſs koſt. Þegar þw ſaair, ſtijktu nidr fingrinum, ſo þw at eins naair i gegnum oſkuna, ofan at moldinni, þat verdur vel halfs þumlungs diuupt, laat þar koma 2, eda meſt 3 Korn i hvoria holu af næpna fræ-inu, ſettu ſo wt allt flagid, og laat vera lijtid minna enn ijſlendſka alin aa milli hvor-rar holu, aa allar ſijdur. Þegar þw ſo wtſett hefr flagid, þaa taktu vallar klaaru, og berdu med henni, þo ei miog ſtoorkoſtlega, ofan yfir allar holurnar; þaa lykiaz þær, og fyllaz med miuukri mold og oſku ſaman. Getirdu aflokid þeſsu fyrſt i Junio, edr fyrir hann midiann, þaa er noog ſnemma ſaad. Eingva rækt þarftu her til framar, þvij þar vex hvor-ki arbi nie annad ogras, og þo hnavſiñ hafi legid kyrr wthverfr, eins og þw ſkildiz vid hann

harn at havsti, þar vex ecki so mikid gras upp wr honum, at þat spilli Næpna vextinum; ecki skylldir þw skera gras af þessum næpum, þvij þat skylir þeim og styrkir voxt þeirra, hellst hvar loftid er kalt upp til fials hlijda. Sie nw Flag þitt 3 Fadmar a hvorn veg, af fioorum, get eg til Þw fair 3 edr 4 tunnr Næpna a havsti. Þegar þer vinnaz Stundir til, einhvorn Tijma a sumri, þa vitiadu um þetta Flag; sie þar Rootin ordin so stoor sem Hænu egg, þa stijg þw hælnum ofan a hvoria næpu, so grasid verdi at leggiaz nidr; og næpan þryckiz ofani moldina, enn trodtu hvorgi a milli þeirra, þat spillir, enn hitt hialpar vextinum. Kalrootna fræi, mattu eins sa, reikna Svijar mikinn feng i þvij, at hafa sem mest af þeim, og segir Boge þat sie einginn goodr boonde sem ecki hafi af þeim 50 tunnur a havsti, þær eru og vijst betri enn Næpur. Jardeplum mattu lijka sa, med sama mooti, halfu dypra enn Næpunum, og vidlijka bili a milli. Nw vijsa eg þer hellst til þessara Fræva, af þvij þaug þurfa minsta Rækt, enn gefa mesta Eptirtekiu.

26. A. Er nockud fleira þat, eg megi safna mer til matardryginda?

B. Von er þw spyrier at þvij, nw a fyrsta ari, þvij lijfid er þer torgætast. Þw

œtt þo eina 3 menn fram at fœra, sem er þid hioon og ein vinnustuulka, sem þw þarft at taka, og dugir yckr lijtill. Fordi. Safnadu þer vel Fiallagrosum, Geitnaskoof, Hvannarootum, þat geymiz allt vel til vetrar forda, Rœturnar i mold wti eda inni: lœttu vinnustuulku þijna tijna Kornsuuru (Bistoeta) frœ, þat er þer ei verra eñ ijslendska mioliđ, og geymiz vel, þegar þat er nockud þurkad; Stuulkan kann at sœ af þvij meir enn halfa pundfotu œ dag, og hvar Kornsuura er mikil þœ Fiordunngs Fotu. Safnadu lijka melstangar Frœi, þat er ætt Korn, og ef þat moodnar ecki, sem stundum vill til, edr komi kafalld œ þat, sneña i October mœnadi, þegar þat er fyrst vant at vera ordid strijdt, þœ taktu þat fyrri, eins og sagt er at avstfyrdingar slœi melinn þurki og þreski sijdan, er þer ei vandara þeim, eda bœndum i Ruusslandi, *) sem bruuka grœn grioon, af omoodnum rugi. her vid bœtaz nœpur þijnar, jardepli, kœlrœtur. Þw getr œ Sumri giort þer graut, eda so kallad langkal, af Skarfakœli, Suurum, Heimaniola, allt er þer þat hollt, og hvad heimaniola blodin snertir, þœ er her dœmi nœgranna

*) von Havens Beskrivelsi over det russiske Rige. Cap. 4.

granna mijns. Arid. 1761 reid Hr. Land-physicus um vestfirde. Þessi madr kom til hans, so yfirkominn af Gulu-Soott og Brióóstveiki, at hann gat ecki gengid vid Staf ann hvijld-ar, þrim fodmum lengra: Fyri þessum manni, hrooſadi Land-Physicus þolinmæd-inni, og ried honum at bruuka daglega til fædis, Heimapioola (Patientz) blod: þessu radi fylgdi madurinn truulega batnadi hon-um smamſaman, og sijdan þat Sumar leid, hefr hann alldrei kent þess meins, og lifir hann enn vid gooda heilſu, og hefr vel endst til at vinna fyri ſio bornum.

27. A. Einnarſamr verdr mer Utveg-urinn, er mer ecki betra at ſleppa obygdar Rudninginum, og fa mer helldr lijtinn part af bygdri jord?

B. Þat er þer langtum hægra, ar fyrſta ari, og ſvefnſællra, enn ef at þu ætlar þer at verda duglegr Boondi, og gagnlegr Madr, þa fær þu noog at vinna, hvar ſem þu ert. ef at þu tekr bygda jord, þa eru fleſtar af þeim illa ræktadar, þu fær huus onyt, þeim ohægelega nidr radad, grafin i jord. enn villr þu helldr buua nærri odrum monnum, og þu fær eingvann, ſem vill rydia ſer avdn til Bygdar nalægt þer, þa er þer þat vork-unn, og fadu þer þa bygdann Kongs part at buua a, þa nytr þu verka þinna og

 mat

mætt buua vid Þavg, so lengi, sem Þw villt, enn Þar ættu at hallda huusum vid, byggia Tuungard, jafna Tuun, og vinna hid sama sem æ Konuungstødum, hvar Þw hefr Þæ kosti framýfir, at verda Odalsboondi, og Skattfrij um 20 æra Tijma. enda gefr For-ordningin um Rudnings manna Frijheit, øl-lum Þeim gooda kosti, sem rydia ser Nyby-li, Þo Þat sie i landeignum bænda.

28. A. Ecki Þarf eg meiri friu, Kon-ungstadi vil eg taka, og nw i vor vil eg qvon-gaz, strax eptir Pæska, Þvij eg hefi heyrt Þat yrdi olæns menn, sem hallda Bruud-kavp æ Fostunni.

B. Gomul pæwalog banna Brullavps-halld æ løngu Fostu, eins æ joolafostu og fram um Jol, og fræ uppstigningar degi til Heilagrar Þrenningar messu, enn Þessir mannasetningar, med fleira slags Suurdegi af sømu tegund, hafa mist allann krapt hiæ betr upplystum mønnum, Þegar Þær hafa verid skodadar vid lioos Guds orda, og rett-rar Skynsemi. Þeir sem hafa verid so ofrood-ir og ostyrkvir, at Þeir hafa reiknad ser og ødrum Synd, at breyta æ mooti Þessum fornu Setningum, Þeir sømu hafa tijnt sam an allra Þeirra dæmi, sem brutu Pæwalog-inn, enn fengu sijdan einhvorn gæfu hneckir. Þottu gledie i Guds otta med hofsemi, æ-samt

samt Bodsmounum, at Bruudkavpi þijnu, a hvorium tijma, sem þer hentar best, skylldir þw ecki lata þat giora þer eptir a Guds vilia til þess at blessa þig, grunsamann, enda hefr þw annad þarfara at giora af efnum þijnum, enn kosta Þeim til mikillrar dryckiar voru i Brudkavp þitt, so þar verdi vanbruukan edr ofmikill glavmr af. Enn getir þw hvorki af Skynsemi, nie annara manna Fortolum sannfært huga þinn, at allir tijmar sie þer heilagir og hollir til so heilags verks sem þat er at inngaunga Ektaskap, þa er þer ohættast og hollast, at fordaz þat sem þw heldr Synd, a medan at þw frædiz ecki betr, og sama ma segia um þat allt, sem madr glorir ecki i þeirri vissu, at Gudi lijki sijn verk. Sw vissa er lijf i ollum framqvæmdum manna: hvar hana vantar, kallaz verkin davd, og i lijkamlegum atvegum eru þavg oftast gæfulavs; þadan mun komid munnmæli þat sem þw mintiz a.

# Kap. vj.

## Atli spyr at Dagsmorkum a Konungstodum.

29. AA. Ecki veit eg hvad degi lidr a Konuungstodum, þar mun einginn vita

vita dagsmörk, enn so mikid hefi eg uw Þeg-
ar lært af Rædum Þijnum, at eg mun Þurfa
at vita Rijsmæl Boonda.

B. Sagt mun Þer hafa verid, at Sool-
arhrijngnum edr degi og noottu saman er ven-
iuleg a skipt i ætta Eyktir, sem heita, mid-
nætti, ottá, midurmorgun, dagmæl, hæ-
degi. non, midur-aptan, nættmæl, hefr.
hvor Þessi Eykt i ser 3 stundir, og eins mer-
kir hvort Eyktar nafn heilar Þriær Stund-
ir, enn ecki puunkt einn Tijmans edr af-
markad sinn, Þvij verdr sagt; at øndverdum
dagmælum æ ofanverdu hædegi, it. Þæ
halladi wt Eyktinni: er Þat ein Eykt sem
Sool gengr um hvoria ætt. æ medan Sool
gengr um Nordr ætt, heitir midnætti, æ
medan huun gengr um Landnordr ætt, heitir
otta, æ medan huun gengr um Avstur ætt
heitir midr-morgun, æ medan huun gengr
um Land-sudr ætt, heitir dagmæl, æ med-
an huun gengr um Sudr ætt, heitir hædegi,
æ medan huun gengr um Utsudr ætt, heitir
non, æ medan huun gengr um Vestr ætt,
heitir midr-aptan, og æ medan huun gengr
um Utnordr ætt, heitir Nættmæl. Nw hefr
Sool halfgengid midnættis Eykt, Þegar huun
er i fuulu nordri, er Þæ halfnud noottin, og
kl. 12. Fræ nordri gengr Sool til avsturs
halfann Eyktar tijma, er Þæ lidin midnætt-
is

is Eykt, og hefst þaa otta, enn sw Eykt er þaa halfnud, er Sool er i fullu landnordri. þadan hefr enn Sool gengid halfann Eyktar tijma, þegar sw Eykt byriaz er midr-morgun heitir, og er huun þar halfnud, sem Sool er i fullu avstri. halfri Eykt sijdar hefiaz dagmaal, sw eykt er halfnud, er Sool er i fullu landsudri, enn þar endaz huun, sem hadegi byriar, og er þat halfnad, þaa Sool hefr halfgengid hadegis Eykt, þat er, þegar huun er i fullu sudri edr Kl. 12. enn lidid er þat nær ver kollum midmunda, þaa gengr Sool inni Non Eykt, sem þaa er halfnud, er Sool er i fullu wtsudri, og þegar Sool er jafnnærri badum nooni og midium aptni, þaa er wti Noon Eykt, enn hefst midr-aptan; hefr Sool halfgengid mid-aptans eykt er huun er i fullu vestri, enn þegar huun er jafnnærri badum Eyktum, midium aptni og nattmaalum, þaa er midaptans Eykt wti, og hefiaz nattmaal, er sw Eykt þaa halfnud, er Sool er i fullu wtnordri, enn þegar huun hefr gengid halfa Eykt þadann, þaa hefst midnættid. Her og mooti, vilir þw kalla upphaf Eyktar, þar sem Soolvijsir synir þer midia høfud att, muntu alldrei finna gømul dagsmork a nockrum Bæ sem beri saman vid þat, þw munt alldrei finna fornmanna dagmaal

maal kl. 9, hádegi kl. 12, enn setier þw slijk Dagsmork hiaa þer, munu menn kalla leti-dagsmork, og ei munu þaa vel edr hentuglega fara fram̃ heimilis verk þijn. So þw skilier þetta betr, þaa er her Soolskijfu form, myndad eptir þeirri, sem Vicelogmadur Eggert Olafsson setti i Savdlavksdal vid Patriksfiord, eptir fornmanna Dagsmorkum, sem enn eru bruukanleg um allt Island, og ber henni lijka saman vid þat, sem vor háløerdi Biskup Dr. Finnur Jónsson skrifar i Notis vid sijna Islands Kyrkiu Historiu, Tom. 1. p. 154, um Eykta nofn og Skipan.

Þat er og alþydu talsháttr vestarlega aa Vestfiordum, at þegar Ferdamadr spyr heimamann, hvort nw sie komid hádegi þaa svarar hinn, þat er fyri løngu komid hádegi þvij nw er komid fram̃ undir hædstann dag, og mun sw Skilnijng ordsins fraa fornalldar mønnum.




Vilier þw giora þer Soolskijfu, þá settu hana fyrst fasta nidr, sirkladu á henni hrijnga sem á mynd þessari, og set þw so lijtinn pridon eda vijsir i Midpunktiñ, ei má vijsirinn boginn vera. Sittu yfir Skijfuñi um Hádegis bilid, þar sem Skugginn er styttstr, þar hefr þw nordr fundid, þá dregr þw lijnu i gengnum Midpunctinn, yfer þvera Soolskijfu, og þat beint frá Nordri, þar er Sudr. Midt á milli Nordurs og Sudurs til hægri handar er Austr, enn til vinstrí handar

handar Vestr, þegar þu horfir i Nordr. Þar eptir getr þu mælt og sirklad i sundr hinar ættgreiningar, eptir þvij formi, sem þu sier herna fyri þer.

Jón Prestr Dadason sem var i Arnarbæli, skrifar so i sinni Book, sem hann kallar Gandreid. Kap. 24. Hvar sem Sool siest upprenna þann 21. Aprilis, þar er landnordr, hvar sem Sool rennr upp 10. Martii, þar er avstr, hvar Sool rennr upp 25. Jan. þar er landsudr; hvar Sool gengr undir 25. Jan. þar er wtsudr; hvar Sool rennr nidr 10. Martii, þar er vestr; hvar Sool rennr nidr 21. Aprilis, þar er wtnordr. þetta segir sæ froodi madr Sijra Jón, sie æ sunnan verdu Islandi, hvar eingvar hædir hindra, reiknar hann eptir gamla Styl, þvij hann var buinn at giora þessa sijna Book 1672. Her vestra vid Lætrabiarg mismunar þessu so mieg, at ef madr tekr nya Styl fyri þann gamla, þæ kemst madr nockud nærri sanni, þat er, ef at menn taka mark æ þessu, ellefu noottum fyrri, enn her er tilvijsad.

30. A. Þegar ecki sier Sool, þæ veit eg ecki hvad Tijma lijdr.

B. A Konuungstodum ser nockud til Sioovar, og geturdu farid nærri Dagvorkum, af Sioovarfollum, enn þæ verdr

þu

þw at taka grant eptir Fiorumaali og Flædar. Adfall Siooar eru 2 Eyktir frekar, wtfall eins langt. Nw eru Atta Eyktir i degi og noottu sem aadr er sagt, eru þaa 2 flood og 2 fiorur i einum Soolarhrijng. Þaa er alltijd fiara vid Sioo, nær Tuungl er i Sudri edr Nordri, hvort sem þat er wngt edr gamallt, og lijka er þaa alltijd flood, nær Tuungl er i Avstri eda Vestri. Flood og Fiorur færaz eptir Tuunglgangi, og munar þat vel heillri Eykt aa Fioorum dogum, sem Siooarfalli seinkar, so þegar Tuungl var ein-nætt, þaa var Fiara, er Sool var i Sudri, enn þegar þat er fernætt, þaa er Fiara, nær Sool er i Utsudri. Þetta allt er þo hellst at marka til Utnesja, hvar ecki er mikid ofugstreymi, enn sidr inn aa Fiardabotnum, þvij þar eru oll Siooarfoll seinna. At vita hvornin stendst aa Tuungli, og Siooarfollum, kann þer opt at gagni koma i Bwnadar verkum þijnum.

## Kap. vij.

## Atli spyr at fleiri Vorverkum.

31. M. Hvad þarf eg fleira at vinna, fyri Slaattinn?

B. Þw giørir til Ledengingar Kola, og af sama Birki safnar þw berki, til at lita Fot fyrir yckr, þat er þer betra, eñ at brenna Vadmaal þitt i Sortu; þat slitnar øllum þridiuungi verr, missir allann naatturlegann yl, og er þvij ofkalt a vetrum, eñ a Sumrum ofheitt, vegna Litarins, og fyrir utan langa Sudu hiaalpar jarntegund Sortuñar at giora styrt og stutt i þvij, eingva þessa galla hefr Barkarlitr, þar at avki er hann ofavrlivotari. Þw getr barkad Skinn fyrir yckr, Treyur og fleiri fot: ske maa lijka, at þw getir unnid þer nockud toluvert inn a vetri, med þvi at barka og tilbuua Skiñfot fyri Sioobændr, þeir gefa þer fiskifang i stadinn. atferdin og kostnadurin eru lett og hæg, sem flestir vita, og þw lijka. Eg veit at þw ert nockud hagr, þw verdr at byggia þer Smidiukofa, þat er þer gott at þw getir smijdad þer liaai, og annad buusmijdi, lijka maa þer þat gagn at þvij verda, getir þw a vetrum smidat þat nockud, sem wtgengilegt sie hiaa odrum bændum, þaa er þegar fevænlegra, enn margs þarf Buuid med, og lijtid aattu enn fyrir allt at gefa, sem þig brestr Frumbylinginn.

32. A. Hvorninn aa eg at smijda, þo eg kunni nockud til þess. Syslumaduriñ bannar øllum at hoggva Skoogana, nema sem

sem allra minst til ledengingar?

B. Rett giörir Syslumadr þat, sem von er af honum, þvij so hefr Koongurinn æ-skilid, hann vill menn fari sem sparlegast, med alla þæ land-kosti er eydaz af brwkan, hefr Koongr frett þat, sem þw veitst at satt er, at allir Skoogar eydaz miög her i landi, og ef Hans födurlega umsorgun fyrir Islandi hefdi ecki reist þær Skordur vid, mundum ver Islendingar, eptir hundrad Ar her fræ þurfa vidarkola med, fræ Utlendum þioodum, nema nyr Skoogr verdi her i landi plantadr og þrifinn, sem enn er lijtt byriad. Nw nuun eg rææda þer at bruuka mootorf til elldividar, einginn bannar þer at skera þat rijflega. Giördu þer gröf i elldhuuss goolfi hladna þett med griooti allt um kriing, alnar diuupa, og eins æ allar hlidar, lættu þar hiæ jafnan liggia þetta og þyckva grastorfu. sem næi vel wt yfir gröfina. Segdu konu þinni at briioota hvörki smæatt nie sparlega undir pottinn, þegar huun elldar, enn strax sem hvör mootorfa er ordin glooandi i gegn, þæ skari huun henni fram̃ wr hloodunum; og ofan i gröfina, lyki þar yfir med Svardtorfunni, sem til þess var ættlud, og snuui grasinu nidur, þæ kafnar elldurinn undir i mootorfunni. So mæ huun giöra vid hvöria mootorfu eptir adra, og verdr

 þer

þer: þaa þat sama mootorf, til matgordar og jarnsmidis. Þessi kol eru good til alls Storsmijdis, og maattu jafnan hafa noog af þeim. Þavg gefa mikinn hita. Til þessa segia meñ bestr sie hinn svarti moor, og verda koliñ þvij betri, sem moorinn er hardari. Vide Oeconom. Magazin Tom. 6to. p. 413. Þaa eru en kol, sem þer meinar einginn at bruuka, ef at þavg maa faa i landeign þinni, þat er Surtarbraudr, hann er malinn vid lijka smaatt og kol, brendr nockud minna eñ kol og at odru tilhafdr sem þavg. Surtarbrandskol eru miklu driuugari enn Vidarkol, og betri til Smaasmijdis enn Steinkol. Hvar Surtarbrandr er i fiollum, þar er opt hiaa honum ein Steintegund, ei olijk Steinkolunn. hunn verdr bruukud til dryginda med Vidarkolum, i Steinkolastad, enn gefr mikid Sindr.

33. A. Eg aa eckert Buusgagn, hvornin maa eg biargaz?

B. Af Reka edr Skoogie maattu aa Konuungstodum smijda þer i Bw allt hvad þw þarft, og þoottw værir leigulidi, maattu samt bæta buus-hluti þijna, enn haglega attu med Skoog og Reka at fara, so eingvum sie Skadi at. L.b. Cap: 7. gefa login þer meira frelsi enn þetta: þw maatt giora nya buushluti af Skoogie edr Rekavidi, og

bruuka

brúuka þaa aa medan þw byr aa somu jord, enn hvorki maattw selia þaa nie burtu med þer flytia, þvij þeir eru eign lands-drottins, og ecki þijn, enn fyri Smijdakaupid hefr þw not buushlutarins, aa medan þw aa jordu byr. Graagaas segir so, i landabr: þætti Cap: 46, hvadan þessi vor lagagrein er tekinn. Nw vill hann (leigumadr) giora nya buuluti, og aa hann at giora, ef hann vill, og laata eptir þar er hann ferr aa bravt, vanda so vid til, sem þaa myndi hann ef hann ætti sialfr Skoog og Fioru.

34. A. Miog hroosar þw kostum mijnum aa Konuungstodum, enn þar verd eg þo at hysa, og hallda huusum sijdan vid fyrir ecki, aa odrum jordum geld eg at sonnu landskulld, enn þar þarf eg ecki at byggia nema fadmslangann vegg aa aari.

B. Ecki nuntu vel þacka Konginum þaa naad sem Hann veitir þer, aa medan þw þeckir hana ecki betr enn so: vænt þootti Islands bændum, þegar i landid kom Forordning af Dato 5. Maii 1591 og aptr onnur af 21. Aprilis 1619 hvar þeim var lofad at buua sijna lijfstijd aa Koongs og Kroonunnar jordum, og skylldu ecki landskulldir hæckaa þeim, þo var þar med saa Skilmaali, at landsetar betri jardir med Huusabygging og Tuungordum, og sijdan halldi þeim vid goo-

da Bygging. Þrim árum seinna 1622, 29. 9br. i 4da. Art. þeirrar Forordningar bydr Koongr at allir Bændr á Islandi wtvegi ser siálfir huusavid, til at byggia og bæta sijn huus og garda, eptir þeirra efnuur. Her at lytr Forordn: 15. Maii 1705, og nw sijdast Forordn: um Prest-Eckna jardir 5ta. Junii 1750. Her af serdu, at þw hefr eingvu hardari kior á Konungstodum, enn þar á mooti stoormikil Frijheit og Odalsrett at avki. Her hiá ofka eg þer at þw niootir betur Laga, enn þw ert rettordr at bera þavg fyri þig. Þess getr hvergi at þw eigir at hlada fadmslangann vegg á ári, helldr segir Lb. 3. Lands-drottinn er skylldr at fá vid til at hallda upp huusinn, so at þar sie ohætt mönnum og fe. = = = Enn ef hann fær vid til, þá skal leiguliði ábyrgiaz þo huus falli nidr, og hladi vegg fadm saman edr lengra. Þat er meiningin. Þegar huusveggi þarf at hlada, þá á landsdrottinn at fá leigulida Stodir edr Styttur, at setia vid, so huus falli ecki, á medan, enn leiguliði á so hagaulega at byggia veggina, at ei þurfi huus ofan at taka þar fyrir, má hann þvij ecki hlada alla veggina i Senn, helldr á hann at hlada veggi fadm saman, eda lengra, so langt sem Styttr hrockva til Studnings. Þetta Stycki af veggnum áttu upp at hlada, þangat til þat

er

er so hartt ordid, at þat getr [illegible] huusid i þeim Stad, þar færir þw Styttur og byggir eins vegginn, þangat til þw hefr fullbygt huusveggina allt um kriing, so huusid stendr fyri þat. Her getr þess at landsdrottinn skal vid til at hallda uppi huusi, enn ei er sagt: til at byggia þad; þoott byggingar vidr sie i sama Kapitula skilinn af hendi landseiganda, med þvij leigulidi skal ei aabyrgiaz þoott huus fyrniz. Þessi fyrri lagagrein maa at sönnu naa heim til vorra Bygginga, enn aatti helst vid þat bygginga form, sem mest var bruukad her aa landi, þann tijd løgbook vor var wtgefin, enn nw er miøg farin at wrelldaz, nema myndin siest aa faaeinum Kyrkium. Graagaas talar so her um Lbr: Kap: 46. leigumadr aa at aabyrgiaz huus, at ei falli ofan, ef honum eru Stedur tilfengnar, og hefia upp of fadm saman, og hlada so veggi, ɔ: sødmum saman so lengi sem þarf. Vidliika er leigulida Skylda i Gulaþiings løgum buunadarb: Kap: 1. leigulidi skal þekia vel, og hallda droplausum huusum, hann skal uppihallda Torfølum og Vindskeidum og Krookarøftum, og buua so um, at ei komi Slag aa vegg, er þessi grein innfærd, i Norsku log 3. 14. 30. Her af ferdu, at þat er ber Vodi fyri jardanydslu menn, at þykiaz afsakan-

legir; þegar þeir klambra upp Veggfadmi
a mri.

## Kap. viij.

## Atli vill byggia ser Jurtagard.

35. M. Jurta-gard vil eg bygg-
gia mer.

B. So hefr Koongr bodid þer, at þw
skylldir brioota jord til Alldingarda og Ak-
ra. 26. Febr: 1754. veldu þer þar til hen-
tugann Stad; sparar þat þer omak, ef
þw lætr Tuungard þinn vera langvegg jur-
tagardsins, þa hefr þw lijka sijdr at ott-
az Kaalorma, og lijka Arfa og annad o-
gras ef Saadgardr þinn er ei rett nærri
Bæ. þat er þer betra, at Saadgardurinn
sie miog aflangr fra avstri til vesturs, og
sie hlidveggurinn nyrdri nockud hærri enn
sa sydri. þa færdu meira Skiool, undir
nordr hlidinni. Best er at allr gardurinn
sie bygdr af jardarhnavs, enn allrahelst
hlyturdu at byggia nordur vegginn af ein-
risaman jord. þa verdr hann þettr, sem
mikid rijdr a, og lijka hefr þw þat gagn,
at vilier þw geyma wti i Gardi a vetrum
Nætur til Tijmgunar, þa lifa þær vel
vid Hnavsvegginn, enn vid Griootvegginn
deya

deya þær fleſtar, þo vel væri annars at þeim buuid, vegna kullda hielunnar vid Steininn, ſem ollu aldini er ſkadleg, þo ſa veggr væri allþettr. allvel ſer, þo gardr halliz lijtid i mooti Sudri edr Utſudri. Um Máturta Ræft hefr Eggert Olafsſon Vicelogmadr ſkrifad fyrſtr i ijſlendſku 1763, ſa Bæklijngr kallaz Lachanologia, prentadr i Kavpenhafn 1774. og Mr. Olafr Olafsſon hefr ſkrifad þar um nockru ſeinna, enn Eggert, vard þo fyrri til at lœta þryckia ſitt Skrif Anno 1770. þeſsa Bæklijnga kantu at fa þvij Koonguriun gaf mikid af þeim bœdum til Utbytingar i Iſlandi.

36. A. Segdu mer nockud um þeſſi Skrif, eda kunnir þu nockud, ſem þavg kenna mer ecki?

B. Mr. Olafr, þegar hann var i Kavpinhafn, took ſanian wr wtlendſkum Bookum, þat ſem hann helt helſt kynni at eiga vid Iſland, um Maturta Ræft; enn Eggert Vicelogmadr, ſem adr var ſendr til Iſlands, at ranſaka þeſs nattuurlegt aſigkomulag, ſkrifadi þat um ſama efni, ſem hann viſsi, reyndi eda ſa fyri ſer, i Iſlandi.

Þat hefr mer reynſt beſt jord, ſem hefr ſomu kenniteikn, ſem beſta vatn, þat er, eingva lygt og eingvann Smeck, edr ſem minſt af hvoriu fyri ſig, nema hvad good

jord og heilnæm gefr gooda lygt af ser eptir Regn, þegar huun er opin. Þat sem nockrir skrifa um vissar urtir, at þær bodi alltijd feita og gooda jord, hvar sem þær vaxa, þarf eg ecki at segia her, þw truuir þvij þegar Reynslan kennir þer þat, edr hinu añars, at flestallar urtir geta vaxid i magri jord, hellst ef þær hafa vaniz þar lopti og landstodu, ædr enn jördin megradiz, enn þat eru nockrar urtir, sem alldrei vaxa i feitri jord, so sem Geldinga Hnappr, (Statice), Höltasoleyg (Dryas) &c. Þat giörir betri jord, at pæla upp gard, i miuuku og hlyu vedri, og havsti strax og upp wr honum er tekid, þegar þw tekr upp nyann gard og hefr gooda jord, þa er þer nóog, at stijnga upp gardstædid 1. qvartil diuupt og beria vel i sundr, alla kecki, i hlaakum a vetri, þarftu þar eckert a at bera; annad Ar pælir þw dypra, og so lengi sem þw getr bætt vid nedan wr gruñi gardsinns halfu qvartili aarlega, af þessari nyu mold, sem kallaz Jonfrur jord, þa hefr þw goodann gard, segia menn Hollendskir *) truuki þennann hatt vid nylendur. og hefi eg þat lijka reyndt. Vid þetta lifgaz aarlega sa grunnr gardsins sem opældr er, af lopti og Regni at ofanverdu, i gegnum þaa uppældu lausu jord, og verdr at goodri Matjord

*) *V. Petri Laurenbergii Horticulturam.*

jørd. Sie gardr þinn gryttr, þa mættu fyrst i Stad læta þat grjoot vera kyrt, so þw sparir þer erfidi, þvij þar sem jørd er opnud, þar lyptir klakinn a veturnar Steinunum upp, enn jørdin i hvørri klaka jafnar sig og sijgr ofan med þeim, og undir þa, til þess at Steininn kemr sialfkrafa upp wr jørdinni, og þa er þer hægra at taka hann burt, enn grafa diupt eptir honum. At Steinar hæcki i jørdinni skrifar ogso Strøm eptir Ploogmonnum i Norvegi. Af þessari orsøk hafa menn sagt, at jørdin blæsiz upp og eydiz, þvij þeir sæu Steina koma upp wr jørdinni, þar sem þeir vissu ecki Steina von.

37. A. Hvar skal eg taka æburd a Eydi jørd?

B. Eg hefi sagt þer, at þw þarft eingvann æburd a fyrsta ari, þar sem þw hefr nya gooda jørd, og lijka batnar huun, þegar huun er opin fra havsti til vors, og þangat til þw fer at sa i hana, enn finniz þer jørd þijn mogur til at planta i þær urtir, sem frekari næring þurfa, so sem Næpur og Kaalrætur, rc. þa taktu þer Saakeralld edr Tunnu, legg þar i Flogu af Savdatadi, hell þar yfir korg, sem þvegin var vorull wr, og fyll sijdan af vatni, læt standa nockra Daga, Þessi løgr fer strax at ganga og

fuulna

fuulna, þegar hann stendr i Soolarhita. Af þessum legi mætti hella einum Pela i holu, sem þu giorir utan hiaa hverri Plotu vid, þat mun hiaa þer vel vaxa. P. Lundberg rædleggr*) at taka wti haga Kuuamykiu, þegar kyr bita grænt gras, og setia regnvatn aa þat, og vokva þar med. it. Skuli þorf vera at veria Ormum, þaa blanda menn þar vid Sooti og Tioruvatni. Mioolkur- eda blood-blandad vatn er gott fyri þaa avexti, sem madr vill vel vanda rækt vid. Rammecker Sænski, i siinum Bæklingi, sem kallaz Triaagardsmadr, segir at vatn, sem Urtablod voru i sodin, item Saapuvatn, og allr Pottakorgr sie gott at vokva med. er allt þetta reynt her, og hefr vel dugad.

## Kap. ix.

## Atli spyr at Twnstard.

38. **N**. Siidan eg foor wr vistinni fraa þer Boondi! i vor hefe eg husad Bæ fyri mig aa Konuungstodum, at Raadi þiinu, segdu mer nw hvad þer liitst, hvad mikid

*) Den rette Havedyrkning 5. Bok 6te Kap. Ibidem 2 Bok 16 Kap.

mikid Tuun skal eg taka fyri mig at hegna? hvad kann þat foodra eptir Stærdinni?

B. Þat er gagnlegast hverium manni, at laata sier nægia þat sem noog er, og vilier þw so, þaa skal eg segia þer mijna meining. Þat er gamallt buumannalag her aa landi, at halfr annar Eyrisvollr gefi af sier Kyrfoodur, er hann þaa velræktadr, og þo ecki i besta lagi. Nw er Eyrisvollr 30 Fadmar aa hvorn jadar af Fioorum, þaa er þessi gamli Kyrfoodr vollr 150 Fadmar ummaals, þat er 37½ Fadmr aa hvorn veg enn 1350 Qvadrat Fadmar. Þegar þw leggr nw þessa Kyrfoodur velle 8 saman, synist mer þw hafir noog Tuun, þat eru 12 Eyrisvellir, (og þeim mun meira, sem huusabær þinn tekr Skaak af Tuuninu) verdr þaa allt þitt Tuun ummaals 420 Fadmar. Þetta Tuun slær þw ein upp og hyrdir med konu þinni, aa maanadi, þaa hefr þw sijdr at ottaz oþerra, fyrst semma er slegid, þaa hefr þw betra hey og kiarna meira, enn þo jafnmikid væri af stærra Tuuni oræktudu, þvij þat er vijst, at þvi betr sem aa er borid, þess meiri kraptr er i grasinu. um þetta litla Tuun er hægra at girda og hallda gardi vid, eins at tedia, hreinsa, slaa, raka og hyrda, og þaa færdu helldr noogann aaburd aa þat.

39. A. Þat þyki mer olijklegt at eg fmi noog hey, fyrir 8 kyr, af ecki stærra Tuuni.

B. Þo þer synis þat olijklegt, þa er þat ei sidr Sannleikr, til merkis þar uppa vil eg segia þer 26 almennilega heyhesta, ætla eg fyri Kw, hvorn heyhest 3 Vættir eda 15 Lpd. at vigt. einn Eyris vollr er 120 Fadmar ummaals, i honum hefr þw 30 Skaakir ferkantadar, 5 Fadma a hvorn jadar, af þvijlijkri Skaak hefi eg fengid, þar sem best er i Tuuni, 3 Vættir af velþurri Todu. væri allt Tuunid so vel ræktad, þa fengi madr meir enn Kyrfoodr a Eyris-velli, og af þeim gamla Kyrfoodurvelli 45 heyhesta þat er lijtid minna enn 2 Kyrfoodr. C. G. Boje, i hans förfarna Landhuushållarin Kap. 1. skrifar at Tunnuland (sem hañ reiknar 14000 Qvadrat Alnir) velræktad, kunni at gefa af ser 6 = 8 til 10 hloss heys, hvort hlass reiknad til 9 Vætta þunga, edr 45 Lp. Þetta hanns Tunnuland i Svijarijki, er nockud minna enn vor Eyris-vollr, og kemr þat vel saman vid þennann minn Reikning, Þat tekr þo langt þessu fram, sem Løsendorp skrifar um Lier-Sookn i Akurhuuss Stifti i Noregi at þar gefi 1 tunnuland wtplantad med Netlu 18 hloss a ari, og hefi ... þat reynt, at hana maa her planta ei sijdr.

enn

enn i Lier=Sookn, huun þolir vorn kulda vel. Þvij huun er her innlend hia oss, þarf lijtiñ aburd, enn diuupa jørd.

40. A. Þo so kynni at ræktaz krijngum Bæi, nær þat hvørgi heim, at reikna so allt Tuunid i gegnum.

B. Þat er satt, a medan Tuunid fær ei adra rækt, enn þa sem nw er almennileguſt, sem er at bera herum 12 Tadkapla a Eyris voll, af nyrri Kunamykiu, beria hana a vori, og avsa um, hvar ruumlega helmijngr fer ofani rootina, sem von er a þvij tuuni, hvar hestar og fe troda og bijta jardvegiñ, allt arid um krijng, nema sem svarar einum fioordung þess, a medan grasid vex og verdr slegid. Sie jordin eins good og vel ræktud i ollu Tuuni, og gardr so goodr um, at ecki trodiz af peningi, þa er meiri von, at þar spretti minst, sem mest tredst, og er þat nærst bænum; enn nw er þar best, þvij þat hefr mesta Feiti.

41. A. Menn segia þat gras, sem hærst vex i krijngum Bæi, sie vaxid wr ser, odriuugt, og davfara enn annad.

B. Þetta er ecki fiærri meint. Tuunid i krijngum Bæina er vijdast miog trodid, gras rootin hord og foſt, þar a ofan kemr of=mikill aburdr og feiti. Hin fasta jord lofar ecki Rootunum at vaxa og dygraz nedan, enn

af þeirri mioou root tognar grasid miög vid ofræktina, verdr þat veikt og Stadlijtid, leggst wt af, fyrr enn þat kastar fræi, og þar kalla menn þat léggiz i leg, er þar Stilkr þess farünn at lyaz, visna, og meyrna enn fræid er þar af fallid, er slegid er. Þar i mooti, væri jordin lausari, þar þroskadiz rootin betr, leggr grassins yrdi dygrari, og kiarnqmeiri, og hlytr þvij þat gras betra at vera, enn hitt sem er vaxid yfir sig. At ofræktar Gras hiaa Bæum, sie odrüuugara enn annarstadar i Tuuni, er ei helldr orsakalaust, þær vokva mestu urtir vilia mesta Feiti hafa, og draga hana til sijn, þeirra fræ deyr wt, þegar þat fellr i medallagi jord, og þadan af magrari, enn tijmgaz i ofræktinni kríjngum Bæi, so sem eru: Lækia Soley (Calta palustris,) Fijfill, (Taraxacum), Suura (Rumex acetosa) Heimanioll (Patientia) og fleiri þess háttar, enn eingin þessara urta þolir þurk, helldr verda þær vid hann kraptalausar og at hysmi, ganga þær fra heyinu i þurkinum, enn hitt verdr eptir, sem fastara er i ser. Hvorugt þetta er at ottaz utar i Tuuni, þegar þar er þurr laus og hoofsega rœktud jord.

42. A. Þat munu vera einhveriar ungar, sem þu villt kenna mer, skuli eg

eg ſaa betra Tuun enn adrir goodir Bændur?

B. Mun eigi þat vel fallid, at nyr Boondi taki upp nyungar, enn til þeirra einnra Nyuunga mun eg viiſa þer, ſem eg heſi reynt, og mer heſr at goodu ordid: enn ecki er meir þaa uppaaſinning at þacka, eg heſe lært hana af Eſſendorps Oeconomiſku Utmaalan Leire Sooknar: hann ſegir Kap: 11. ſo: Þat er gott at ſtiinga allar Myrar upp med Skurdum, ſo þær verdi þurrar, þo er þat ei noog, aa medan landid væliz ecki, þat þornar, enn Moſin er kyrr. þat heſi eg reynt beſta raad at plægia þat land, nær þat er aadr uppþurkad, mykia þat og laata ſo liggia, þat geſr mikinn Avoxt. Meſti Skadi er Engium þat, at Peningr biiti þær aa vorin. Heyfræi ſaa at viiſu nockrir menn, enn þat heſir eg reynt, at nær magurt Engi er plægt, tadt, og laatid ſo liggia, aan þeſs at ſnuua Graſrootinni um aptur, þat heſr geſid yſirgnæfanlegann Grooda, af goodu graſi, ei verri, enn þo þat Engi heſdi wtſaad verid af beſta Heyfræi. Fyrſta aar geſr þat grooſt, ſterkt gras, kiarnagott ſyri kyr; annad aar nockud ſiinara; þridia aar ypparlegt allſlags Hey, og þeirri Frioosſemi heſr þat halldid ſiidan nockr aar ſamfleytt. Þetta ſkriſar Eſſendorp.

Vidlijka skrifar Baron Brauner i sijñi Book um Akr og Engi: hann leggr þat til at Myrar skuli stijngaz so upp med morgum Skurdum at ei se millum þeirra meir enn 15 eda 20 alnir, og naai Hofud Skurdurinn ofan i grunn Myrarinnar, enn sijdan beriz Aburdr þar yfir. Þurr Tuun og Engi, þar aa mooti bætiz best, med Vats-leidslu yfir þavg, ellegar Stiflum, þar til goriz Þverskurdir, fyri vatnid at safnaz i: þeir teppiz þaa, og vid þat flooi vatnid wt yfir Engid, hvort madr vill Havst eda Vor. lijka megi grafa Smaarensli wtaf Þverskurdunum, so Vatnid helldr dreifi ser, og þo megi ecki neitt vatn standa yfir þurru Engi, eptir þat at frys aa Havsti. Un þessarar Vatsleidslu segir hann at varla verdi þurt Engi ræktad med Aburdi, sijst med nyrri Mykiu, eñ med þessu mooti megi þat slaa tvisvar aa Sumri. Af eigin Reynslu veit eg, at þetta sem Brauner kennir, gylldir og so i Islandi; þat hefr mer lijka vel luckaz, at stijnga upp Tuunpetti, þar sem þyst hefr verid edr Trodningar, snuua um Grasrootinni aptr, so Svordurinn sie uppaa, og sletta allt um leid. Þaa læt eg taka þuungann kiepp edr tre-sleggiu, og beria af allar mishædir so liaaþydt verdi, og þetta sijdasta er hægast at giora, þegar jord er aa havsti frosin her um halfs

fijngr

fijngur=þykt; þar kemr gott og mikid Gras strax a nærsta Ari, hafi jordin verid feit, annars verdr at mykia strax a sama Havsti, þegar nybuuid er at jafna.

43. A. Þw segir at hann, madurinn sem þw nefndir geti um Heyfræ, a eg at sa til grassins, sem Gud lætr vaxa?

B. Þykir þer sem Gud lati þat ecki vaxa, er þw sair til? hann gefr ollu lijf sem lifir, og þann nærandi lijfskrapt gefur Drottinn i loptid, þat færir hann jordinni, huun færir hann avoxtunum, enn þeir færa hañ monnunum. Hos. 2. 21.

Nw a dogum skrifa þat margir, at i Utlondum sie þat alment ordid, at gora ser Engi med Kunst, plægia þavg og sa, er þat mælt, at slijk Engi giori ei minna gagn enn Kornakrar. Fyrst um sinn er þer annad þarfara, enn at kavpa wtlendskt Heyfræ.

44. A. Er mer ecki betra, at ætla mer Tuunid stærra, ef landlagid leyfir þat, og rækta so mikid af þvij sem eg get?

B. Enginn mun banna þer, at girda um so mikid land sem þw villt, enn eg hefi sagt þer, at betra sie lijtid Tuun umgirdt og velræktad, enn hid stoora oræktad. til at hegna hid stoora Tuun þarftu mikid erfidi, og langann tijma, maaskie morg Ar, uggir mig þa, at þer kunni at leidaz erfidid, er þw



bijdr ſo lengi nytianna, hvorra þer tiǽir ecki at vænta fyrr enn þvij ſtarſi er aflokid, enn hid litla Tuun ſynir þer langt um fyrri gagn. Þer er betra, at ſetia ei meiri Pening ǽ hey-þijn fyrſtu Ar, enn ſo þw ſǽir ſem meſtann tijma til gardlagſins, þvij þǽ hid fyrſta hefr þw fengid botn undir bw þitt, er þw hefr fengid umgirt og velræktad Tuun, og ſijdan Navtpening ſo mikinn, ſem þar mǽ vel food-raz ǽ, og dugir lijka til at mykia þat. Seiña kantu, at bæta utan vid Tuunid Økrum og Engium, hvar þeſs er koſtr, og þw fær Tij-ma til ad girda um þær. Þw munt ſied hafa, ǽ nockrum Bæum, merki til gamallra Tuun-garda, ſem hafa verid 2 edr þrijr hvør utan yfir ødrum, orſøkin þar til er ſw: þegar vorir Forfedr ruddu ſer fyrſt nya bygd, eins og þw gørir nw, þǽ hafa þeir fyrſt umgirt ſer lijtil Tuun, enn þegar þat litla Tuun var velræktad, og qvikfe þeirra og efni uxu, þǽ bygdu þeir annan Tuungard, fyrir utann þann fyrra. Þat ſama mǽttu giøra, ǽ nylendu þinni, nema þw hafir ſo fullar hen-dur Fiǽr, at þw getir leigt noog Foolk, til at giøra þetta verk allt i einu, enn þat mun nw travdlegá ſaſt, þar Koongr hefr gefid nw i Ar inn i Landid nya Forordning, ſem bydr øllum Bændum at hlada Tuungarda, og ſegir lijka hæd þeirra og gyldleika, med fleiru,

fleiru, sem allt er miøg þarft fyri landid. Huun er daterud 13. Maii 1776.

45. A. Hana þarf eg at vita, fyrst huun er gefinn mer og odrum bændum, til Reglu.

B. Her fyri framann mœttu lesa hana, enn gleymdu þœ ecki þvij sem stendr i hennar Formœla: Jardarinnar tilbærileg yrkia og nockan er Grundvøllr og Stofn undir hvørs lands velmegan, enn hennar Forsómun þar á móti, vegr til þess vanmáttar og þurdar. Þat sama sem her er um landid sagt œ eins heima hiœ hvorium boonda þar inni. Þvij er þat vissasti vegr til þinnar varanlegrar velmegunar, at þu ræktir vel jordina, sem ber þig og elr, so huun vanmegniz ecki undir þer af Orækt, og þu vanmegniz ofan œ henni af Sulti.

# Kap. X.

## Atli vill fylgia dæmum annara Boonda.

46. **M**. Þetta eru gomul Rijkismanna Rœd, þeir vilia at almuugiñ þrælki og vinni baki brotnu, og bæti jardir fyrir eckert, hvad gefa þeir i stadinn?

B. Satt er þat, at sœ verdr at rœda sem Rijkid hefr meira, og eru þavg Yfirvølld

 best,

best, sem eru vitur og goodgiorn, enn þar med stioornsom, so vill hvor Fadir at Born sijn ervidi, so þavg hafi noog bravd. Væri œ. þig skilid at vinna fyri Landsdrottinn, i hanns eins þarfir, og yfirgefa œ medan þitt eigid gagn, þœ myndir þw kurra, og verda þo navdugr at hlyda honum. Nw skilr Koongurinn œ þig so fodurlega, at þw rækir þitt eigid gagn, og gefr hann þer allann Agooda þijns ervidis, og eydijordina med, sem þw vinnir œ, þegar huun var Koongs-eign. Þat er med-odrum ordum at segia: hvert footmœl jardar sem Koongr œ, vill Hann verdi þegnum sijnum at gagni; þegar Eydijordin var Boonda-eign, gefr Hann þer samt og þijnum bornum oll not þijns ervidis, so lengi sem þavg eda þw endaz til at buua œ þeirri jord, sem þw hefr ræktad. Vid þessa Rækt batnar hvor jord, enn þo hæcka ecki Landskulldir, og þvij er Abuuandans allt gagnid af hans Sveita. Dugi hañ ser vel at, þœ vill Koongr gefa honum kavp fyri þat sem hann ræktar betr, enn þat litla Skylduverk, sem honum er uppœlagt, og hefr Boondi eins notin sialfr af verki sijnu þar fyrir. Þacka skylldir þw Gudi, at þw byr vid so gooda kosti, og so mikid Frelsi; olijkt er þat kiorum þeirra, sem fastir eru œ Footum vid jardir, madr eptir mann, og

verda

verda at ervida fyrir Huusboondann allt hvad hann vill og þarf, hafa hvorki þarfyrir fœdi nie lavn, enn þola þo Straff, ef brestr a verk eda misvinst.

47. A. Þat læt eg mer skiliaz, at Koongurinn vilie oss ollum sem best, og gott eitt kemr fraa Honum; enn eg verd at siaa um minn hag sem best. Eg veit aññ mann sem vill faa halfa Konuungstadi a mooti mer, hann er goodr vinnumadr, og mun hafa at ser sem mest, þvij vil eg verda fyrri til og varna honum at komaz þar inn, eg vil hafa sem mest undir til Slægna, so eg megi velia wr þvij, þo eg geti hvorki girt um þat nie rœktad, þaa get eg helldr varid odrum at naa þar til med þvij mooti.

B. Eg hefi sagt þer, at eckert gagn væri þer at hafa meira Tuun enn þw gætir rœktad, þvij eg merki, at fyri gagni þijnu gengst þw mest, þo er her annad i efni, sem eñ er meira verdt.

1.) Gud hefr giort allann Heiminn, til Eignar og Abudar ollum Ættqvijslum maña Act: 17, 26. Psal: 115, 16. hafa þær Ættqvijslir tekid vid þessari Fasteign at rettum Erfdum, eptir Forfodr sinn Adam, enn hann þaag i ondverdu af siaalfum Gudi. Sijdann hafa þessar Eignir skiptst i sundr jafnan smærra og

 smæ-

smærra, eptir þvij sem sa Attspriingr
æxladiz, og hefr Guds Forsioon so fyri
sied, at Heimurinn vinst øllum at fullu,
og Verølldin hefr noog framfæri fyri
alla þa, sem þar inni buua, ef at eng-
inn spillti fyrir ødrum, og hvor leti ser
nægia þat sem noog er, þa væri og
allir menn sælir; enn þo madr girniz
meira, er hann eingvu sællri enn aadr
og honum er þat ecki friaalst, þvij Gud
hefr eingvum manni gefid meira eñ hañ
getr nytt ser, og ecki fyrr enn hann fær
þad notkad, allrasijst maa hann banna
þat ødrum; ja þoott hann kæmi at
Eydilandi, edr hitti a fe, sem enginn
finst Eigandi at, þa samt eignaz hann
alldrei meir af þvij, enn hann getr fært
ser i nyt; hitt sem þar um fram er eig-
naz sa sem notid getr. At varna þess
ødrum er onaatturlegt, osæmilegt, og
omannlegt. Hundum er þat naattur-
legt, og þat er þeirra sidr, at veria
ødrum Hundum mat, þegar þeir eru
sialfir so fullir, at þeir geta ecki meiru
torgad. Hefdu allir menn þañ þanka,
at þeir þirftu ecki at rækta þat land
sem þeir buua a, helldr villdu hafa
mikid at velia wr, af þvij sem naattur-
an gefr sialfkrafa, þa yrdi at drepaz
nidr

nidr meir enn helmingr þeirra sem lön-din byggia, þvij þeim væri þar framm-færis vant, og þeir einir myndu eptir-lifa, sem illgiarnaster eru, og odrum vest vilia; eckert er þo fiarlægara Guds vilia enn þetta: hann bydr Sparsemi og bindindi, hann bydr ervidi og an-nægiu, hann bydr mannelsku og good-girni: ja, hann bydr oss at gefa þeim monnum sem þurfa, nockud af þvij, sem oss hefr rettilega fienaz med vorum Sveita.

2.) Koongr er Lands Fadir, og þar med allra þeirra sem i þvij buua, þat er gagn og gledi hans, at eiga sem flesta undirsata, og vill hann þa alla sæla. Hann ann ockr eins og Bornum sijn-um, an mangreinar, og þvij fellir hañ rettvijsa Reidi a þa, sem odrum mis-unna gods, allra helst þess, sem þeir geta ei sialfir notid. Landslogin skipa þer lijka at vinna upp allar Engiar. N. B. Eiriks Koongs: Svo skal Leigulidi Hioon hafa, at hann sai unnid upp Engiar allar, eda bæti Landsdrottni Skada þann allann sem menn meta, at land spilliz af þvij, utan þeir skilie od-ruvijs. Siadu nw Atli minn! hvad omannlegr þanki þat er sem þw komst

upp med, hann striidir i mooti Guds vilia, Koongsins vilia, og hans bodi nw i Forordningunni, hann spillir Fosturlandsins Farsælld, þo er hann þeim vestr, sem vid hann helldr. Þw ætt at reikna þer þat mestann Sooma i þijnu Boonda Standi, og hallda þig þæ rijkann, er þw hefr ræktad so vel lijtid land, at þw lifir Sæll af þvij, enn hitt skylldi þer inndæll vera, at vita granna þinn lifa sælann hiæ þier, æ þeim hluta jardarinnar, sem þw getr æn verid, og ecki ræktad, megi þid i morgu styrkia hvor annann, so bædum vegni þæ betr, og næi Tuun yckar saman, giori þid einn Tuungard, þid þurfid færri hiw, og allir wtvegir falla yckr hægra.

48. A. Jeg veit þo margann goodann boonda, og gamlann, sem fylgt hefr þessari minni meining alla æfi siina, verid þo olastadr, og haft jafnan noog.

B. Þat er illa farid at þw veist þat fyrst þat hneixlar þig, þo er þat enn verra at slijkir sie margir: þegar þat er sem best wtlagt fyri þeim, þæ verdr þeirra einka afsokun þessi: einhvor ovitr madr og mannhatari hefr sagt þeim þat wngum, og mæskie sæ hafi verid Fadir þeirra, siidan hafa þeir alldrei

rei bruukad so mikla athugasemi, at þeir kynnu at vitkaz, og sia hvort þetta væri satt edr eigi; þo hafa þeir afhendt bornum sijnum og hiuum, þessa sijna Erfd og Aflafe, heimsku og misunnan; og med þeim mœldaga ertu ordinn Eigandi þessarar meiningar, þvij er þer saart at missa hana.

49. A. Þw maatt lasta þessa meiningu sem þw villt: Flest eru þo Foornmæli sonn, og þar ca medal þetta: Betra er at Jordin beri mann yfir-megna, enn madr Jordina.

B. Ef þw affakar med Foornmæla nafninu alla mœlshætti og ordatiltæki saavijsra manna, sem þeir hafa heyrt af Forelldrum sijnum og odrum, sem þeim vooru ecki hyggnari, þaa verdr hin eptirkomandi olld arfgeng til allrar heimsku sem upp kann at finaz: enn þessi þijn meining hefr eingvann heidr af Fyrnsku sinni, þvij huun er ei gomul, helldr jafnalldra omensku, athuga- og atorku-leysi hinna seinni manna, og var huun ecki getin i nockurs manus hofdi þegar Forfedr vorir maattu best i þessu landi, og þat var þo fiolbygdast. Allr Fiolldi Eydikota, hvorra rustir syna sig næsta þvij i hvors manns lands-eign, sanna þat at Fornmenn vooru annars Sinnis. Þavg morgu Eydikot krijngum flesta Stoorbæi syna þat at Hofdingiar villdu

eckert

eckert lꜳta onytaz af landeign sinni, helldr at sem flestir fꜳtækir gæti biargaz oc þeirra lood; var þo Hofdingium langtum meiri afsokun, þo þeir legdi mikid land undir buu sitt, enn odrum minni hꜳttar mønnum, sem ecki høfdu so marga at annaz. Hvad adrar þiodir hafa meint um þetta i Foornolld mꜳ rꜳda af þvij sem Columella skrifar Libr. 1. Cap. 3: at Karthaginiskir, skynsamasta þiood i Afrika hafi so sagt, at Akrmadr skylldi bera; ysirnegna Akurinn, enn ecki Akr Akurmanninn, þvij geti hann ecki dugad Akrinum þꜳ se þat hans Skadi, og lijtill Akr velræktadr giori meira gagn, enn annar stærri illa ræktadr. Gellius segir Libr. 7. Cap. 3. at Roomveriar hafi sett þavg løg, at kolonistar, (nylendu buuar) mætti ecki eiga meir enn 5 Jugera; og nærri þvij 500 ꜳrum fyri Kristi Fæding, þegar Room hafdi ei stadid meir enn 267 ꜳr løgleiddi þat Spurius Cassius med Roomverium, at allir Akrar skylldu skiptaz, og einginn mætti meira Akurland hafa enn 7 Jugera, hvad gofugr og mikillshꜳttar madr sem hann væri. Nw var Jugerum 240 Foota langt, 120 Foota breidt, þat er 28800 Qvadrat Fætur, enn ummꜳls 720 Fætr, 360 Alna 120 Fadma, eins og vor Eyrisvollr.

50. A. Foornmenn her aa landi hofdu vijda afgirt Engi wt um haga, og stundum aa ødrum jørdum; þar fyri bygdu þeir hiaa-leigukot heima hiaa ser.

B. Þat var satt, giørdu þat lijka, þeg-ar þw hefr fyrst fengid velræktad heimatuun, og missir þw ecki mikid af beitar landinu fyri þat, þvij undir þijnum Engisvegg fær þw bædi Skiool og meira gras enn aadr fy-ri Peningin; þo munu þer adrar Foornmanna Reglur haggvæmari enn þessi. A medan þw ert Einvirki er þer nær at rækta vel heima hiaa þer. þw veitst af suua myrinni i Kon-wngstada landi, sem eingri Skepnu er fær, huun er tvøfallt stærri enn Bæar-Tuun þitt, huun er þar rett nærri, og er at henni eckert gagn vegna þess at smaamsaman hefr safnaz avr, mosi og sly i lækinn sem wr henni rann, þaangat til; at hans Farvegr er ordinn jafn haar holtinu i krijngum myrina, sem aadr mun verid hafa gøod Slæa, nw þarf at rijsa upp þennann Farveg, þaangat til hann er ordinn so diuupr, sem botninn i myrinni: sie huun sijdan stungin vel upp og ræktud maa huun verda besta Tuun, og þvijlijkt myrar petti kann granni þinn at rækta lijka fyri sig, og missir hvørugr yckar fyri þat, þvij þess haattar Suua myrar eru vijda, og flestar ord-nar gagnlaysar med sama møoti, sem eg sagdi um þessa myri.

K.

# Kap. xj.

## Atli spyr um Engia Hey, og Heydryghindi.

51. H. Þw nefnir alldrei nema Tuun, hvar ætlar þw mer Utheys-Slægur, sem morgum eru driuugari enn Tadan?

B. A fyrstu árum kann þer vera þeirra þorf, siidan ætla eg til þw heyir einasaman Todu, af tuuni þiinu edr umgirtum og ræktudum Engium þar utanvid. Allri þeirri fyrirhofn sem þw eydir til at wtvega þer davst og kiarna liitid myra hey, brok, fyrnung og þesslags máttu veria til þess at bæta heimabæar Tuun þitt, og liika til at stærka þat, ef jardvegr er til þess, samt til at girda um Steckiar Tuun, og muntu hafa þar af langt um meira og varanlegra gagn, enn þottw sækir med miklum kostnadi, hestanna, tiimans og vinnunnar, lett hey uppa Fioll, eda til fiarlægra Engia. Þat hey verdr viida at flytiaz vott heim at Bæum, og er þat þa noog a 2 hesta, sem ecki er nema 1 hestr i Heygardinn, og sa eini at gædum ecki betri enn todu Saata. Her a Bæ vooru fiallslægiur bruukadar þangat til eg kom og enn nockud lengr. Vegurinn var langr, þar

vo-

vooru at verki 3 Karlmenn og 2 konur, fengu a heillri viku 30 til 40 hesta af votabandi, Þat var ei meir enn 20 Hestar Þurrir, ecki so goodir sem 10 toduhestar: eg hætti vid Þann wtveg, took eitt lijtid avkatuun, sem lag miog undir penings og ferdamaña Footsum, og girti um Þat at havsti, var Þat vidlijka kostnadr eda litlu meiri, enn eg Þurfti at hafa fyrir eins aars Fiallslægium. Sumarid aadr enn eg umgirti avkatuunid, feck eg a Þvij 3 Saatur, næsta aar eptir feck eg af Þvij aaburdarlausu 7 Hesta, a Þridia aari feck Þat lijtinn aaburd, og gaf af ser 14 Hesta, a 4da. aari 21 toduhest, enn vegna aaburdarleysis og vanræktar hefr Þat ecki batnad sijdan, og mætti Þo enn ræktaz til helming=meiri afrakstürs.

52. A. Sumstadar etr Navtpeningr eckert Hey til gagns, hvorki Todu nie Engia hey, veistuRaad vid Þvij?

B. Satt er Þat sem Þw segir, og her i Sookn eru dæmi til Þess, samt vijdar annarstadar: gættw at: hvar sem sa galle er a jord, Þaa er Þar myrlendt og laglendt, og flooir odyravatnid Þar yfir a vetrum. Þetta vatn hefr diuupa uppraas, og i leysingum blandaz vid Þat ymsar naamu Saftir eda mineraliskir vokvar, af Brennisteini, Viktrili 2c. Þegar nw Þetta vatn stendr Þar yfir gras=

ros=

rootinni og vetrum, þa innbreckr hunn þessar Saftir, so at Navtpeningnum verdr þat vidbioodslegt, sem upp af henni vex: til merkis þar um er og so þat, at heyid af þesshattar jord jetst þa best er þat ornar, bliknar og hefr miog hitnad i þvij, enn þa vill fenadr þat ecki er þat þornar grænt og hitnar ei: at dreifa nockrum Saltlegi i lavsana, dægri adr enn wr þeim er gefid, er reynt betra enn ecki, enn hvorki er hann alstadar til, og ei er helldr þat raad einhlijtt. Nw muntu skilia, at þessum heygalla velldr Oræckt, þvij nær menn hafa forsoomad at stijnga Skurdi i gegnum slijk Engi og latid þa gomlu sijga saman, þa vex þar af surri og stiptiskri jord þetta ohollа og osmecklega gras, enn ef þw helldr Skurdum vid, og eykr þa eptir þorfum, so at landid sie alltijd þurt, þa muntu fyrir Aburd og Regnvatn faa þar gott og hollt hey fyri þijnar kyr, og muntu ei þurfa at qvarta yfir Slæulandi þijnu, enn sijdr at þw þurfir þess vegna at ryma jordina sem þw abyr, eins og nw er nærri eydilagt her i nærstu Syslu eitt besta Hofudbool fyri þessa orsok, af þvij sijgnir eru saman Vats-veitinga Skurdir fornmanna, sem nw siaast at eins merki til. Enn fyrrum, og medan at þeim var

vid

vidhalldid, kepptuz Høfdijngiar eptir þeim Gardi nuøg, at hafa þar bw sitt, einkum 1241 og 1554. enn nw vill þar einginn ovesæll buna, þvij kyrnar jeta þar ecki Hey, af aadr greindri orsøk. Her i grend vid mig er eitt Dy i Eingi boonda, sem boolnar upp aa vetrum, enn kríjngum þat sprettr mikid gras aa Sumrum. hefr boondinn sagt mer, at einginn peningr. smacki þat gras, og segiz hann fordaz þat, sem eitr i heyfengi sijnum.

53. A. Fyrst eg tek Eydi-jørd, verdr lijtill Heyafli minn aa fyrsta aari, get eg drygt Hey mitt med nockru, sem eg get komiz yfir at faa?

B. Hvad ødrum Bændum hefr at lidi ordid, maa þer lijka gagn gora.

a) Rijfdu grænann Engiamosa, so mikinn sem þw fær yfir komiz, þurkadu hann, og berdu saman i løn, sem Hey, aa hønum geta bædi Geldneyti og Savdfe lifad, lijka Hestar i hardindum, þo ei so vel sem joortr peningr.

b) Skerdu Grasroota-Svørd aa Sumri, trampadu wr hønum moldina i rennandi vatni, laat hann sijdan þorna, og gefdu hann navtum aa vetri, aa hønum hafa kyr lifad, og halldid nockurri nyt, i Biarneyum aa Breidafirdi, þegar þar var Heyskortr. Circa 1700

c) Þegar þurkar eru mestir a Sumrum, getr þu komiz at Tiornum, hvar Sef vex og slegid þat, er þad mioolkur kuna foodr: i þeim Tiornum, sem ei verdr atkomiz a Sumrum, medan þyd er iørd, sla menn lijka Sef nidr vid ijsin, þegr fyrst leggr a havsti.

d) Hrijs og helst Vijdir er gott geldneyta Foodur, þat er og kuna Foodr enn ei gott til mioolkur, þvij þat er barkandi, og dregr saman mioolkur ædar: og eingvar urter sem eru barkandi edr adstringentes hallda menn goodar til mioolkur.

e) Allslags Lijng maa og so geldneytum gefa, og er þat her i platsi reynt, at þavg lifa a þvij, þo þavg faai ei annad enn lijtinn Rudda med, enn a einum saman Vijdir geta þavg lifad.

f) A vetrum maa gefa navtum nyann Halm og lijka Smaaþara, jafnoodum og hann rekr, þvij hvorugr þeirra maa wlna og verda ei þurkadir: Æti-Sol hraa eta kyr giarnan, og vada wti Sioo eptir þeim, mioolka og vel þar af.

g) Her a Vestfiordum er þat almennings vani, at gefa kuum og øllum navtpeningi barin bein, helst Steinbijtshøfud, hryggi, ugga, og allt fiskifang, sem menn vilia ecki eta.

54. A. Peningr mun ecki eta þetta, nema hann sie þvij vanr?

B. Strax og havsti, þegar Peningr kemr af foodr mœttu taka feit geldneyti og svelta þavg fyrst til at eta hvad helst þw hefr af ollu þessu, fyrst med litlu heyi samanvid, sijdan verda þavg linuf til þess, þo eckert hey væri med. Dygra hriiss og Vijdirleggi verdr þw at kliuufa, edr meria þau i milli Steina; þvij sialdan bruukaz fyri Penijng dygrari leggir, enn svari fijngri manns: eg veit dæmi her at einn boondi heylijtill ol og blaberia og krækiberialijngi 4 wngneyti i 8 vikur, so at þavg hofdu ei annad og lifdu vel. Annad dæmi veit eg, at boondi nockr hellt þar ollu sijnu fe 120 Savda, sem flest var aasavdr fenginn, og einumsaman graamosa, allar sijdustu 8 vikur vetrar, þegar jardlavst var, og flestir adrir mistu miog fe sitt.

55. A. Þeir hafa minna fyri geldneytum sem laata þavg ganga wti allann vetr, og gefa þeim nærsta þvi eckert hey?

B. Ei verdr þvij neitad, at Fornmenn letu navt ganga wti a vetrum, og þvij misti Snorri Sturluson *) C navta i Svigna Skardi, a þeim mikla sellivetri, sem kom 1226 og 1227. er kalladr var Sandvetr.

G 2 Sau

*) Sturl: S: 4. 45.

Saa wtvegr var Þienanlegr Stoorbwum rijkra manna, sem gaatu valid ser Þar til hentngar jardir, hvar gras var mikid, Skiool og Skoogar, enn hofdu nooga menn til Þess at fylgia navtum vel til beitar, og standa yfir Þeim. enn eckert af Þessu aa heima hiaa Þer, og vijst kostar Þw ei meiru omaki til Þess at wtvega geldnavtum Þat sem Þavg lifa aa inni, enn ad vakta Þavg aa gaddi, og Þela, i fiuukum. Þeim er hættara at missaz wti, sie Þeim ecki fylgt. Þavg verda mogr, og sykiaz vid vorgroodr. Þegar Þeim er slaatrad at havsti, rijrna meir missiris holdin i Salti og Sudu og hafa minni næring enn hin, sem navtid hefr lengr aa ser halldid, enn Þetta bætiz, se Þeim gefid inni veturinn aadr enn Þeim er slaatrad. Her at avk er Þat mest verdt fyri Þig, at Þw missir alla mykiuna, sem er onyt og lijtil undan wtigangs navtinu, Þvij Þat er kiarnalavst, sem Þavg faa af jordinni, enn Þw ert ecki framsynn boondi, aa medan Þw reiknar ecki mykiuna fyrir Abata Eyrir. Þegar Þw ert buinn at rækta vel Konuungstadi, og Þw ert ordinn Þar efnadr boondi, so Þw hefr noog dygdugt foolk, og morg geldneyti, Þaa maa Þeirra Utigangr verda Þer at fesangi.

56. A. Helldr Þw eckert Uteingia gras gott til mioolkur?

B.

B. Stoora Storin hvijta, þegar hun vex a fiollum uppi, fram til Dala, edr a Flædi-Engium, gefr mikla mioolk, þegar hun þornar græn af henni einni heyrdi eg at kyr mioolkudu atta potta i maal, nordr i Stranda Syslu. Bomare hroosar miog Alchemilla, bædi Liounslappa og Mariustacki, at þessar nærskylldu urtir hafi mikinn krapt at avka mioolk i kwum; samt eru þær baadar barkandi. Madran, bædi sw hvijta og gula eru gott mioolkur-gras, enn þessar urtir hafa langtum meiri Saft og kiarna, þegar þær vaxa i ræktadri jord, nema Fial-lastorin, þvij henne er þat betra enn nockur Rækt, ad liggia sem lengst undir Snioo a vetrum.

57. A. Menn hallda betra Hey af þyfdu Tuuni enn sliettu.

B. Þat er lijklegt, ef allt Tuun er illa ræktad, at þuufna heyid sie kiarnamest, þvij þær hallda lengr vokvanum i ser enn annad land, og þuufna kollarnir skyla Rootinni a millum þeirra, enn þo er eck. þar fyri tilvinnandi at hafa þyft Tuun; þvij þegar þw ver þvij omaki til at slietta Tuun þitt, sem þw tekr þig lengr vid þat, enn hid slietta i Slættum, þa fær þw aarlega gott Stycki jafnad. Atferdina hef eg sagt þer, þo lærir þw hana allra besta i Forordningunni um Tuungar-

 da,

þá, sem eg hefi vijsad þer til her fyri framan. Halldir þw þvij verki fram ar eptir ar, færdu um sijdir besta Tuun og eggsliett.

58. A. Ecki hefr þw sagt mer hvornin ég skuli haga beitinni fyri bw mitt.

B. Ecki til þessa, enn nw skal eg segia þer þat: Kyrin hefr ecki gooda beit, nema huun hafi so mikid gras, at huun geti sveipad þvij um Tuungunna, þegar huun vill bijta þat þvij at naga snogt land dugir huun ecki, sijst þar sem huun hefr ecki vaniz þvij wng. huun vill laglendi enn ecki breckur nie bala. Þat er sannreynt sem Brauner skrifar, at þæ mioolka kyr best, ef hvor partr lands er þeim ætladr til beitar um Sinn þangat til hann er wtbitinn, og sijdan færdar i annann Stad, sem eins er medhondlad; Þvij ef at þær ganga jafnt yfir allt landid, edr þeim er beitt sitt mal i hvorn Stad; þæ leidiz þeim beitin, og er þo hitt verra, at þær velia wr fyrst þat besta grasid, og hafa sijdan einuungis þat liettara: getr þæ ecki þat besta grasid sæd ser sialst, og vid þat spilliz beitin. Her a mooti leggr Brauner þat ræd at skipta beitar-teigunum i jafna parta, og sie þvij ber-ra, sem þeir sie smærri, so at allrabest si- at hvor partr sie viku beit. Þar vid er sa bati, at madr hefr alla Teiga obitna, a medan einn þeirra er beittr, og hvor þeirra

fer

fer ſtrax at ſpretta, þegar at kyr eru teknar burt wr honum, og færdar i annann. Med þvij mooti fær madr lijka good Engi þar iñ- anum, er geymaz mega obitin þat aar, ſem madr ætlar þavg til Slægna: Þegar madr hefr beitt alla partana, er ſoa fyrſti ſo vel ſprottinn, at þaa maa beita hann at nyu, og ſo hina i ſomu rød ſem aadr. a þetta helſt heima þar ſem beit er nærri bæum, og a allar Siidur vid þaa. Her hiaa er þat at- gætandi, at hvørt beitar Petti ſie þvij miña, ſem navt eru færri, þvij þat er langtum bet- ra, at 12 navt bijti Teig þinn i viku, eñ 6 navt i halfann maanud, þvij þesſi 6 giora meiri og lengri Trodning um graſrootina og graſid misſir lengri Tijma til vaxtar. Af þesſ- um maata hefr þw þat gagn, at graſid eykſt enn moſinn mijnkar aarlega. verdr þw þaa at kaſta Tadi kuuanna a havſtin i ſundr og dreifa þvij um landid.

## Kap. xij.

### Atli ſpyr at Aburdi.

59. **A.** Þw hefr vijda nefndt A- burd, enn ecki talid upp fyri mer þaa hluti ſem þar til heyra, eda ſagt mer hvørnin þeim ſafna megi.

B. Þat sagdi eg þer aa havsti, hvørnin Þw kynnir at faa nockurn maturta voxt, aan aaburdar, enn nw vil eg vijsa þer til Akurÿrkiubookar Mr. Þórdar Þóroddssonar, hann segir þar i 6ta Kap: greinilega, fraa Aburdar maata utanlands, kantu þaa book at faa til laans edr eignar, þvij Koongr gaf 1000 Stycki af henni til Jslands, og i Lachanologia sinni hefr Eggert Vicelogmadr skrifad um þat flest, sem her i landi er til aaburdar hentugt. Eg vil einasta telia þat upp fyri þer til minnis, sem þenanlegt er til Tuuns Aburdar og Ræktar.

1.) Navtamykia 2ia aara edr elldri, er best aa sendid Tuun einkum sie þat þurt og hœalendt, og þaa er mest gagn at Fioosrækt, ef þat stendr aa þurrum haafum hool. So er þat og hentugt at Fioos standi nærri Tuungardi, so at navt þursi ecki at troda mikid af Tuuni, þegar þavg rekaz wt og inn. Laatir þw liggia inni kyr aa nætur, allt Sumarid, þaa færdu þann besta Aburd, þvij oll mykia er þvij betri sem peningr hefr betra Foodr, enn þegar græn eru gros aa Sumri, þaa hefr peningr Foodrid best. Kyr mioolka og eingu sijdr þar af, þvij þær leggia sig betr til grassins aa daginn er þær liggia inni um nætur, þær liggia

i haganum mesta part næturinnar, og hafa opt wti hregg og ovedr, enn si Fioosinu hafa þær Skiool og koma heitar og þurrar wt aa morgna. Mykiuhaugr liggi i grof fram undan Fioosdyrum, og kuuahland siigi þangat fraa Fioosi, þat gefr mykiunni mestan krapt, sem P. Juul Amtmadr segir, i hans Goodaboonda Cap: 2. Safnadu þangat, jafnoodum og mykian berst wt, nockru toluverdu af myrableytu og þo helldr þangi, ef þw aatt þess kost, so sem svari einum þridia parte aa mooti mykiunni.

2.) Savdatad er þar best, sem jordin er rakari, og laglendt er. Þeir giora ser Skada sem ei laata Savdfe sitt liggia inni allann vetr, ef beitarlandi hagar so at þvi verdi vidkomid, þo er ei betri medferd viida aa Vestfiordum hvar fe gengr i Fioru, og Sandr er borinn aa fiaarhuus meir enn alnar þyckr aa havstum, mokad so wt aa vetrum ollu tadi ofanaf med Sandinum, so þat verdr alldrei at gagni. Lijka er Savdatadi viida brent, þar sem þat mætti betra gagn gora jordinni, einkum raklendu Saadlandi. Þat væri þer raad, at gora Savdaqvi þijna vel haafa, legdu

 þar

þar i floor af Hellum, ſo þw ſcaïr þar hreint tad, ſafnadu þvij ſaman, þat er beſti Áburdr; þo drygir þer þat meira tadid, getir þw komiz til þeſs, at bera þar i myratorf og bleytu, ſo ſeid trodi þat allt i ſundr, bættu ſo vid þat jafnoodum, eptir raadum P: Juuls loco cit: Savdaqvij ſtandi hætt, ſo þadan halli at tuuni. Boje ſkrifar at Færiqvijar fyrir Áſávd at liggia i aa Sumrum um nætur ſkuli vera ſo ſtoorar at hvor ær med lambi hafi 2 Qvad. alnir, verdi þat land noog mykiad aa 3 noottum, enn her heſi eg reynt aa møgru Tuuni, at þar ſem Færiqvijin ſtood var nægilega mykiad aa viku, og ſtood þar ecki ſe inni nema um Mialtir, enn vijdlijka var þravngt i henni, ſem B: ſegir.

3.) Hroſsatad er beſt aa votlendi, enn þo Sinuklærar liggi inni um nætur giaſarlavſt, er þeirra tad gagnlijtid, þo ſkærſt aa moſa myrar, ſo er og navtamykie aa havſtum, þegar gras er følnad, ædr enn farid er at geſa hey: Þann mikla hita ſem wtlendſkar Buunadarbækur eigna hroſſatadi, heſi eg ecki fundid, mun og varla heri landi at vænta, nema jafnmikid hey komi ſaman vid tad-id,

id, sem þar ytra kemr af halmi, hvar fyrir hrossatad kallaz þar og Obrent Strœ. Med heymodi blandad hrossatad hefr her gefid hœgann yl, hefdi mœskie ordid meiri af goodu heyi, og lijka kynni þœ skie, at kyr œti hrossatadshavgá eins og i Svijarijki.

4.) Ordid Vallgangr synir þer hvar til fornmenn hafi nytt þavg Savrindi og ecki olijka Sidi skrifar Varro. de re Rustica Libr. 1. Cap. 13. Her at avki telr Eggert Vicelogmadur þessi Aburda kyn: Hladbleytu, Forarbleytu, Fnuamyrar- og mootorfs-bleytu, Moo, Mergil, Sioo-arleir svartann og blœañ Þang, og Þara, Osku og fuuna Dyralijkami. Ef þw brukar Gras-svord til Elldividar, er gótt at skera hann œ havsti, og flytia heim œ Tuunhoola, þar bœdi skylir hann rootinni, og lijka rignir wr honum sw bestá moldin, sem er ei verri enn midlungs œburdr. Þessi Abúrda kyn telr J. L. Rammecker i book sinni sem hann kallar Triœgardsmann Cap: 3: allt hvad vid Bœi safnast af Savrindum Fenadar, fuuid tre, lavf, borkr, skemt hey, urtir ꝛc. skyldi boendi lœta bera allt saman, i tilgiorda grof, og mœ þar blanda jord vid, item

Ar-

Akra og ollu ograsi, Ræsni, Slopum, Skoobootum, verdr þat allt goodr aaburdr þegar þat naair at geraz. Soot er gott kolldu landi, helst af Steinkola reyk. wtsodid malt, og oll sölt'fiorugros eru good, bædi aa Akra og Engi. Bleyta wr Trodningum og Vatnabotnum, er goodr aaburdr allri jord, hen̄i er hægaz at safna aa Sumrum, þegar tiarnir og vegir þorna upp. allt blood er gott til alls vaxtar. Gamallt hland er gott aa vott engi, og saman vid allann aaburd, eins Vijndregg, Oldregg, Saapuvatn, Þvottakorgr. Þetta skrifar Kammecker. Stadtholder Heur: Rantzau skrifar hid sama um Vijndregg og Hland, ef þat er karlmans og nockurra maanada gamallt. Siaa hans Diarium Oeconomicum &c. pag 14, og segir hann þat lijka gott, at hella þvij at Aldintres rootum. Kammecker segir at Saltpetr væri einhlytr til frioofgunar jordinni, ef at noog væri af honum, og þenna Saltpetr dragi til sijn alls joortr penings Savrindi, lijka alifugla, og allra hrædyra, hafa þessi Savrindi þvi meiri Saltpetr i ser, sem þavg hafa lengr legid og brotiz. Þat hefir eg reynt, at veggia mold er goodr

aa-

aburdr a Mosa þembur, og i eingri jord hafa Maturtir fengid betri voxt hiaa mer enn henni einnri, og lijka þeirri, sem safnaz i heygordum af fuunu votu heyi. Þvijlijk jord, borin her yfir Sandflog i Tuuni, hefr komid i gras a odru ari, og gefid sijdan gott og mikid gras i 6 edr 8 ar, an alls aburdar, er þess og von um slijka mold, þvij huun er ecki annad enn fuuid og uppleyst Gras og Rætur wr jardhnavsnum, og þo at jordin hafi verid adr i hnavsnum suur, stiptisk, og lecki hin besta, þa er mikid af þeim bresti lagfært, eptir so langann Tijma, sem veggurinn hefr stadid, af Soolar, Loptsins og Regnsins verkan, sem so jafnadarlega hefr gengid þar i gegnum. Lijka hefi eg reynt þat sem margir skrifa, um Oskunar gædi, til aburdar a mosavaxid Tuun, og fundid þat satt, at huun eydir mosanum, enn sie Saltid wr henni rignt, og eckert annad saman vid hana, þa er huun sialf davd (caput mortuum) nyaska med Saltinu er good at dreifa henni yfir jord og Sadreiti, sem þar vid fa nytt lijf, vidlijka og af litlu Sævatni edr Saltpekli yfirdreifdu, og þvij mun huun so mikla frioosgun verka i Skoog-

ar

ar Svidum Normanna, eptir hvorra Lijking eg ried þer, at brenna Mosa a Næpina Flaginu N. 25. Þat hefir eg opt reynt, at oll sw jord, helst i myrum, sem dypra er tekin enn halfrar alnar nidr, er davd og ofriosom, eg hefi lœtid bera i havga til at fuuna þesslags jord, og hefr Tuun sem huun siidan var œborin, verid verra eptir, þarf sw jord meir enn œr um kriing, til at lifna og draga til siin friosemi af loptinu. enn her skiptir miklu hvort jardarkyn er.

60. A. Menn segia at mosaþuufur uppstungnar, Hnavs, Torf og þesslags, fuuni œ einu œri, enn verdi goodr œburdr œ odru. Þetta væri mer hægast at fœ til œburdar nw fyrst um Sinn.

B. Þat mun satt vera Utanlands, fyrst þat skrifa margir menn. Sia Oeconom: Magazin Tom. 3, pag. 133, Brauner, Boje og fleiri, enn her i landi og lopti, hefr mer reynst odruvisi. þat veitstw at jardarhnavs veggir vara her i landi 40 til 60 œra, og jafnvel lengr, fyrr enn þeir eru fuunir. Gott Torfþak varir opt 20 œr œ huusum. Orsokin er, at her er lopt kaldara enn utanlands, og myndi þar vid hitan ecki lengi endaz Torfveggir, Torfþak eda Reidings Torfur.

Ockur

Ockur þykir undarlegt þat sem skrifad er og skyrskotad til Sioonarvitua, at 10 aara gamallt manslijk hafi fundiz i Novazembla blaasid upp wr Sandi, hvar þat hafdi jardat verid, so heillt og ofuuit, sem ny grafid væri; eun ske maa, at wtlendum monnum þyki þat litlu sijdr undarlegt, at aarid 1754 þegar einusinni var grafid lijk nalægt kyrkiudyrum i Savrbæ a Ravdasandi, þar sem aadr hafdi grafinn verid Sijra Biørn Biarnason er her var Þijnga-Prestr i milli 1620 og 1624 og deydi fyrivijst ei seinna enn 1625, og þottuz menn vissir, at ecki hefdi verid hreist vid leidi hans fyrr enn þaa, enn sijdr nockr Prestur þar nærri grafinn; þaa kom upp wr grofinni Prests-hempa af Vadmaali, so, ofuuin ofan til mittis, at 2 hravstir menn gatu ecki rifid skard i fellingarnar a herdunum. er þar votr kyrkiugardr miog, og jord martialisk. Lisa enn nockrir af þeim lijkmonnum, sem þessa hempu saau upp wr grofinni koma, og annar þeirra, sem eg liet reyna hana. Þat er at sonnu vijst, at þat sem voknar og þornar til skiptis, fuunar fyrst, enn so giorir vort Torfþak og Heytorf. Nw ræd eg þer, vilier þw bruuka myratorf til aaburdar, þaa laattu Pening þinn troda þat fyrst sundr, ber þw so allt saman Tadid og Torfid i havg, sem liggi i laag nockri hvar

sky-

skylir at, annars muntu meiga bijda þess at Torfid suuni til moldar full þriw aar eda lengr.

61. A. Þeir vinna 2 verk i einu, sem giøra Klijning bædi til jardræktar og Elldsneytis.

B. Þiw segir satt, þeir vinna 2 verk, og bædi oþorf. Hvar Tuun er þurt og sliett, møgr og lijtil grasroot, so jardvegr þarf aarlega at nockud leggiz til hans, so sem vijdast er aa Vestfiordum, hvar klijningr þo mest bruukaz; þaa er þessi buuskapar Sidr beinsti vegr til þess at øll Tuun gangi af sier aarlega og eydiz um sijdr, so sem Skadi verdi obætanlegr, sem og merkin syna sig her vijda. Elldsneytid sem klijningr gefr er miøg hitalijtid, og ecki omaksins verdt, aa mooti Mootorfi eda Sverdi. Þeir einir, sem hafa feita jord i Tuuni, og þuusur stoorar, þeir finna þat, sem satt er, at klijningr ofan aa hvørri þuusu giørir goodann gras-voxt aa sama ari, sem hann er bruukadr; enn jardvegr batnar ecki, þvi einnsaman løgr mykiunnar ser ofan i jørdina, enn hitt i elldinn; og þo er þat verra, þegar mykiu er nyrri brent, og huun er þaa þurkud upp med Seginum.

Kap:

# Kap. xiij.

## Atli qviÿdir Ama og Athlaxtri manna.

62. M. Mer ſyniz þw unnir mer eingrar þeirrar hægdar, ſem adrir Bændr hafa; þw eggiar mig a ſo margt og mikid erfidi, ſem fæir eda eingvir þreyta ſig a: myndi-mer ecki betra at fara hægra at ollum hogum mijnum og munum eins/og adrir Sveituungar mijnir, og ef mig þa breſtr, verdr mer betr til, at einhvor geſi mer mals-verd, þegar eg ræðſt ecki i meira enn adrir menn; enn fyri þeſſar nyuungar amaz allir vid mer.

B. Þat komi mer ecki i hug, at myndir ætla-þer at liſa a annara Sveita: þw heſr ſagt mer, at þw heſdir nw tvo um tvijtugt, og a heim alldri fer monnum fram enn ecki aptr vid ervidid. Vilier þw ecki ervida, þa mættu ecki eta 2. Tesſ. 3. 10. og þa verdr þw ecki lengi jarda byrdi; giordu aňadhvort ervidadu og ettu, eda hvorugt. Gættw at þvij: Fyrſt er þer allt ordugaſt, a medan þw ert Frumbylingr, ſijdan verdr þer allt hægra, og ættu þeſs von, þeaar þw kemr a hinn efri alldr, enn heſr dugad þer vel at

 wngr,



rungr, at þu niootir þaa goodrar og roosamrar elli, vid gnægd og gæsu, þvij so blessar Gud Sveita þeirra sem ottaz hann, og rækia truulega sijna Stiett. Fodurlandinu og Eptirkomendunum ertu her um skylldugr, þvij þegar þu komst inni Heiminn, og sijdan jafnlega hefr þu haft þess morg not, sem þeir fyrri menn hofdu greidt fyrir þer, og varid þar til Sveita sijnum og ervidi: aa medan þu ert i Heiminum, aattu sem mest þu orkar at greida fyri þeim, er eptir þig koma, og landid byggia; maa þat og miog knya þig fram, at þu veitst bornum þijnum ætladann allann aavoxt og gagn þinna Handaverka. Þu aatt at vita þat, at daglegt Ervidi, sem þu giorir med aanægiu, i goodri von Guds blessunar, og i skemtilegri Samvinnu konu þinni, er heilnæmt og gagnlegt lijkama þijnum til heilbrygdi og vidhallds, og Saalum yckar er þat gott at tempra þar med æskunnar giaalifi. Med þvij mooti kantu at verda hygginn og raadsvinnr madr, og bædi þid hioon goodir Huus-forelldrar, hæf til at uppala Born yckar i Guds otta, dugnadi og raadvendni, so þaug verdi yckr til gledi og gagns, goodir Koongsins Þegnar, þarsir menn og nytsamir Fodurlandinu, enn ecki klækismenn, onytiuungar, landhlauparar edr odresi.

63.

63. A. Eg verd fyrir athlaatri þegar eg er so opt at sysla með mykie, mold-bleytu og adra ohreinlega hluti, sem adrir mijnir lijk- ar skipta ser eckert af, og vilia ei snerta með Fijngri sijnum.

B. Þegar þeir hafa hlegid wt um Sinn, þaa hætta þeir, þvij einginn madr getr aan afloats hlegid; og þegar Gud blessar Ervi- di þitt, enn hinir Onytiuungar svelta heilu huungri, þaa þarftu ecke at twijla, at Hlaat- urinn fari af þeim. Þw kant segia þeim, at alldrei muni þeir verda halldnir jafn gøfugir, miklu sijdr gøfugri enn adrir menn, sem þessa idn bruuka, og lifa vid avd og Sælu. At margir Stoorhøfdingar og lærdir Meñ hafa greinilega skrifad um allt hvad Jardyrkiunni vidkemr, og lijka starfad þar at med eigin høndum. So skrifar Xenophon um Cyrum Persa Koong at hann hafi sagt: " eg sver " vid þessa Kooroonu, sem eg ber, at þeg- " ar eg er osiuukr sæ eg mer alldrei mat, fyrr " enn eg hefi unnid mer til Svita, annad- " hvort med Hermanna Kunstum, Aldin- " gards-rækt, edr Akuryrkiu." Mintu þes- sa vesælinga aa þat, at þo þeir vilie ei vinna slijkt fyri sialfa sig, til at hafa þar af ærlegt uppelldi, þaa samt verda þeir fegnir at viña slijkt hiaa ødrum med Osæmd, fyri maals- verd þegar þeir svelta. Seigdu þeim at vor

Frelsari samlijki ser vid Aldingardsmañ, sem bavdst til at vera mykiu at avaxtarlavsu tre þvij til Frioosgunar, so þat yrdi ecki upphøggvid, vegna þess at þat giørdi jordina gagnlavsa þar sem þat stood, Luc: 13. 6-9. Laattu þaa vita at einn velforstandigr forn-madr samlijkir þeim vid mykie, þegar hann segir so: Latr madr er lijkr savrugum Steini, allir menn hafa Skoñ hans at vid-undri. Latr madr er lijkr Mykiuskaan aa Tadhavg, taki nockr hann upp, saa verdr at hrista høndina. Syr: 22. 1-2. og eiñ segir hann so: Kap: 7. 16. Hata þw ecki þaa idn sem ervid er, ellegar yrkiu Jardarinnar. sem stiptud er af þeim hærsta. it. Kap: 10. 30. Betri er saa sem vinnr, og hefr allsnægtir, enn hinn sem gengr um, helldr af ser, og er bravdþurfi. og Salomon Koongr segir Ordsqvidab: 13. 4. Saal hins lata girniz og fær ecki, eñ Saal hins kostgefna mun fitna. þeir sem ecki vilia taka aa ohreinu, huxi til þess er Salomon segir: þar sem einginn uxi er, þar er jatan hrein; so saa þeir lijka hreinar Tennur, og Sult. Am: 4. 6.

64. A. Veitstu nema þw verdir sialfr haddr fyri þessi Raad? ef adrir saa þavg at vita.

B. Komi þat fram sem þw getr til, þaa verda annadhvort þeir til þess, sem seyta at Hædn-

Hædnis-efni, og myndu þeir hafa fundid þat, þvott ecki hefdu þeir vitad til ockar Samtals: ellegar þeir, sem hata allt ervidi, og þeim er hægt at lijda slijkt med þollyndi, þangat til þeir læra þat, annadhvort af þeirri blessan, sem adrir faa þar vid, edr sialfra þeirra o-þrifum, at þessi Guds og Koongsins Skick-an sie good, sem her hefr verid umtalad, jardyrkinni vidvijkiandi. Þaa kuña at vera þeir þridiu, sem eru goodgiarnir menn og duglegir, þeir hæda ecki, enn hata þo allar Nyuungar, hvar med þeir telia þetta; þessa skulum vid laata sialfraada Sinnis sijns, og oska þess af þeim, at þeir unni ockr sama jafnadar. Ef at þu fylgir Raadum mijn-um þaa verdr Raunin olygnust, huun mun dæma hvad gagnlegt sie og velraadid, edr hædilegt.

## Kap. xiv.

## Atli spyr at Agooda af Bwi sijnu.

65. M. Er mer ecki betra at leyta mer Braudds med hægra mooti? er þessi wt-vegr betri enn adrir? kann eg at faa so mikid gagn af Buusmala mijnum, at þessir ervid-is munir fædi mig og klædi?

B. Þat giørir þu rett, at leggia þetta nidr fyrirfram: Eg hefi sagt þer, at fornmenn ætludu halfann annann Eyris voll, fyri kyrfoodri; sem eg reikna 26 Hesta, og þriaar Vættir hvørn Hest. Þriaa Eyrisvelli ætla eg þer at slaa, þurka og hyrda Heyid af þeim i gard aa viku, med Konu þinni og einni Vinnustuulku. Þat eru 52 Hestar heys, og noog Vetrar Foodr fyri tvær mioolkur Kyr, þvij eg ætla til þu farir vel at raadi þijnu, og alir Pening þer til gagns; enn ecki sem nockrir giøra, keppaz vid at hafa mikinn Pening og stoora jørd; enn vanrækia hana og svelta Peninginn; jaa þeir þrælka fyrir honum ærlega, enn hafa ecki so mikid gagn af tveim Kuum, sem forstandigr þrifamadr af einni. Her aa Bæ fær mioolkur kyr 13 Skaalpd. tødu i maal, þaa hefr huun Vætt til 3 daga og Heyhest til 9 daga; enn sie huun geld, þaa eru henni riflega noog 20 Pund aa dag eda Vætt til 4ra daga. Med þessari giøf hefr Kyr sem kelfdi seinast i Octobr. mioolkad

| | | | |
|---|---|---|---|
| Novembr. | 10 Pot. a dag | er | 300 pottar |
| Decembr. | 8 | | 248 |
| Januarius | 8 | | 248 |
| Februarius | 6 | | 168 |
| Martius | 6 | | 186 |
| Aprilis | 4 | | 120 |
| Majus | 4 | | 124 |
| Junius | 6 | | 180 |
| Julius | 8 | | 248 |
| Auguſtus | 6 | | 186 |
| | | Summa | 2008 pottar. |

Nw meina eg þat ecki, at ſo ſkipti um mioolk med hvorium mꜳnadi, ſem her er reiknad, helldr þegar hvor vika bætir upp adra, ſꜳiz ſo mikil mioolk i hvorium mꜳnadi, ſem her er ſagt, og ſo um allt ꜳrid, og er her meint medal kyr, ſem ecki er langſtæd, og finnaz her i platſi jafnmargar betri ſem lakari, enn her er talid til, þar ſem Sumarbeit er good, enn kiarnagood tada, ſem her er viïda ꜳ Sandjordum. Þat hefr verid lag her i landi, at ſelia 25 potta ꜳ 5 alnir eda 10 fiſka, þꜳ eru 100 Pottar ꜳ 20 alnir. Ætludu þeir ſo til, at Smiorid i mioolkinni ſkylldi ſvara helmingi verds, enn odrum helmingi Skir Oſtr og Syra. Nw hefr bædi miin Kona, og adrar forſtandugar Buuſtyrur reynt, at af medallagi koſtugri mioolk ſꜳiz 10 Pund Smiors edr 1 fiordungr wr 100

Pottum, þat er helmingr mioolkur verdsins, siidan segia þær at wr 100 Pottum faaiz 25 Potta ruum af Skiri og af Syru 75 Potta ruum. Eptir þessum Reikningi ættir þw at faa undan einni sliikri Kw allt aarid um kriing þegar allri hennar mioolk er til þess hálldid, 20 Fioorduunga Smiors, 4 Tuñur Skirs frekar (eptir gomlu Islendsku Tunnu maali, þegar hvor Tunna aa at taka 12 fioorduunga eda 120 Potta) og nærri þvij fullar 11 Tunnur Syru, eptir sama mælir. þat allt saman giorir eptir gomlu verdlagi 13 Rdlr. 2 Mk. edr 3 Hundrud 40 alnir, enn sielft uw allt dyrara bædi til wtlendra og innlendra þessum Reikning kemr saman vid þat, sem Buumannalag segir, sw kyr, sem komiz hædst i 7 merkur i maal aa Sumri, giori 6 fioorduunga Smiors aa þvij Sumri. Nw gordi eg Raad fyrir at þw slægir og hyrtir 3 Eyris velli aa viku, þat er 2 kyrfoodr; verdr þaa Avinnijngr aa vikuverki yckar Hioona, og Vinnustuulkunnar 26 Rdr. 4 Mk. eins og mioolkin kostar ny, enn ef þid selied Sniior Skir og Syru alla undan tveimur Kuum, eptir þvij verdlagi, sem nw er komid, fær þw meir enn 30 Rdr. og reikna eg her þo ecki Kalfa, Lyknarbelg og Halahaar Kuuaña. Huxadu þig nw um, hvort þw getr valid þer annad gagnsamara verk, enn at buua so

i

hraginn fyri Þig, at Þw megir vænta so mik- ilirar blessunar af vikuverki Þijnu, heima vid Bæ, og kosta nærsta Þvij eingvu til, nema ervidinu, og Þo slijku ervidi, sem sijst er undir orpid hættu edr vanholdum.

66. A. Eg veit marga Bændr, sem varla fa eptir sijnar Kyr helming Þess sem Þw reiknar.

B. Þat veit eg satt er, Þvij allr fiolldi Þeirra sveltir Þær, enn foodrar ecki til nytia. eg veit Þa Bændr sem gefa Kuum sijnum ei meir enn 6 til 8 Skalpd. Heys i mal, Þar eptir mioolka Þær, enn hafa Þo sumir Þeirra so good hey sem best mega faast, enn Þeir vilia helldr hafa fleiri, og gefa ollum lijtid, Þvij Þeir segiaz hafa meira gagn af Þeim morg- um a Sumri, Þegar ei Þarf at gefa Hey. Þeir beita Þeim wt a vetrum, vorum og havstum, Þegar eingiun groodr er a jørd, eins qvijgum a medan Þær eru i vexti. Þær verda Þvij qvidlavsar og smaar, leggia sig ecki vel til grassins a Sumrum, verda kost- lettar at mioolk og magrar arid um krijng; mioolkur ædarnar dragaz saman, so Þær verda alldrei gagnlegar.

67. A. Þat sie eg, Þw reiknar allañ Agooda Kyrinnar, enn ecki Fyrihofnina, sem a mer liggr arid um krijng.

B. Ervidi þarftu at hafa fyrir ollu þijnu bravdi, og eins kuum, og er þat ervidi þarfaz, sem best lavnar sig, so sem þetta er. Einn lærdasti og forstandugasti madr her a landi hefr reiknad abata og kostnad leigulida af Kuum, enn þat er avdsied, at hañ giorir rad fyri magri hagabeit, og þeim kuum sem eg gat um at Bændr draga foodrid vid. og þo segir hann, at þegar menn reikna allann þann Kostnad, sem menn hafa fyri Kuum, þa se foodrid 60 alnir, leigan 20 alnir, hagabeit, huus og umhyrding 20 alnir, alls 3 Rdr. 2 Mk. og hafi Boondinn til gooda af medal kuu, at þessu ollu fraareiknudu 4 Rdr. 2 Mk. J Oeconomiska Magazini Tom. 7 pagina 324 er skrifad at ein Hollænderiets kyr gefi af ser 1 qvartil Smiør, og hennar Foodur kosti 3 Rdr. 2 Mk. þar af ferdu at kyr her i landi lavna betr siñ uppakostnad. Løsendorp skrifar um Leir-Sookn, at þar geymiz kyr i Selium 2 edr 3 manadi, og a þeim Tijma reikni menn undan hvorri kuu halft Lpd. Smiør: enn her i Breidafiardar Eyum koma menn kwuun a land til undangerdar 14 til 16 Vikur af Sumri, og fa eptir hvoria kw alldrei miña eñ 6-stundum 8 Fioorduunga Smiørs, og so þar i millum, fyrir utan Skir og Syru. Sami madr segir at kyr kosti þar 6 til 12 Rd

Rdl. hann segir og (sem satt er) at mesti Skadi sie at hafa margar kyr, þvij fæar Velhalldnar giøri langtum meira gagn enn margar Sveltar. Bojers Förfarna Landthushållarin segir kyr skuli hafa 14 Pund Heys æ dag þat er her um 12 Pund dønsk. enn fyrr enn þw ert ordinn velreyndr Boondi muntu skynia, at þat er ecki nærri noog nema kyrin hafi þar at auki meir enn jafn mikid af Maski, Halmi edr ødru i Heystad, sem þessi Buuhøldr mun og tilætla. Anno 1693, 24da. Aug: segia bædir Løgmenn fyri Amtmanni Muller at eptir þeirri Landsvijsu, sem þæ se, skuli gylld Hundrads kyr vera ei elldri enn 8 vetra, ei yngri eñ at ødrum kalfi, heil heilspenud, eigi at bera einhvørn Tijma æ vetri, ei minni enn 7 edr 8 qvartil æ Herdakampinn, nema huun hafi þavg gædi at nyt, sem voxtinn bæti, so feit, at huun þoli at vera uti i frostlavsum Hrijdvidrum um Fardaga. Sw kyr, sem mioolki 24 merkur til samans i bædi mæal, einhvorn tijma æ æri heiti Merke. Sw kyr meigi ei Leigugylld heita, sem alldrei æ æri komiz til 6 marka i mæal. enn mioolki hunn þær eda meir, heiti huun Leigugylld fyri Fóodri sijnu, Abyrgd og Leigu.

Kap:

# Kap. XV.

## Atli spyr at Navtpenings rækt.

68. M. Segdu mer meira af Navtpenings Rækt.

B. Þat er reynt, at kyr mioolka vel af volgu vatni, þar sem Hverar eru i grend, og so seger Brauner, at þær mioolki kyr best þegar vatn er borid inn i Fioos fyri þær, og lœtid standa til þess volnar, ædr enn þær drecka þat. Hann rœdleggr at kasta Salti i dryck kuua, þvij hann segir, at þær mioolki þvij betr sem þær drecki meir, enn Saltid veki þeim þorsta. Sioovatn mætti i þess Stad bruuka. Þat reyniz og gott, sem Bændr bruuka her, at sœ Salti yfir nyborinn Kalf, ædr enn Kyrinn karrar hann, þat hefr somu verkan, enn er gort Kuunni til heilsubootar. Ur þvij kyr eru 18 vetra, eru þær þyngri œ foodri, verri til undaneldis, og selia o-hollari mioolk. enn Oþarfi er þat her i landi, at binda sig vid þydska Bœnda Reglu Zinckens, at þær megi ei elldri verda enn xij. vetra: Her i grend vissi eg einn buuanda eiga fremr odrum gagnsamar kyr, og bestar til undanelldis; hañ

let

let kw alldrei faa nema annadhvort aar, enn let helming sinna kuua til skiptis vera geldmioolkann, aa aari, hans kyr vooru hravstar, og endtuz vel yfir 20 aar.

69. A. Hvornin aa eg at velia mer alikalf?

B. Merki aa Aelilegum kalfi hafa her forstandugir Bændr þavg somu, sem Brauner Sænski kennir; at kalfr sie langr, brijngusijdr, hofudstoor, ennisbreidr, bil aa milli herdabladaña yfir hryggnum, haals-þyckr, ecki krookhryggiadr, helldr med jof-num og miuukum hrygg. þat kallaz og gott merki at Sveipurinn se sem lengst, fyrir aptan Herdakambin. Tarf-kalf velr þw sem hina, telr Zincken good merki aa þeim rett hin somu og Varro. Libr: 2 Cap: 5. at þeir skuli hafa Enni miog krum-sad, malir breidar, svort og mikil avgu, lodin Eyru, wtskotnar Sijdur, hesid sijtt, mikla booga, Fætur stutta, huud þietta og harda atektum. oll þessi merki hefir eg vit-ad vel reynaz. þar at avki verdr oftast bestr kalfr undann stærstu kw hravstri holdsamri, sem mioolkar vel enn er lang-stæd, og geldmioolk aarid aadr, boriñ med vaxandi Tuungli, i Martio og Aprili.

70. A. Hvornin verda þessir kalfar best alldir?

B.

B: Þegar þeir sjá þat sem náttuuran ætlar þeim, sem er at siuuga moodirina, eñ þat vilia sæstir til vinna, og er þat satt, at Kalfurinn verdr þá langtum dyrari eñ eptir vana lagi, þat hefr þo bruukad verid fyrrum Siá Graag: Lb: 39. Ei ver maññ vid lög, þo ær leidi dilka umerkta, og skal moodir bera vitni hvorr á, so skal og hid sama, þo Kyr leidi dilka, Jónsbók Lb. 47 Ef dilk ær eru þá er mønnum ei skilt at marka dilka undir þeim, á medan moodir ber þar vitni um, og so Kyr um Kalf, Gyltur um Griis. Eg hefi reynt, at láta Qvijgu at fyrsta Kalfi ganga med dilki á Sumri 6 vikur, syndiz qvijgan batna þar vid enn kalfurinn vard miklu betri enn annars. i annad sinn hefi eg látid Kalf siuuga elldri Kw. vard sá Kalfr hinn besti, enn Kyrin hvorki betri nie verri, eingin Kona þykiz geta so vel mylkt upp Ana, sem Lambid giørj þat, eins má skilia sie um Qvijgur wngar, og jafnvel allar Kyr. Flestir reikna ser meira gagn at mioolk kyrinnar enn at gædum kalfsins, og so muntu reikna fyrst um Sinn, á medan þw ert Frumbylingr. at þer se betri sw halfa nyt kyrinnar, sem kalfurinn eydir þegar hañ sygr hana, enn vøxtur kalfsins frañ yfir annann. Þw mátt þo nyta þat sem adrir hafa bruukad fyri kalfa. Smáþara sem kallaz Ætiþang

þang ſaxadann og gordan af þyckvañ Vqts-
gravt. Næpur og þeirra gras, it. Kaal og
adrar Gardurtir, Jardepli og þeirra gras,
maa allt geyma wti i mold fram a vetr, þo
ſo diuupt at ecki friooſi. þat maa upptaka
þegar vill, og ſaxa þat fyri kalfa, og eins
maa þat elldri navtum gefa, helſt þeim ſem
hafa vaniz þvij wng:. Vijdir er gott kalfa
fædi; bædi hann og allar urtir ſem miog eru
barkandi, ef kalfar lifa a þeim nærſta þvi
eingongu gefa þeim þykt Skinn, og
braada fitu, enn lijtinn voxt, eins og Brau-
ner ſkrifar um Skoogar navt. þo af þvi kal-
far hafa giarnan lavſt lif, þaa er þeim þat
lækning ſem dregr ſaman, og her hefr þeim
verid gefinn ſaman vid allt ſem þeir drecka,
nockud af Sortulings log, item eptir raad-
um Brauners hefr her kalfr ſem ecki þreifſt
aadr, læknaz med þvij, at ſkafa Krit ofan
i mioolk hanns og laata Krijtar ſtycki fyrir
hann i baaſinn, ſem hann ſleikti opt. Jaarn-
lagar vatn, og Sortulogr er kalfum han-
vænt, enn ef þeir faa hardlijfi lækna þaa 2
Spoonblod af Lyſi, eins læknar þat kyr og
elldri navt. enn Lijſſyki þeirra læknaz med
þvi, at hella ofan i þær einum Pela a dag
af Saltpekli ſem aadr ſie þo ſodinn. eins ver-
kar, eins mikid af ſamanhrærdu Sooti vid
Brenivijn. iñan mein hefr þat læknad her a

Kuuin



Kuum at siooda mikinn Vallhumal (Millefolium) i Vatni, og hella þeim legi ofan i þær, nockra daga samfleytt, 1½ Potti i senn.

71. A. Sumir lasta þat at bruuka wngann Tarfkalf til Kwa.

B. Þess er von, og so giora lijka wtlendskir ménn, sem um buunad hafa skrifad. Þeir seiga at hann skuli þrevetra vera; Esssendorp vill at bædi Tarfr og Qvijga sie þrevetra edr enn þavg bruukaz til tijmganar; enn at undanelldi þess Tarfs, sem vel alinn er ruumlega arsgamall verdi eingvir verra enn hinna sem eru þrevetra edr elldri hallda her allir Bændr satt, eptir reynslunni, og ske ma, at hardari fæda og annad lopt hia oss, gori þennann missmun her og utanlands, i heitara lopti. Þo er þessi utlendska regla good i odru Skyni: þess fyrri sem Tarfr edr Hruutr eru til Tijmganar bruukadir, þess verri verda þeir þar til sijdan, þvi at þeirra kraptar eydaz, fyrr enn þeir eru fullstyrkvir ordnir: þeirra Stya sie ruum, þat giorir þa hravstari, enn kalfar þeir og önnur dyr sem til Slaturs eru alin, hafi þravngva Styu og sem mijnsta Hræring, þat giorir þavg feitari.

# Kap. xvj.

## Atli spyr um medferd a Savdfe.

72. M. Þw eggiar mig miog a Navta Rækt, hvad segir þw mer af Savdfenu? þat er gamallt maltæki, at Svelt er Savdlavst bw.

B. Gott er af þvij at segia. af þvij sæmu ver einn þarfasta hlut, sem er ull til Klædnadar. Savdfe sækir eptir þurru hœlendi, hvar barkandi og krydd urtir vaxa (aromaticæ & adstringentes), so þat lifir þar best, sem einginn önnur Skepna fær Foodr, og geldfe fær ser þa Foodr wti a vetri, er annar Peningr þarf Hey, helst hvar Fiallbygd er, og þat er sannreynd Sögn Fornmanna, at gamall Savdr og Riupa gangi eins vel vetr, i Hardindum og Sniooalogum, þvij þavg bædi na lengst til þess sem þavg geta lifad a, huun til Lavfsins, sem af henni tekr nafn, og kallaz Riupnalavf, (folia Dryados), enn hann til allslags beitiqvistar, og Vidirbars (Turiones). Af þvij sem wtlendskir menn hafa skrifad um Savdfiar Rækt, hefi eg enn þa miog liitid sied, sem eigi her vid Lopt og Landslag, enda villda



eg



eg ecki rœda þer til at safna miklum Smala, ef at her kostadi so mikid foodr hans og rækt enn hann gordi þo ei meira gagn, enn Sænskir og Þydskir skrifa, og ecki giorir Esfensdorp meir af Fiœrafla nie gagni þar af i Akurhuuss Stifte i Norvegi, hvar Asavdr er alldrei miolkadr. Baron Hastfer hefr vel skrifad um Fiœrtijmgun œ Islandi, af wtlendu kyni, og er þat Kver wtlagt œ Islendsku og þrykt 1761, at bodi þess hœloflega Kammer Collegii þar getr þess, at vegna ofnœqvæmrar og qveisarlegrar Medhondlunar Fiarins i odrum Londum, verdi þat soottþætt og þroottlavst, og hroosar þessi lærdi og velþenkiandi madr atferd vorri med wtigangs fe; þo er þat reynt, at þat Fe, sem vel er gefid mœnadar Tijma um Sumarmœlaleytid œdr enn þat ser fyrst at bera, giorir langtum meira gagn, enn þad sem sveltr þœ þat þolir vest Sult, undir Lamburdinn. Best er þar fe, sem þvij er gefid allañ vetr, enn helst œ Utrœnudum. Þvij gora og Buulog rœd fyri þvij, at þar sem 8 ær skuli vera um Fioordungs Vondul heys œ Þorra, skuli 6 vera um hann œ Gooe og 4 œ Einmœnudi; og þo segia Landslog at ætla skuli Savdfe Hey til Fardaga. Einn Boondi her i Syslu, rettordr madr, sem bioo œ vetrar-rijkis jord, og foodradi Asavd œ

heyi

heyi allann vetr, enn beitti þar a Skoogar=brum, er vedr var gott, sagdi mer, at hañ hafdi aatt A, sem mioolkadi 5 merkur i maal, þad er 5 Pottar a Dag, enn margar sagdiz hann eiga, sem mioolkudu 4 merkur, enn hann hafdi besta Beitarland. Hitt er almennast þegar fe er ecki magurt, at hvør ær mioolkar 1 pott a dag. Hennar mioolkurtijmi er 4 maanudir Junius, Julius, Augustus, September, þat sem huun hefr mioolkad med Lambi i Junio legg eg ofanaa September, þegar huun foor at taka at ser, og maa eg reikna at huun mioolki 1 Pott a dag 3 maanadi, þat eru 90 Pottar, þegar menn reikna, at gømlum Sid hvørn Maanad þrijtugnættann. Her er saa Ovani, at nær einginn Kona leggr barn a briooст, nw var her Boondi, sem eingva mioolk aatti nie feck fyri Born siјn 2. hann took 2 ær skamt eptir Mikaelsmessu a giof, og gaf þeim hey inni til Joola, feck hann af þeim mest allann þann Tijma 2 potta a dag, og þar med lifdu Bornin vel. A einum Bæ her i Sveit hvar fe er alldrei gefid, sagdiz Boondiñ hafa fengid i hitt hid fyrra aar, 1 mørk wr hvørri sinni bestu A nærsta dag fyri Nyaar, eñ þar hafdi ei fe verid mioolkad 3 daga aadr: so gagnsamt er fe, jafnvel giafarlavst i goodu Hagqvisti, ef ecki er ofmikid sett i landid,

 helst

helst hvar tekid er wr þvij hrijdmaal, þegar vest er a jord, og i Einmaanadar Nædingum.

73. A. Alldrei get eg eignaz nockud toluverdt af fe, ef at eg skal gefa hvorri Kynd hey.

B. Til eru so goodar Utigangs jardir, at fe gefr sig travdla hafi þat huus, þegar hardast er, þo stræfellr þat stundum. Oraad tel eg þer at hafa meira fe, enn þw getr hyst. Ovoltust er fiaar eign þeirra manna, sem alltid hafa Foodr fyri þat, enn eptir landslagi skiptir um hvad mikid Hey þurfi. Þaa kallaz Bændr a Strondum nordr byrgir, þo hart verdi nockud, ef þeir eiga 2 Utheys Hesta fyri hvoria A, enn 1 fyri geldañ Savd, og kyrfoodr fyri hvor 10 Lomb. Eñ verdi Asavdr magr a vori, færdu verri og minni Ull, sem opt tyniz, fyrr enn fenu er fylldt, ecki helmings nyt, og Lamb lakara. Vijda kalla menn 1 Uthrys Hest nægilegann fyri hvoria A. gamlir geldir Savdir ganga vijdast wti giaftarlavsir, enn huus hafa flestir fyri þaa.

74. A. Þaa vil eg samna mer gomlum Savdum.

B. Þat giorir þw rett og buumannlega, hitt er oframsyni at slaatra jafnan twævetra Savdum, enn laata Ær verda 10 vetra,

og þadan af elldri. Her ecki langt fraa enn tveir goodir Buumenn, sem hafa betri Savdi enn allir adrir, og gora þo ecki betr vid þaa enn adrir, nema þeir fordaz at laata þaa missa qvid, sem miog spillir þeim Fenadi er sitna skal aa Sumarbeit: þessir menn selia hvorki nie slaatra geldum Savdunum, fyrr enn þeir eru sio til aatta Vetra. A 9. Ari segia þeir Savdum fari vijdast aptr, þo hefi eg vitad Forystu Savd vel þrystinn og feitann, aa 10 Ari, Asgvdr er best ei verdi elldri enn 8 edr 9 vetra. Þaa Savdi velia Bændr til Slaaturs, sem strax snuua ser i Breckuna er þeir koma moodir af hlavpi, þvi þeir segia at feitum Savd verdi ohægt ef Morinn siigr fram i honum, og þvi leyti hann Andruunis at snuua ser upp aa mooti Brecku.

75. A. Hvorninn aa eg at velia mer Hruut?

B. Af þrifsamasta Kyni, og eigir þw þat ecki sialfr, þaa er þer betra at faa þer Hruut hiaa odrum. Hastfer raadleggr at velia þaa Hrunta til fiaar, sem hafa lengsta Ull; enn her hallda allir Fiaarbændr, at saa Hruutr sie þrifa bestr, sem hefr stuttann lagd og hrockinn, med siivolum Kroppi. Lombin liijkiaz mest Hruutnum at ollu. einn liitill Boondi aatti her einusinni ferhyrndann Lambhruut og bruukadi hann til Anna, þær

vattu sijdan allar ferhyrnd Lömb um vorid.

76. A. Hvorninn vita menn alldr Savda?

B. Bædi merkiz alldr Navta og Savda a Hornum, so fyrsti Hrijngr fra Stikli merkir 1. Ar, og so merkir hvor Hrijngr allt upp at havsi vetra tal. A Tonnum merkiz alldr Fiar med sama mooti sem Brauner segir Svijar gori. Lambid helldr sijnum Tonnum, þangat til þat er arsgamallt, þa fellir þat 2 Framtennur; og koma upp aptr adrar 2 betri. At ödru Ari lidnu fellir Savdr eina Tonn a hveria Sijdu nærst hinum; og fær þar adrar betri i Skordin. At þridia Ari lidnu fellir hann enn eina Toñ a hvöria Sijdu vid hinar fioorar; og þar vaxa i Stadinn adrar tvær. At fioorda Ari lidnu falla hinar sijdustu 2; hefr so tvævetra Savdr 2 breidar Tennur. Þrevetra hefr 4. Fiogra vetra 6; Fimvetra atta breidar Tennur.

77. A. Eg a eckert fiarmark.

B. Þu matt giora þer hvort Buumark sem þu villt, þegar einginn annar i Sveitinni bruukar þat adr, edr so nærri at se yckar komi saman, er þer þat eins heimillt þo einhvor hafi adr att þat og bruukad, ef þar ber þat einginn Skepna a ser, er þu reisir

bu

bw, þvij fiærmark edr Einkunn er eingin Eign lengr enn þat er aa Peningi manna. Aliftyfingar einir eru ollum Bændum til forna fyribodnir, og skylldir þw ecki gora þig grunsamann med þvij at brauka þar sist til Fiallbygda.

78. A. Þat uggir mig, at eg muni missa Lomb af Lijsfyki, eins og margir Bændr missa þavg her um Plats.

B. Ecki tijr þer at fordaz Lambaelldid, ef at þw villt Fiærboondi verda. Þeir missa helst Lombin, sem at beita þeim wt giaftarlavst i hlaakinn, þegar jord er avd aa vetri, enn þegar kofolld og frost eru, gefa þeir Lombunum fulla giof af megnu og kraftamiklu Heyi. Þessa miklu og snoggvu umbreiting þola ei so wngar Skepnur, þær faa Soott af Heyinu, þvij helldr sem þær hafa magrari ordid, allt eins og menn þeir sem megraz hafa vid liettmeti þola ei umbreytinguna, se þeim strax aa eptir gefinn megn matr. Þeir Bændr sem gefa þeim nockud aa hvorium degi med beitinni, þo þavg hafi nooga jord og hlaakur sie, reyna at þavg þola vel hey. Samt faa Lomb opt Lijsfyki aa vorin af nyum groodri, helst aa Siooarflædi Engium. Þegar þat ber vid, koma Bændr ofan i þavg hvort um sig her um þumlungi af þrycktu Toobaki, og batnar þeim þar vid, þvij þat

 hreinsar

hreinsar Slijm 'wr idrum Þeirra. Lijka er gott hvar Þvij verdr vidkomid, at reka Þavg Þar eptir strax til Skoogar edr Fialls, hvar beitiqvistr, og fleira barkandi og samandragandi er til Foodurs. A havstin er Þavg takàz aa Hey hella Bændr her ofan i hvort Lamb litlu Hœkallslysi, og reyniz Þeim Þat hollt, so Þavg Þrifaz betr eptir. Volg Syra, 1 Peli til hvors Lambs, er Þaa good nær Þavg hafa Orm i ser:

79. A. Þegar Savdfe fær Utbroot, edaønnur vanheilindi, hvad raad leggr Þw mer vid Þvij?

B. Ymsir menn brúnka ymislegt, og margt af Þvij fyrir utan Skynsemi; Eingiñ hefr betri raad gefid vid Savdfiaar qvillum eñ Hr. Land-Physicus Biarne Pálsson, (sem von var af Þeim lærda Manni,) i Þvi Skrifi sem hann gáf wt fraa ser 1763, i moot Fiaarpestinni. Hafa morg af Þeim raadum at goodu ordid her Vestra vid einstaka Skepnur, er fengid hafa klaada edr annann Siuukdoom, Þo hans raad dygdi ecki at nogu, til at eyda Fiaarpestinni, Þann Tijma huun var megnuz Þar Sydra: Þetta er Agrip hans Raada.

1.) At giora Reyk i Fiaarhuusum aadr Fenu er slept inn af Einiberium edr Einir, Skofnu horni, Ullar sneplum, gomlum

ium Skoobootum, Manns haari &c. hvoriu fyri sig, edr öllu aſamt, er gott vid allri Loptſins Ohyru, hvad gioraz kann hvört annad edr hvört þridia Qvölld, ſerdeilis i Votvidrum.

2.) At bera i klædan Smyrſli af Tioru, ſuuru Smiori eda Lyſi og muldum Brenniſteini yfir elldi vel ſamantémprad mykir vel ſamandregnar hruckur i Skinninu, og leyſir eins upp klæda Floſuna og Hrudurinn.

3.) Sioodiz klemt Toobak i ſuuru Smiori edr ſtækri Keitu og helliz i endilangann hrygginn, ſo at wt af flooi œ bædar Siidur.

4.) Nædſt til at brenna Brenniſteini undir qvidi þeſs Fiœr, ſem Utbrot fær at nedanverdu.

5.) Smœtt mulinn Brenniſteinn gefiz inn i heitri Mioolk nockur qvölld ſamfleytt.

6.) Volg Syra, her um ruum mörk i ſenn er good fyri þat fe, ſem hefr mikinn Sudda Utſlœtt gefiz œ faſtandi maga.

7.) At hanka Feid i öllum fioorum Nœrum, item i Hnackanum er gott, og dregr Veſsa af Kroppinum.

8.) Þœ ſmœu Luus i Ull Fiœrins drepr Lyſi, item Luut af Savdatadi eda Pangoſku og ſtæku Hlandi.

9.) Smaamulid Salt, annadhvort med foodri edr eitt fenu inngefid, her um eitt Spoonblad i fenn, hreinfar øll vetfla Oheilindi wr Kroppinum; Saltpekill kann gøra hid fama.

10.) Malin Hvannaroot edr Einiber gefiz med volgri Syru.

11.) Heimilis nioola root, i nyrri Misu edr Undanrenning fodin, hreinfar Blood og Saftir, þat er og gott vid Hoofta fenu faftandi inngefid.

12.) Fiallagrøs i Vatni fodin eru good vid Luungna Syki, getr og af þeim fialfum fienu gefiz einn hnefi a morgna.

13.) Tak hart Soot wr Rooti (einkum þar elldad er Hriifi eda Savdatadi) faxada Hvannaroot eda fteytt Einiber, eda Helluhnodra, eitt edr allt, eptir fem til kann at vera, bind allt i pofa, og legg þar til mliifa mikid af Salti: giør fo Deig med Vatni, heing i Utihyfi hvar ecki frys, og fet undir Bolla, er taki vid þvii fem wrlekr. Her af kann gefaz tvifvar i Viku þvii veika og klæduga fe gott Spoonblad fullt. Allt her at framanfkrifad kann og bruukaz vid Navtpeninginn nema þar verdr frekara at gefa. Þetta fkrifar hèr um Land-Phyficus. Vats-

Vats-soott læknar hvor atgætin Smalamadr, med þvij at klippa litid framanaf Sin Savda, og Luungnasoott þykiz her ein gamall Fiarboondi lækna, med sexudu og mordu Preßutoobaki saman vid Harkalls-lysi, hann hellir þvij ofan i þaa veiku Savdarkynd, herum 3 Spoonblodum, eda þo minna.

80. A. Hvort er mer gagnsamara Navta edr Savdabw, i tilliti til Avinnings og Uppækostnadar?

B. Adr hefi eg reiknad þer Nyt og Uppækostnad Kyrinnar, nw skal eg reikna þer Nyt Ærinnar fyrst. Hennar Miolk ædr samanreiknud (Num: 72.) 90 pottar. 20 alnir, Lamb 5 al., Reifi 3 al., er 28 alnir, er þaa Avinningr af Asavdar Kuugilldi 1 hundr. 48 alnir, og af þeim tveimur Kuugilldum Asavdar, sem þw foodrar a Kyrfoodri 2 hdr. 96 alnir edr frekir 11 Rdr. Setjer þw fleiri Ær a Kyrfoodur, þaa ertu ecki vel byrgr ef hardann vetr leggr. Nw kann vera þw kømir fram 3 edr 4. Asavdar Kuugilldum a Kyrfoodri, þaa er avinningr þinn langtum meiri, enn af Kuunni, enn halld og eign þijn, er þaa langtum ovissari, og kantu at missa allt þitt se a einum Vetri, leggiz han þuungt at. Þer verdr Kyrnytin driuugari, þvij ad huun kemr jafnt at allt ar um krijng, en þo þw

Þw eigir Asavd, ertu samt Mioolkurlavs heila 8 Maanadi, og þaa verda fong þijn uppgangsöm. Þat er þo mest vert, at jord eydiz af sialfri ser, þar sem Navt eru ecki til at gefa Aburd, þvij Savdatad nægir ecki til jardræktar, sijst hvar fe gengr wti, og þo þat liggi inni, er þess Tad gagnlijtid a Sandhoola og Hardlendi, so þw fær travdlega halldid vid jord þinni, nema þw hafir Navtpening. Dæmi eru til þess, at menn hafa safnad fiolda Savdfiar, af þvi at kostadi litla Fyrirhöfn, enn forsoomad jordina, hafa sijdan mist a einum Vetri allan sinn Fiaarafla, og skilid þaa snaudir vid fordiarfada jord.

81. A. Ecki þarf eg þetta at ottaz, ef eg gef Anum inni allann Veturinn.

B. Ef þw gefr Am inni til mioolkur fram eptir Vetri, og þeim sijdan foodur til Fardaga, þaa, færdu eins mikla Nyt sem af Kunni, enn ohagqvæmari, þvi þw ert þo aan Mioolkur 5 Maanadi fulla. Kyrfoodr dugir þer navinlega fyrir 6 Ær. Mykia þeirra er langtum minni, og þo Voktun meiri. Þer mun hollast at hafa ei meira Savdfe enn so, at þer endiz Foodr fyri þat, aan þess at draga vid Mioolkur kyr, þaa hefr best Not af hvoriutveggia. Enn Fodurlandid og Eftirkomendurnir þacka þer best fyri þat, sem jordina bætir mest.

82. A. Heyrt hefi eg þat se Abati, at klippa Savdse tvisvar a ari?

B. Þegar þw helldr Savdse, vid nooga Giof allann Vetr, þa er þat gott at klippa se, og færdu med þvi mooti betri Ull, og helming meiri, þw klippir þa Geldse fyrst i midia Gooe, og sær fullt Reisi, aptr klippir þw um Höfudagsleytid, og fær þa nær eins mikid, enn þegar þw villt hafa nockud toluvert se, þa mun þer þykia þessi mikla og gooda Ull helldr dyr, þvi eitt Reisi og nockr munr Ullargædanna, mun ecki bæta þer, at þw kant ei hafa meir enn einn Savd fyri tvo. Til dæmis: af 20 Am færdu Ullarvætt oþvegna; sie þeim inni gefid sem Kuum allann Vetr helming meira Hey enn annars þyrsti, færdu 2 Vættir; enn a þvij Heyi, sem þær eyddu, ganga vel fram̄, med almennilegri hiuukun 40 Ær, og þær 20 sem ysir hafa, muntu kalla eigulegri, enn oþvegna Ullarvætt, sem er fimtungi þyngri, enn væri huun hrein. Ske maa, at þw kunnir at klippa þrisvar se þitt a ari, ef þw gefr þvij vel, og lætr alldrei mioolka Asavd, eins og Lesendorp skrifar giort se i Akurhuuss Stifti i Norvegi, enn med þvij þresallda Savdarreisi og Lombunum med, kallar hañ þar þo Asavd gagnlijtinn, og so munu allir Sveitwngar ockar kalla.

Kap;

# Kap. xvij.
## Atli spyr at Hestum.

83. **M**. Hest þarf eg at eiga.
B. Þat er satt, enn hvort þat Hross sem þw maatt ann vera, er oþarfasti gripr i Englum og Beitarlandi, þvij þavg naga so nærri Rootinni, og þurfa lijka so mikid, at Hross þrevett edr elldra, er reiknad til ijtolu i haga vid 2 Kyr; enn tvævett Hross edr yngra vid eina Kw, þar aa moot er talid þrevett Navt edr elldra vid eina Kw, og 3 Vetrgømul vid eina Kw. Graag: Lbr. Þ: 15 Kap: Jónsbók Lbr. 4 Kap: hefr sømu ijtolu, þar sem sw grein er rett tolud. Nw muntu skynia at betr komi nidr jafnmikid Gras sem 2 Kyr edr Navt lifa aa enn eitt Hross, sem ecki vinnr til Nytia. Getr þw aatt Hrossastood aa fiollum edr afdølum sem alldrei komi til bygda, þat væri gott, so maattu taka þar fraa Hesta til at temia og bruuka eptir Þorfum, eda til at selia og legia odrum, sem þurfa. Lijkt þvi sem her bruukaz at hanka Hest i briosst, segir Essendorp at verie þaa Hesta, sem bruukaz i Norvegi, fyrir ollum Siaukdoomum, segir hañ hankinn eigi at vera af sialfra þeirra Haari, þrii-

twinnadr, og gangi hankinn inn hina ødrum bogie; enn wt hina ødrum, sie þessi hanki dreginn til og fra daglega, þangat til ecki safnaz meiri vessi þar at, þa er hañ dreginn wt. Brauner skrifar nockrar Hrossalækningar, af hvørium þessar er hægast at fa. Sie Hestr meiddr undan Reiding, tak Brenneviin, Toolg og Edik, þat dragi wr boolgu aridid, siidan sais i Sarid Aska af gømlum Skoosoolum, enn Sarid þvoiz i Saltpetr-luut edr Urin. It. Deig af Ruugmieli og Salte, þurkad, brent, og strad i Sarid, lækni vel. Vid Hoofkirking: riisiz Hoofurinn nidr, so hann verdi allr þunnr, siidan nuuiz med ravdum Lavk. Vid klada og luus: meliez Brennisteinn ofan i Lysi, hvøriu þar skal vel uñnuuaz, hvar Klada hruudr er. Hvar Har er af, þar smyriez med Puudri og Smiøri, þa komi Haar at nyu, an þess at bregdi Liti. Vilie madr lata Haralit Hests bera Bookstaf nockurn edr annad Fangamark sitt, þa leggr Jesuitinn Tylkowski (Tractate de Re agraria) þat Rad at leggia Hænsa drit vid svartañ Hest, undan þvij verdi hvijtt Haar, enn at gøra svort Haar a hvijtum Hesti, skuli taka Leirkruusar brot, siooda þat i Vatni, steyta i Morteri, og leggia þat dupt vid 24 Tijma þa falli hvijt Haar af enn svort komi aptr.

84.

84. A. Hvor eru Hreystimerki a Hesti?

B. Þaug telr adr nefndr Jesuite, og fleiri, eins Bændur her i Landi: Stutt Hofud, jafnbreidt nidr, lodid miog og hrockid i Enninu, (kalladiz slijkr Hestr fordum Bucephalr) svort Avgu, opnar Nasir, Eyrun laag og lidug a Hofdi, so þavg hræriz fliot vid hvort vidbragd sem Hestr gorir, þyckr Macki, Manarhaar mikil og styf, med nockrum Sveip. Briost og Herdakambr þyckr og mikill, Hrygguriun jafn vid sig, kringloottar og upphaafar Lendar, þo lægri enn Herdakamburinn, Taglid þyckt og nockud hrockid, sijvalr Kroppr, digur Kne, Footr beinn, hardr, svartr, ihvolfr, oskackr og oklofinn Hofr. Saa sem bijtr fraa ser adra Hesta a Stalli, og hleypr giarnan fram fyrir adra i Rekstri, helst um Torfærur.

85. A. Fleiri Skepnur ala bædi þu og adrir, enn þær sem nu eru taldar.

B. So er þat, Geitse og Svijn hafa menn, lijka ymislegt Fiadrase, so sem Hæns, Endur og Gæsir, enn Navt og so Savdse er þer gagnsamast, og þeir eru flestir, sem þar med laata ser nægia. Þegar þu ert ordinn langtum meiri Avdmadr, enn þu ert nu, þaa maattu þessu vidbæta sem faasiedgra er, ef þu hefr Skoog fyri Geitse,

og Stoduvats Tiorn nærri Bæ, fyrir Endur.

## Kap. xviij.
### Atli vill Hæns hafa.

86. M. Marglr fatækir men̄ hafa her Hæns, og þat vil eg lijka gøra, þvij Haninn segir mer hvad tijma lijdr, og men̄ segia at þar verdi alldrei reimt sem hann er i huusi.

B. Marglr hafa her Hæns, sumir til Skemtunar, eda Sælgætis meir enn til Gagns. Vilier þu hafa þavg, þa fædu þer fyrst 1 Hana og 2 Hænur, af þvij Hænsa kyni, sem her i landi hefr tijmgaz; þa hana, sem jafnan hlavpa til og fraa er þeir eta, hvorke gala nie duga Hænum, kalla menn Skothana, og eru þeir ei til annars enn Slaturs. Dockleitar Hænur og stoorar hallda menn bestar Varphænur. Þu kant at fæda Hæns aa Vetrum og Vori aa mylsnu undan Heyi, þar sem þat er hrist, og deigia þat med Miolk, aa þvij lifa þavg vel, vegna Fræanna, sem i mylsunni eru, enn aa soxudu Heyi einu lifa þavg ecki, þvij þat er of kiarnalijtid. A allslag Fiskahrognum, Skiri og odrum huumati, lifa þavg ei sijdr, enn wtlendum Kornmati. A Sum-

K rum

rum og Havstum hafa þavg sialf ofan af fyri ser, med þvij at tijna Orma, Madka og allskyns Fræ. Arfafræi maa fyri þavg safna a Sumrum; þar sem Arfi er mikill i Veggium; taktu Fiol, negldu utan a hana lijtinn lista beggia meginn, at huun verdi sem langr Stockr, set hana langs med veggnum, þar fellr Fræid i wr Arfanum, jafnodum og þat rosknar, maattu sijdan vinsa þat so þw faair þat hreint, til vetrar forda. Saxa Kaal, Næpur, Jardepli, Netluknappar, allt þetta varla edr ecki halfsodid er þeim gott fædi. Þess verdr þw vel at gæta, at alltijd sie biart a Hænsin, bædi hvar þavg sitia, og lijka hvar þavg taka mat sinn og dryck, þvij einuungis vegna dymmunar, þrisaz þavg ecki, og af þeirri vanrækt misti eg einusinni oll mijn Hæns. Kosi þeirra eda Kista þarf at hreinsaz einusinni i viku. Alldrei er þeim her gefid at drecka, þavg wtvega ser sialf Svolunar vatn a Sumri, enn Snioo a Vetri, i Elldhuusi þrisaz þavg vel, og þola betr reyk enn adrar Skepnur. Gamlar Hænur, sem mest gavkla laata menn leggiaz a egg, og velia til þavg egg, sem helldr eru hnottott enn aflong, þavg sem wngar Hænur hafa orpid med vaxandi Twngli, enn þo ecki fyrstu egg undan wngri Hænu. Hentugt er, at Hæna leggiz a i Junio fyrr enn Tuungl

sie

sie fullt, so huun wngi wt med nærsta vaxandi Tuungli, þvij Ungarnir klekiaz veniulega wt aa þrim vikum, og skal vera hlytt aa þeim þar sem Hreidrid er. Komi Ungar þaa ecki wr eggi, edr ei allir, þaa eru aņadhvort eggin davd, edr Skurmr þeirra so þyckr, at þeir geta ei brotid sig wt med Nefinu, maa þaa briota lijtid aa fyrir þeim. Þavg egg, sem eptir verda, maa laata i Ullarflooka aa Kakalon, i volgt Heymod, eda annarstadar, hvar jøfn og hoofleg velgia er, þar koma Ungar wr Eggi og mega þaa leggiaz til hinna, sem sialf Hænan hefr wtklakid. Þat er raad til at fiolga Hænsum; leytadu þer at Riuupu eggium, og legg undir Hænur; þvij at þat eru sama kyns Fuglar, og verda miøg lijkir Hænum, nockud minni, eņ þar aa moot tijmasamari. Villi-Anda egg maa og so leggia undir Hænu, huun wngar þeim wt, enn þeir verda heņt ecki lengi fylgisamir, þvij þat er aņad kyn, og þurfa lijka annann atbuunad, sem er þo eingu torvelldari. Egg sem leggiaz undir Hænu sie ei fleiri enn 10 at tolu, og ei elldri enn 8 daga. A medan Hæna liggr aa eggium, skal huun vel foodraz, og færiz henni matr og dryckr at Hreidri. So at Hænur fliuugi ei þangat, sem meņ ecki vilia, klippa menn flugfiadrir af vængium

Þeirra, eda ſtyſa mikid af ødrum Vængjinum ſama giøra menn Villi-Anda Ungum, ſem Hænur wtklekia. Ef Luus ſetſt a Hænur, er Þat Zinckens raad, at Þvo Þær i Kuuahlandi. Þegar Þær faa ſvartann Kamb, og vilia ei eta, Þaa ſkal gefa Þeim grænt Kaal, Lavk og Smiør. Beſt Þarf at foodra Hæns fraa Marteins meſſu til Nyaars. Hænu egg geymaz i Vindſvølu huuſi uppheingd og rødud nidr i giſini Løvp. Varro raadleggr at leggia Þavg 3 eda 4 Stundir i Saltløg, Þurka Þavg ſiidan, og geyma i Kornnylſnu. Haninn galar veniulega a Eyktamootum, enn viti hann a vedrabrygdi, Þaa bregdr hañ veniu. Hvad Reimleika ſnertir, Þaa er Haniñ langt um betri til Als enn Atruunadar, Þo er Þat fevænlegri Trw, ſem eignar Hanagalinu krapt a mooti Þeim enn ſo kølludu Agati eda Rafi, og er ſaa beſtr a medal Halfvita, ſem bætir Buunad ſinn, enn ſpillir honum hvørgi med Þeſshaattar Hiaatru. Ef at Þw helldr, at Reimleikum valldi illir Andar, Þaa er hvørgi vørn at ſaa i mooti Þeim, nema i Andanna Riiki, og hiaa Þeim, ſem er enn ſterkari, Þat er ſaa almaattugi Skapari og Koongr Andanna, Gud a Himnum, tilbid Þw hann, og truudu honum til Þeſs at vardveita Þig fraa allri myrkra magt.

87.

87. A. Fleiri Alifugla hafa menn her enn Hæns.

B. Endur hafa fæeinir, þær foodraz hæglega, og eta flestallt sem þeim bydst, i Sioo eda Stoduvatni wtvega þær ser noog fædi, einasta verdr at gefa þeim nockud, helst Andrikanum, so þær verdi ei villar. Þær verpa vel enn wnga ei vel wt, og mæ bruu-ka Hænur til þess at wnga wt Andar eggium. Heingæsir hafa vijda verid her œ Landi œdr, enn nw er þat aflagt, þær segia menn eigi at hafa skamtadann verd, og ei ofmikid, so at þær verdi ei of-feitar, þvij þæ verpa þær Vindeggium. Bædi Gassinn og Gæsin vilia hafa vatn at bada sig i, þegar þavg pa-raz, þvij þavg eru Vatsfuglar. Roofur, Kæl, Jardepli, Miol, og Hafrar er þeirra fædi. Þetta skrifar Baron Brauner.

## Kap. xix.

## Atli spyr at Hraqvikindum ꝛc.

88. M. Fleiri Qvikindi þarf eg œ Bæ mijnum.

B. Otaldir eru Hundarnir, eru þeir þorf Dyr og monnum fylgisom. Þat eru þrijr Hundar sem gagn mega gora buui þijnu,

Vardhundr, Dyrhundr, Fiarhundr. Þat er Vardhundr edr Huusvordr, sem bædi vor Landsløg og so annara Pioođa geta um, at i hleckium eda bandi skuli geymaz, hann ver se manna fyri Piioosum og odrum qvikindum, og skal band hans ei lengra vera eñ so at hann nai ei til þeirra sem iñ vilia ganga i huus, þar sem hann er i Seti bundiñ. hañ geltir at okunnum Monnum enn ecki kunnugum. Þeir sie stoorir, sterkir, grimmir, og svartir a lit. Dyrhundar, eda Veidihundar veliez hvijtir, lagdir a Vori, og sijdast um Sinn; menn segia þeir se betri geltir. Varro vill þeir hafi stoor slapandi Eyru, dygrann Svijra, hæbeinoottir, wtskeifir, dijngli Fætinum i gavngu nær þeir taka hann upp, dyñraddadir. Adalb: Tylkowski segir þeim fylgi Hundr, sem gefr honum mat atadann i Sveita sijnum. Veidihundi skal gefa blood wr Dyri þvij, sem hann a at veida, so mætti her gefa honum Refsblood, eins og Normenn gefa þeim Biarnarblood. Fiarhundar veriez wngir vid se, þa verda þeir þvi meinlavsari. Zincken segir at Hundaskinn se rett gott bædi til Handskuua og Footskuua, þat er lækning þruutnum oheilum Hondum. a Hundum er her nw ecki lagaverd, enn Frostuþ: Ma Magnúss Koongs, i Qvennag: bydr

þeim

þeim at giallda Drottni Hunds halfa Mork, sem drepr Veidihund og so Navtahund, enn fyrir Huusvord Eyri, ef drepinn verdr. Graag: Hreppskilaþ: segir so: Ef at Hundr er bundinn fyri Buui manns, eda Buud eda Stijo til vardar, þaa aabyrgiz saa sig er i Band honum gengr, og so þo se gangi i band honum aabyrgiz saa ei er Hund aa. Ei skal Hundr lengra bundinn vera, enn tveggia alna se aa milli Stavrs og Hælsis. Ef Hundr er bundinn i Seti, þaa skal hann ei taka framm aa Stock at bijta menn er ganga goolfi.

89. A. Enn vantar Konu mijna Kott.

B. Ef Mys setiaz at hiaa þer, þaa er Kattar vant. eins og Zincken segir hallda menn svarta og dockleita Ketti besta, lagda i Majo. Kattaskinn er metse i Logbook vorri, enn i fornum Logum vooru 2 Freslingaskinn Eyrir. Kattar Andi er ohollr, helst Born-um, og þo enn vera ef nockud af Kattarhaari fer ofani mann. Hann leggr þat raad, ef Ketti verdi ei heima halldid vid Huus, at gelda hann edr styfa af Eyrum hans, þviz hann þoli ei Regndropa i Eyrun, og helldst þvij vid Huus. it. hafi madr Kattarskinn i Fatafoodri þreytiz Hestr fyrr undir honum. At vatssiuukir og þruutnir menn skuli hafa Kattarskinn vid bert brioost aa ser. enn mog-rum monnum se þat skadlegt. Kattar

feiti vermi og lini alla Lidaverki.

90. A. Nw eru flest Qvikindi talin, og hyrdi eg ecki um at safna mer fleiri tegundum.

B. Þa mun þo Refr koma obodinn i Landeign þijna, enn hann er oheilagr i hvors manns Landi Lb: 58 Kap: þw ert skylldr, eptir Logrettumanna Samþyck 1680 at veida einn Melracka gamlann, edr 2 wnga a 12 Manudum hvorium, edr greida tvær alnir i Mat fyrir Fardaga. Her veidaz Refir mest med Bissu, Dyrabogar leggiaz miog af, sem er þo hægri veidur og kostnadar miñi, enn allra minst kostar þig, at gora þer Toongilldru, vidlijka og þw getr sied hana uppa bruuninni her fyrir ofan Bæinn, enn huun er giord eptir Forskrift nockurs gamalls Prests, sem gaf mer hana, og med þvij sa umbuuningr er nw flestum okendr her i grend vil eg segia þer hana. Huun er þessi:

1.) Gilldran sie hladinn a hellu eda grioot grundvelli, sem toft eda qvijar, nockud lengri og hærri enn Tooa kann at vera, enn so þravng, at Tooa geti ecki snuuid ser þar inni.

2.) J gafli, midium standi trehæll afsleppr at nedan verdu.

3.) Sijdan er bygt yfir þessa toft med griooti so þat hlad hafi hæd sialfrar jardariñar.

4.)

4.) Innar vid gaflinn skal vera so mikid op, at þar verdi bædi nad inn til at egna, og lijka at veidin megi þar wt takaz, ef a þarf at hallda.

5.) Strengr med lyckiu a Endanum, smeckadr a hælinn liggr so upp wr þessu opi, yfir a minstu griooth ladi, allt til dyra: þar er kross=bundin hella, (eda med gati) i hans odrum enda, sem til ætlad er at nidr detti, og þvij skal griootladid vera so þyckt, sem hæd hellunnar verdr at vera.

6.) Fyriframan dyrnar standi fallega kantadir Steinar sinn hvøriu megin, so langt fra, at hellann hafi nooga þrom, eda plats til at falla i millum þeirra og gilldru veggianna. enn fyrir ofan lyckiuna a hælnum hangir agnbitiñ a afiari lyckiu, so tilætlad er at Tooa kippi Strengnum fram af undir eins og agninu.

7.) Þegar gilldran er twijdyrud, þa er sijn hella vid hvorn enda, eins og fyrr segir um þa eindyrudu, enn agnhællinn i midium vegg annarar hvorrar langhlidar, og a honum badir Hellu=Streingirnir.

8.) Lijklegt er at Toour sieu ovarari vid þa twijdyrudu. Lokfins er agnopid, med

med griooti byrgt, og allt lœtid verda sem lijkaz nœttuurlegu griootholti. Petta er Forskriftin. Strøm Sondmørs Beskrivelse T: 1. C. 7. p. 392 segir at Suñmœrir bindi Skinnreim um hœls œ Lómkum, sem sie smurt med samanblandadri Tioru v d Puudr. þœ lygt fœliz Refr. Bomare segir þat vera besta Refasmyrsl œ agn og Boga; Gœsafeiti, Hestatad, Fioolu root, Lavkr Camphora, med þessu megi smyria allann Bogann. Refs feiti mykir, huun er good at smyria med Sinar, huun leysir upp og lœknar footaverk, kreppu og hnuuta.

91. A. Giarnan vil eg rœd vita, hverninn eg megi eyda øllum þeim qvikindum, sem mig Angra.

B. Mys og Madkar, og fleiri Smœqvikindi muuu taka ser Huusruum hiœ þer ordlofslavst. Þat er Kettinum œtlad at reka Mys wr Huusum þijnum, undir Lijfsstraff, enn dugi hann ecki þvij Embœtti þœ, eydir þw þeim med Muusafellu eda Muusagilldru; þyki þer þetta frioodsama dyr samt ecki eydaz noog, þœ gefr Zincken þetta rœd: menn taki smœtt sigtad Gips, og blandi þvij saman vid smœrisinn gamlann Ost, þegar Mys eta þar af, verdr Gipsid steinhart innann i þeim, helst þegar þœr drecka þar œ eptir, so þœr drepaz þar af, Menn kunna

lijk

lijka at taka samanblandad Miel, Ostmys-
nu, og oslokid Kalk, og setia þar hiꜳ grunt
vatsker. Þegar Kalkid fer fyrst at brenna
þær innan þyrstir þær og drecka, enn vid
þat vex hitinn so þær drepaz. Þat er eitt
rꜳd at brenna Hesthoof i Huusi, þꜳ flya
þær þadan strax, sama er ef menn brenna
Muus eda Volsku, þꜳ flya þær þann reyk.
Stundum hreidra sig Mys i Ull ꜳ lifandi
Savdfe, enn þad er þꜳ gꜳleysi Smalamans
og hanns Skulld, ef fe drepst af þvij, sem
hættast er vid ꜳ Lombum i Huusum inni.
Þar vid er gott rꜳd þat sem ꜳdr er skrifad
(Num: 79.) helst Toobaks lagar badid.
Mold wr Lundaholum segia menn Mys þoli
ecki hana fꜳ ser landmenn wr Lundaeyum, til
at dreifa yfir þat, sem Mys mega ei atkoma,
mun sw meining komin af þvij at Lundi og
Muus siꜳst alldrei i somu ey. Mosr mun
þer ofeckr i Fatnadi þijnum, honum verdr
lijka ofeck vistin hiꜳ þer, ef þw reykir Bren-
nistein i Huusum þijnum, Tobaks reyk vill
hann ecki helldr, og eckert af þvij sem rꜳdit
var at reykia i Fiꜳrhuusum: Jarnsmidir
vilia þat ecki helldr (N. 79.). Madkaflugr,
Galldraflugr &c. safnaz miog at ijlꜳti þvij
sem opid stendr wti med nockrum Saltpekli,
af einhvorium Saltmati, helst þegar hann
fer at fuulna, þar drepaz þær nidri i huus-
un-

undum saman, enn þegar so er ordid þyck at þær kafna þar ei lengr, maa taka þessa vid-biodslegu veidi i burtu, safnaz þaa þang-at aptr, so lengi sem tilvinst. Til at veria sig Luusum taka menn løg eda Saft wr Hoin lauk, Kaali edr Sinepi (Mustardi) med Hunangi og gora Smyrsl af, þat verkar betr, ef Tobaks løgr er þar saman vid. it. Tak svarta wtreykta Piipu Too-baks manna, mel hana til þess huun verdr at smærsta dusti, gior þar af Smyrsl med gamlu Smiori, med þvij at laata lijtid stooda saman. Liosgrænn hardr Leir, fæst her vestra aa Galtarfiorum og i Kollafirdi, þann Leir þola eingin Insecta, þavg drep-ast strax sem þavg snerta hann. Þessi Leir sydr eckert i Skeidvatni.

# Kap. xx.

## Atli sækir Hreppstilaþijng.

92. N. Langt er nw sijdan vid hofum fundiz, hefi eg fordaz fraa tasir aa medan Slaatturinn stood yfir, enda hefi eg nw ecki nockurn blett liaaberandi eptir. Hvad liggr nw fyrir af Havstverkum?

B. Nw safnardu þvij sem þw fær til Aburdar Tuuni þijnu, þw þiettir Huus

þitt

Þijn, og hvør Stund sem þer verdr afgangs, henni ver þw til Tuungardsins, og þvij helldr þw fram̃ eptir vetri, so lengi sem jørd er þyd, enn einusaman griooti getr þw hladid a þela.

93. A. Þarf eg at sækia Hreppskila þijng?

B. Þat attu at sækia, og segia þar Hreppstioorum til bygdar þinnar, þw segir þeim at þw giørir eingva Lavsafiaartijund þessi Missiri, fyrst þw att eckert fe. Nybyli þitt þurfir þw ecki at tijunda, Manneldi gefir þw eckert, enda munir þw ecki matar beidaz af Hreppnum, Matgiafir læt ir þw til verda, edr hysir einhvorn Fatæk ann Hreppsmann, þann sem Hreppstioorar vilia, 3 nætur fyrst þw hefr 3 menn a fædi, yckr Hioon og Vinnustuulkuna, nema Kona þijn sie oliett, þa gelldr þw at eins tvennar Matgiafir, þvij huun fastar þa ecki, nie gefr wt verd sinn i þvij Skyni.

94. A. Þarf eg þa eingvann mann at hysa framar?

B. Koongurinn gefr þig friann fra Skullda wtsvari, enn ecki fra almennilegum Kærleika, og hann attu at syna vegfarendum i navdsyn þeirra; verdr þw eins sekr og adrir menn, ef at þw wthysir nockrum i vondu vedri, og fær han̄ mein edr bana.

95. A. Þegar eg blessaz so, at eg er kominn i 5 hundrada Tijund. hvad mikid æ eg þær at giallda?
B. Þw gelldr Eyris Tijund þat er 3 fiskar hvorium Tijundatakara, sem er Koongur, Kyrkia, Prestr, og Fatækir.
Þw gelldr Giaftoll af 5 hundrudum 5 alnir.
Þw gelldr Logmanns Toll af se þijnu 1 fisk, og af æbyli 2 fiska ef þw byr þar einn, anars ei nema 1 fisk.
Þw gelldr Liooftoll Kyrkiu, 10 merkur Mors.
Þw foodrar Lamb fyri Prest.
Þw gelldr Fatækum, avk Fioorduungs Tijundar, Matgiafir, þat er Mælsverdr fyri hvorn mann æ Bæ þijnum, þann sem gengr til Gudsbords og er elldri enn 12 vetra yngri enn siotugr, nema Kona sie þuungud, hafi barn æ brioosti. Þessir menn fasta er þeir ganga til Altaris, og æ Bænadaginn, fioorda Fostudag eptir Pæska, þat eru 3 Mæltijdir fyri hvorn mann æ æri. Þann mat ættu at greida Fatækum, eptir Hreppstioora Skipan, sem foolk þitt myndi etid hafa, æ þessum dogum.
Þegar Fatækra se vinst þeim ei til fædis, þæ verda þo Hreppsinenn at fæda Fæ, kallaz þat Mannelldi, og ættu þvij at svara

svara eptir tiltolu, og Hreppstioora Skipan R. B. H. Koongs 1305. Dyratollr er 2 alnir sem þw ætt at giallda. (Num. 89.)

# Kap. xxi.

## Atla fædiz Barn.

96. M. Þw veist Boondi hvad tijmum lijdr, nw er komin Gooe, og þvij mun þer ecki þykia olijkleg Saga mijn; huun Arnbiørg mijn ol Barn, i gærdag, þat er Sveinn, og þykir mer vænt um, sem þw munt nærri geta.

B. Þat er good Saga, lof sie Gudi, vel sie Kooginum, Fodurlandinu, og yckur Forelldrum Barnsins, þid hafid vel aflad, buustu so vid at vel þurfi at geyma.

97. A. Ecki ætla eg mer at bera Barnid wt, eg ætla þvij Mioolksopa, þegar eg fæ hann wr Kunni.

B. Eg læt mer skiliaz hvorninn þw ætlar at byria Barnfoostrid, og er þitt raad hid skynsamlegasta, ef ala skylldi kalf, til at verda vænt navt, eñ fyrst barn þitt er madr af manni borinn, þaa heyrir þvij til þat fædi, sem nattuurunnar Herra hefr ætlad þvij til framfæris, i moodurbrioosti, og mættu geta



ta Þvij nærri, at barninu, sem hefr nærst af moodurinni sijdan Þat var getid, muni hentugri vera hennar mioolk, enn so olijkrar Skepnu at ollu Edli, sem Kyrin er. Menn meina skynsamlega, at edli barnsins, ia ser-hvorrar ungrar nyfæddrar Skepnu lagiz miog eptir edli Þeirrar fyrstu Fædu, sem Þat fær, so sem til dæmis, at Lamb verdr styf-hærdara, ef Þvi er jafnan gefin nauta edr geita mioolk, og Þar a moot kalfar og kid-lingar miuukhærdari, af Saudamioolkur elldi, enn eg Þykiz vita at Þu villt Barn Þitt lijkiz meir Moodur sinni, enn Kuunni Þinni.

98. A. Ecki getr huun Arnbiørg mijn haft Barn a Brioosti, huun hefr so margt at annaz, Þat gøra her ecki helldr margar konur.

B. Þvij er verr, at Þetta er satt sem Þu sagdir, at ecki margar Konur hafa her barn a brioosti, Þo eru Þær nockrar og eru Þeir-ra børn avdÞeckt af betri Þrifum enn hinna, sem fædaz a mioolk annars dyra kyns; Þu ert Þvij sællri og frialsari sem Þu getr betr sied Þig vid Þvij at rekaz fyri Stravmi anna-ra manna illrar Sidveniu, enn i Þess Stad fylgir Skynsemi og hollum Raadum, hellst i so markverdum hlut, sem snertir Velferd og Heilsu Barna Þinna. Hvad Þat hid fyrra

snertir,

snertir, sem þw barst fyri þig, at Kona þijn gæti ei haft barn a brioosti, vegna Eliunar hennar og anna, þa veitstu at þetta giora þo Konur annara Einvirkia, og hafa giort tilforna sært born med ser til Engiverka og annarar utanbæar vinnu, borid þavg annad-hvort a baki edr i Kiltingi med ser hvort sem þær fooru. Þetta hefr vist avkid þeim mædu, sem von er; þvij saaheyrt er þat at barn aliz vel upp fyrir utan mædu moodurinnar: enn avoxtr þessara mædra hefr þeim sialdan brugdiz, sem er sa, at ast til mædrañа hafa þessi brioostborn inndruckid med moodurmioolkinni, sem hefr so naaqvæmar Saftir vid edli Barnsins og Moodurinnar beggia saman, enn hin mioolkin er þvij olijk, sem skynlausar Skepnur gefa, ia, þo onnur Kona gæfi barninu at siuuga sig enn moodir þess, þa er þat ecki nærri þvij sem sama se, og þo betra kallandi enn buusmalans.

99. A. Þetta gera þo flestar konur, ockur konu minni er ecki vandara enn þeim.

B. Þessa afsokun hefr þw inndruckid med navtamioolkinni, heyri eg þat, at þw villt ecki gora þer vandara enn nockrum odrum manni i sijnum ovana, þat er med odrum odum at segia, þw villt fylgia añara maña damum hvort þavg eru good edr ill, ef at þavg eru at eins avdnæm og avdvelld. Þeg-

 ar

ar Gud wtmœlar fyri Jeremias Spaamann olucku Gydinga, segir hann at hunngrid myndi giora Mœdurnar so miskunnarlausar, at þær myndu ei gefa Bornunum at sinuga sig. Harmagr. 4. 3. Drekarnir retta briooſtin at wngum sijnum, og gefa þeim at siuuga, enn Dotturinn mijns Folks hlytr at vera miskunarlaus, eins og Strutsfugl a Eydimorku. Heilog Ritning getr þess vijda, at Gydinga konur hofdu barn a briooſti. og margir lærdir menn hafa skrifad um þat hvad hollt þat væri, bædi fyri barnid og so moodirina, a medal þeirra er Joh: Sam: Carl, Greifans af Isenburg Hoflæknari, i Bæklingi sijnum Von Säug Ammen: hañ telr þat fyrst til, at oll annarleg mioolk sie bornum ohollari enn mædranna. 2.) Mœdurnar sieu morgum Sinukleikum undirorpnar vegna þess at mioolkurvegirnir til briooſtanna teppiz, og mioolkin þryckiz med valldi aptr in til lijkamans, hvar vid nœttuuruñar edli hindraz. Þat mega allir skilia, at þat sie a mooti Guds og nœttuurunnar Reglu at moodirinn synie barninu sinnar briooſtamioolkur, missir huun lijka þar fyrir opt heilsu sijna, og œst barnsins. Steph: Gvazzius skrifar so: *) At þess vegna verdi margir œttlerar a Fracklandi, at Franskar konur

*) *De Converſatione Civili.*

konr ali børn og mioolk skynlausra dyra. Hann segir fra þvij, at þo huustru Catonis hafi alid børn sijn og briooſti, þa hafi huun stundum losad bornum ambaga ta sinna at siuuga sig, og þar fyrir hafi auk barnang h:nnar sialfrar, allir þrælar i huusinu elskad hana. Sami Gvazz ritar og þessa So:ju. Ungr madr Fridluborinn af fyri folki i R:o- maborg, kom nockru sinni heim wr Stridi, vellavdugr ordinn af miklu herfangi; honu:n mættu moedir hans og Fooſtra hans; strax gaf hann moodur sinni Silfrbavg, enn Foo- ſtru sinni gaf hann Gullmen. þegar nw moo- dirin qvartadi um þat, at Sonurinn skipti illa vid sig, svaradi hann: umqvortun þijn er orettvijs. þat var ecki nema nyu maanadr sem þw barst mig i þijnu lijfi, enn fooſtra mijn ol mig og briooſti sijnu heil 2 aar: lijk- amann hefi 'eg at sonnu af þier med litlum Sooma, enn allt hvad þessi h:fr vid mig giort, er framkomid af h:einni elsku. þw sviptir mig ollu Sammenyti þijnu strax 'em eg var fæddr, og rakst mig fra avgum þer, en þegar eg var so munadarlaus, took þessi mig ser i Skavt, og kom mer til þess þroska, sem þw og mer ser.

105. A. þw munt vilia at allar kon- ur hafi barn og briooſtum.

B. Fiærri fer þvij. Þegar kona er Skapvargr og offafull i Sinnisins hræringunni, hvoriar helst sem eru þaa er mioolk hennar oholl, helst strax eptir hvoria Skorpu. sie huun þuunglynd og fuullynd, edr hafi huun nockurn ersfda Siuukleik, jafnvel þo hann giori enn þaa ecki vart vid sig, þaa skylldi slijk kona alldrei gefa barni briooſt, og ecki helldr tiggia i barn, so þat renni ei nidr hennar munnvatni med matartuggunni. Þat skylldu ei helldr giora briooſtveikar kerlingar, af somu rokum, þvij allt þetta er olifian i ungbarns maga. Langtum minni illsku oged og oheilindi verkar buusmala mioolkin, og er þat betra, at barnid hafi minni Skilning, og minni lesti, enn hvort tveggia meira, sem þo er lijklegt af illrar moodurmioolk.

101. A. Þaa verdr at taka navtamioolk er konumioolk er vond.

B. So verdr þat at vera; hafi kona þijn einhvoria adr talda bresti, sem Arnbiørg mun. þo ecki hafa, þaa gefdu barni þijnu mioolk wr ungri kw, meinlavsri, þrifgoodri, nykelsdri, enn ecki gamallri, ecki mannygri, ecki þeirri sem einhvor oþrif er i, og allrasijst þeirri sem leikr aa ridli. Þo nw þessi kuuamioolk sie good, sem eg riedi þer at velia, þaa maattu samt skilia, at þegar heilbrygd kona dreckr hana, og þessi heilnæ-

mi logr hreinsaz og klaaraz enn betr i mioolk-kuræðum konunnar, þaa verðr hánn þvij betri, tærari og barninu hollari.

102. A. Ecki mun allt undir þvij komid at barnid faai gooda mioolk, fleira vantar eñ.

B. Moodirin verdr at þrijfa barnid, hùun lavgar þat fyrst i volgu vatni, sijdan smaamsaman kaldara, og seinast i koldu, jaa wti i rennandi vatni edr Sioo, a hlyum Sumardegi, þegar barnid er farid at stalpaz, þaa verdr þat sijdan hravstara og ohiarrkællt, og þolir betr vosbuud. Fordaz a huun at klæda þat i þravng fot, aamedan þat er wngt, og sijst maa þrengia at lidamootum þess. Gott er þat veniez sem fyrst vid, at þola kulda, vætu, og lijka nockurn sult endr og sinnum, helst ef þat er Sveinn, sem þetta þitt barn. Upp fraa þvij þat er 6 vetra er betra þat eti alldrei fyrr enn þat verdr svangt, og drecki alldrei fyrr enn þat þyrstir. Allir þeir leikar, sem æfa vel lijkamann, og hvorki er hæski vid nie neitt lastvert eru drengiunt goodir at odru hvoriu.

## Kap. xxij.

## Atla fædaz fleiri Børn.

103. **M**. Langt er nw sijdan fundum ockar hefr samanborid get eg nw sagt þer

þat B. at eg hefi reynt mad þijn og hafa mer at goodu ordid, jord mijn er nw vel ræktud ordin; og bæti eg hana þo ærlega, enda idrar mig alldrei þeſs er eg hefi æ henni biaaſtrad, þo ordugt gengi framanaf, þvij nw ſem komid er hefi eg allt noog hvad eg vidþarf.

B. Nioottu heill handa, eg ſamfagna þer; at þw uppſker nw æwoxt þijns erviðis; þw munt þo enn betr reyna her eptir hvad ſoſt og obvikul gæfa þat er, at hafa ſo vel unnid ſer og bornum ſijnum i haginn.

104. A. Bornum ſijnum, ſegirdu, jæ ef eg ætti ecki nema ellſta drenginn minn einn, þa gæti hann lifad eptir mig æ Konuungsſtodunn, ſem nw eru ræktadir til gagns. hañ er nw lijka kominn til vika; enn eg er meiri mootlætismadr helldr enn þw veitſt, bornin hafa verid ærlega at hladaz æ mig, eg æ nw 6 born, 4 drengi og 2 ſtuulkur, feiginn yrdi eg ef Gud tæki þavz af mer annadhvort i boolunni edr odruviſi, enn eg ſæ ecki ſo gott, at þavg deyi.

B. Ecki kalla eg þig mootlætis mañ fyri þat, þo þw eigir 6 Born, helldr, grooda og gæfumann, enn þat er rom ogæfa þijn, at þw þeckir ecki þann velgiorning Guds, ſem hann veitir þer i barnaflanum; þw oſkar bornum þijnum dauda, enn þeirra lijf ætti

þer

þer at vera eins kært og þitt eigid liif. Gud virte þat vel fyri Salomone at hann bad ecki um liiflaat fiandmanna sinna, enn hugadu hvad illt þat muni virdaz þer fyri Gudi, at þw arnar bornum þijnum feigdar; þar at avki er þat alltijd synd, at oska odrum dauda jaa, þat er fyrsta Trappa til manndraps, at vilia mann feigann; þat hefr hent vestu glæpamenn og Heidingia at þeir hafa borid wt born sijn, og þo var þat halldid illvirki hiaa þeim Heidingium sem mannuudlegri voo-ru, kom þat af vantrw, lete edr grijmd. Nw hefr vantrw um Guds forsioon yfir framfæri barnanna getid þennann þanka vid vilia þij-num, og findiz nockursstadar myrt edr wt-borid barn, þaa hafa menn meiri orsok at drootta þann glæp at þer enn odrum, sem ecki hafa laatid slijk ord af ser heyra. Þat er avdraadid, þw hefr fengid þer konu til munadar lijfis, enn ecki til at afla barna, og eiga born þijn lijtid at þacka þer fadernid, fyrst þw ert aa mooti vilia þijnum ordinn fad-ir þeirra, þvij þw hefdir alldrei barn aatt, hefdir þw maatt raada.

105. A. Þat er von at rijkismenn vilie at born sijn lifi, enn eg er faatækr, þvij yr-di eg fegin at Gud lietti þeim aa mer.

B. Vijst er þess von at rijkismenn vilie at born sijn lifi, enn oll er hin sama von aa

 faatæk-

fœtækum, þvij bloodſkylldan aaſamt med náttuurlegri dygd og rækt hefr eins ſtad hiaa fœtækum ſem rijkum, þw ert ecki helldr i þeirra tolu ſem ecki geta fædt Born ſijn, og er manndygdar og rækarleyſi þitt þvij ſvijvirdilegra, ſem ſo litla aaſt hefr aa afqvæmi þijnu. Vor Frelſari ſpaair Gydingum, at þeir dagar ſkylldu koma yfir þaa, at þeir myndu ſegia: Sælar eru obyriur, og þeir qvidir, ſem ei hafa fædt, og þaug briooſt, ſem ei vooru mylkt. Þetta kom þaa fram er Guds reidi tortyndi Jeruſalem, aa þeim ſama tijma ſem mædurnar ſlaatrudu bornum ſijnum og aatu þaug, þaa ſogdu þeir veſælu Gydingar Fiollunum fallid yfir oſs, þeir villdu helldr liggia ſundrmardir undir fiallſkridum, enn bera þaa olucku, ſem aa þeim laa; og var þetta merki til þeſs, hvorſu at beiſkuſtu hörmuungar geta ſlokt þann kærleika, ſem naattuurunni er vidkvæmaſtr; enn þw villt davda barna þinna aa beſtu Fridar tijd, þegar þer gengr allt at oſkum nema þat, at huun Arnbiørg þijn er ecki obyria.

106. A. Eg veit ecki hvad verdr af Bornunum, þo þaug liſi enn þaug eru beſt komin i Himnarijki.

B. Mikill truumadr gioriz þw nw, at þw villt ſtrax ſenda born þijn upp i Himin; enn þetta er yfirvarp, þvij at i rettri ravn

er þer þat innann brioosts at bornin eti ei af þvi sem Gud gefr þer, þessi þijn hræsni getr þo ecki nœad wt yfir rækiarleysi þitt, so þat hyliez: Fyrst þw unnir ecki bornum þijnum lijfs, vegna þess þw þarft at klæda þavg og fæda, so lætr þw, sem þw girniz þeirra Saaluhialp, einasta af þvij, þavg eta þær ecki fra þer, enn þirftir þw at fæda þavg a Himni, þa myndir þw fa þeim annarstadar dvol. Þat er satt, at allir menn, og Bornin lijka eru best komnir i Himnarijki, enn þa eydiz Verolldin ef oll born deya, og þeir byggia lond sem lifa, þeir lofa Drottin, þeir þiggia og þacka Guds velgorninga, þeir strijda og yfirvinna hid illa. Þessvegna villtu ecki oska þijnum elsta Syni davda, at hann fari Himnavist sem hin bornin, at þw elskar hann meir enn þavg, og er þar af avdrœadid, at þw helldr ecki so mikid af Himnavistinni i þeli nidri sem þw lætr, fyrst þw villt hann drenginn þinn sijst þangat kominn, sem þer þykir vænst um, og þw truuir betr Konuungstodum at fæda hann einn, enn Gudi, at gefa þer framfæri fyri 6 Born: Þijn Born eru þer oll jafnskylld, bid þw Gud at ala onn fyri þeim ollum, og truudu þvij hann sendi Bravd med Barni, fyrst hann gaf þeim lijfid mun hann gefa þeim Fædu, fyrst hann gaf þeim Lijkama, muni

hann gefa þeim Fatnad, og gledstu i von=inni, at i elli þinni munir þu syngia af eiginn Reynslu: Sæll er sá mann, þeim gefr Gud, gódann Fiøllda barna.

107. A. Ef þu vissir hvad eptirlæætr mer er ellsti drengurinn, þaa myndir þu ecki laa mer, þo eg vilie siist missa hann.

B. Von er þess, at hlydid barn nææi mestri elsku Forelldranna, enn þo eru þavg þer øll eins skylld, og hlydin kunna hin at vera, þo þer falli best gedslags eins þeirra. Ecki væri Verolldin velbygd, ef allir menn væri eins gediadir, þo einhvør Sona þinna sie þier miøg olijkr, þaa kañ hann at vera lijkr ødrum, eins goodum manni sem þu ert, alldrei verdr þat af=sakad, at Forelldrar giori ser olboga børn, einginn madr er til allra hluta velhæfr, og einginn ohæfr til alls, og skie maa, at ept=irlætis Sonr þinn sie ecki gott boonda ef=ni til Konuungstada.

108. A. Eg ætla at gefa gavm at gedslagi þeirra þegar þeir elldaz mun eg þaa segia þer fraa þvij.

B. Þvi maattu raada, vel verdi þer og þeim.

Kap.

# Kap. xxiij.

## Gedslag þeirra Atlasona.

109. **M.** Nw eru Synir mijnir farnir at vaxa, og sie eg þat nw a þeim, at þeir verda ecki lyndis lijkir, ætla eg enn sem fyrr þeim ellsta, at buua eptir mig a Konunngstodum, enn hinir verda þa at leyta fyri ser annarstadar.

B. Þvij viltu helldr hann buui þar eptir þig enn hinir? eda hvorninn er hann lyndr?

110. A. Hann er so vel lyndr, at allir unna honum, hann er sifellega gladr, þ g-ar hann ser at vel liggr a mer leikr hann a als oddi, enn grætr ef hann veit eitthvad ganga at mer. Þo hann æli ser alldrei so freklega eitthvad i qvolld, gildir hann einu a morgun, ef hann veit eg vil annad, hañ er medavmkunarsamr vid alla, sem eitthvad amar at: hann lagar sig eptir allra manna gedi, sem hann þeckir, og eins þeirra Sinnis umbreytingum, hann þiar sig ecki med at hugsa lengi um nockurn hlut, þat sem honum kemr fyrst i hug er hans besta rad og þvij fylgir hann. Sælgæti og Selskapr er hans yndi.

B. Vel segir þw af þessum unaismanni, enn ecki er honum hentug vist a Konunngstodum,

stodum, sw jord liggr miög. affijdis fraa odrum monnum, og er þat hans mestu leidindi og halfr davdi, at vera i saamenni, þar gætir ecki hanns naattuurlegu kosta, nema til þess at giora ogæfu hanns þeckianlegri, þvi þegar hann eyrir ecki, fyrir oyndi, at sitia yfir jafnlegu buuhnavki, i einbyli sijnu og saamenni, verdr hann halldinn lavssinna og onytiuungr. enn gefir þw honum raad og leyfi at koma ser i þioonustu ædri manna, ellegar til Kavpmanna, til at læra kavphondlan, þaa er honum opinn langtum gæfuvænlegri vegr. jaa hann er allstadar velkomin nema i Einsetu, og saamenni, helst nw i wngdæmi hanns.

III. A. Þaa er nærsti broodir hañs odruvijsi, hann er hardgedia, raadrijkr, so hann eyrir eingu nema þat gangi fram sem hann vill, og sparar hann hvorki illt nie gott til þess, hann er orlaatr og besti vinr vina sijna, braadlyndr er hann, enn saattfuus aptr. alldrei kemr þat at honum, at menn sicai honum blossra, enda ser ei fagnad aa honum, þott honum gangi i vil.

B. Þessi annar Sonr þinn er lijka gott manns efni, þegar hann elldiz og stilliz, hañ er þar ser og odrum þarfr, sem hann hefr eptir mannvirding at sækia, og þo aa hann mesta frama von vid Strijdsstandid, ef Koong.

Koongurin stiftar þat her i landi, og þar er hann betr kominn, enn at vera Konuungsstada Boondi, og þar maaske midluungi vinsæll.

112. A. Þridie broodirinn er þeim bædum olijkr, hann et þogull og oþydr, athugasamr, hollr þeim sem honum er vel til, enn heiptrækinn vid hina, hann qvijdir þar øllu fyrir fram, sem einginn hæski er, enn þær eingvu, er hættan er mest fyri avgum. Hann er seinn aa ser at byria nocknd, enn kappsamr er hann kemr til, og þravtgóodr i ervidi.

B. Ofkemtileg verdr gifting og vist aa Konuungstodum ef þessi byr þar, honum er vandfengin kona, og lijka eru faaar konur honum velgiftar, maa hann vel ogiftr vera, og nw er honum gott at koma ser aa Fiskiduggur, edr adrar Siooferdir i millum landa. Umbreytingar eru honum eins navdsynlegar, sem himum ellsta fiolmenni og Selskapr. Hann getr vel lært Styrimansskonst, og þaa er hann vel komin verdi hann Styrimadr aa Hafskipum.

113. A. Fioordi og yngsti Sonr minn, er eptirlætid moodur sinnar, hann kom undir hardindis aarid þegar eg saa ei annad fyrir, enn eg mundi bregda buui. Hann er so stilltr og spakr, eins og hann væri orvása karl, hann vill alldrei leika ser, nema lijtid uppaa

pallj

pallt hiaa moodur sinni. Hann gefr sig eckert at þo brædr hans hædi hann eda hvad helst illt þeir gora honum, ef at þeir lofa honum at vera kyrrum, og hann kennir ecki til. Hann þolir allt vel nema Sult, og idnari er hann vid allt ervidi, sem hann maa lengi seiglaz vid enn hvor hinna brædranna.

B. Þessi er Boonda efnid til Konuungsstada. Hann hefr lært atferd þeirra i buusstorfum, og þeirri somu fylgir hañ þo skylldir koma brædrum hanns burtu fraa honum aadr enn hann tekr vid buui, og utvegadu honum duglega konu sem hverie hañ til framqvæmda, og sama gori þid forelldrar hañs, sem vordid til huusa hiaa honum i Elli yckar, þaa er vel fyrir honum sied, og skee maa, at þar verdi þijn ættsælld ei minni enn hiaa hinum brædra hans, sem odrum kunna at synaz vænri aa velli.

114. A. Þetr meijnar tvær eru lijkar ellstu brædrunum.

B. Þid skylldir gifta þær strax. Gefid þaa sem lijk er þeim fyrsta, þeim manni sem lijkr er þeim odrum i tolu Sona þinna, enn hina, sem lijk er þeim odrum slijkum mañi, sem lijkr er þeim sijdasta þeirra, sie hann at eins og efnum henni meir en jafnbodinn þaa unir huun vel hag sijnum.

115.

115. A. Vandkosid er ꝏ þessi kior fyri hvort barna minna.

B. Þat er satt, kior manna eru i Guds hendi, enn þo rꝏda Forelldrar fyrir þvij, hvad bornin leggia fyrir sig fyrst, sem er opt undirbuuningr þeirra lucku edr olucku, einkanlega skylldir þw fordaz at troda bornum þijnum til þess sem fiarlægt er þeirra Sinnislagi, og þavg hafa nꝏttuurlega obeit ꝏ, þvij þar getr madr best þioonad Gudi og so Fodurlandinu, sem hann er hneigdastr til, og þꝏ er hann bædi ser og ødrum þarfastr er hann mꝏ þat gott giora, sem hønum er lostugast.

116. A. Eg villdi þeir væri kyrrir i Fodurlandinu, þat þyki mer þeim best hæfa; enn valt er ꝏ þat at ætla, ef eg fylgi þijnum rꝏdum. Mer þykir þat briꝏl, at so margir sigla, og ilengiaz añarstadar, hvar Frændr þeirra hafa eckert gott af þeim.

B. Þessara orda er mer þadan von sem þw ert, og so vill hvor goodr madr, undir so goodri og milldri Stioorn, sem vier bwum vid. Þat er Synd og glæpr at yfirgefa Fodurlandid, nema sꝏ leyfi er rijkium rædr, eda stoor navdsyn reki mann burtu, og eiga slijkir menn ecki landvært, nema þeir fꝏi Fyrirgefning sijns glæps, þꝏ hid fyrsta verda þeir fridhelgir, og varadu børn þijn vid þvij.

117. A. Hvad er þetta? Siglir ecki margr ærlegr madr, og kemr aptr med Sooma til Fodurlandsins þegar hann vill?

B. Koongr leyfir þat morgum, sem hafa ymis Eyrindi, og kallar þa aptr þegar hann vill; enn eg skil af þessari þinni Spurningu at þw helldr Fiorumalid i kringum Island ummerki þijns Fodurlands.

118. A. So er þat, eg helld Island enn ecki onnur lond fyri mitt Fodrland, þvij her bioo Fadir minn, og her er eg fæddr.

B. Koongurinn er landsins Fadir, a medan þw ert einhvorsstadar i þeim londum, sem undir hans Rijki eru, þa ertu i þijnu Fodurlandi. Oll Rijki Dana Koongs eru aalijtandi sem einn lijkami, eñ þw ert þess lijkama limr. Koongr helldr þer vid sama laga frelsi sem odrum þegnum sijnum, og leggia oll Rijkin Styrk sinn til þess at veria þitt Frelsi, sem hvors annars undirsaata; þar til þarf mikid Herlid, enn kostnadr fyri þvij liggr a ollum Rijkiunum og aattu þar til at styrkia eptir tiholu vid adra þijna lijka. Þw fæddiz til þessa Rettar, sem hvor limr hins borgerliga lijkama nytr, og vid henn ertu bundinn alla æfi þijna, þw ert med oll-

um

um varnadi þijnum fridhelgr i Rijki Dana Koongs, hann lætr bæta þer, ef þer er misþirmt, og lijka tekr hann sialfr bætr ef þw mætir oskunda vegna þess rettar sem hann a þer a, verdir þw drepinn þa hefnir hann þijns bloods, og tekr se veganda i bætur fyri þegn sinn, sem hann misti. Þw ert skylldr at veria se og fiorve Fodurlandinu til varnar, og hvor þess limr er skylldr at giora hid sama. Her af ferdu hvor Skom̃ þat er at striuuka til Frayskra, Enskra, Hollendskra, sem hleypa her inn a hafnir, enn yfirgefa sinn Erfdaherra og Koong, og hafi Koongr vor þa Strijd vid þa þiood, sem ein̄ strijkr til, þa er þat æruleysi og Drottins Svik. Segdu Sonum þijnum at þat sie þeirra Skyllda, þeirra Frami, Soomi og Gagn at mentaz sem best Fodurlandinu eda þeim borgarlega lijkama til þarfa, i hvoriu helst Standi sem þeim er hentast og þeir eru hæfastir til, hvar helst sem vera kann undir somu landstioorn; þvi þeirra Fodurland er ecki Grioot eda Grundmosar eda Myrar her a Landi, helldr þad Samband sem er a millum allra manna i Danmerkur Rijki (Civitas. Res publica.) Þessa meining um Fodrlandid ma finna Jer: 29. 7. Leytid Fridar þeirri borg, til hvorrar eg liet burtleida ydr, og bidied fyrir henni til Drottins,

Þvij Þegar hunn hefr frid, Þa skulu Þier og so Frid hafa. Her maa sia, at Gydingar attu at alijta Bebel fyri sitt Fodurland, fyrst Þeir vooru komnir undir Þess lands Koong, enn Þeirra eigid Fodurland eda Rijkis-stioorn var til grunna gengin.

119. A. Margir menn, sem ecki hafa meiri efni enn eg, lata kenna bornum sijnum Latijnu, og koma Þeim i Skoola; litst Þer ecki at eg reyni til vid einhvorn Dreng-inn minn, at giora eins vid hann?

B. Ef at Þu a) veitst at nockr Sona Þinna, hafi meir enn almennilegar gaafur til Lærdooms. b) Ef Þu veitst edr sier lijkindi til Þess, at hann muni verda fyrir Þennann lærdoom, betri madr og Þarfari ser og Þer og Fodurlandinu. c) Ef Þu veitst hann hefr lyst og stodughyndi til booknaams, enn ecki til Sialfrædis og idiuleysis, sem hann væntir ser (maaske) Þegar hann er ordinn Skoolapiltr og sijdan Student. d) Ef Þu hefr so goodann Fiaarhag, at Þu Þurfir eckert at draga fra odrum hans Syskynum, so Þaug misse Þar fyrir nockud Þat, sem Þeim er navdsynlegra til mannanar enn honum er latinan. Nu Þyki mer lijklegt at Þu munir ei kunna at dæma um Þunderni og enn sijdr naamsgafr barns Þijns, Þvij ræd eg Þer, at fa Son Þinn i Hendur einhvorium lærdum

og

og skynsömum manni, sem reyni hann um stund, ef hann rædleggr þer þa at setia hañ til booka, so fylgdu hans rædum, ef þw hefr efni noog; eg let þig ecki.

# Kap. xxiv.

## Atli verdr Hreppstioori.

120. N. Nw er so komid, at Prestr og Hreppstioorar vilia kalla mig til Hreppstioora, enn eg vil komaz hia þvij, vegna þess at Hreppstioorar hafa omak mikid og ætolur annara Bænda, enn eingin laun.

B. Ecki tiair þer undan at skoraz, og lijka er þer þar med Sooma leytad, þvi Huußaga Forordn: af 3. Junii 1746 35 Art: skipar, at til Hreppstioora skuli her eptir wtveliaz þeir gudhræddustu, duganlegustu og forstanduguſtu Bændr i Sookninni, hvorier i ollum ærlegum Samkomum, eins og Medhiaalpararnir, skuli metaz og virdaz framar odrum Bændum i Sookninni. Þar i sama stad er þeim lijka launum lofad, sem er þridiungr allra þeirra boota, sem þessi Forordning uppaaleggr, og verdr þat þeim goodr Styrkr, ef þeir forsooma ecki at ganga

þar eptir, lijka bootum fyri Foragt þeirra Skickana; þat ma vera þer idugleg fevon fyrst i stad, og sijdan meiri virding enn adr.

122. A. Hvad a eg þa at giora i Hreppstioorninni?

B. Þw att at hafa, asamt Felogum þijnum, Forsia fyri þvi sem Hreppnum vardar Framf: b. 9, enn einkannlega fatækum.

122. A. Hvorier eru þeir fatæker, sem Hreppstioorar eiga at annaz?

B. Þat eru þeir menn, sem ecki eiga forlagseyrir, og ecki helldr Framfærslumenn. a) Siuukir menn og Sarir. b) Fødrlavs born. c) Orvasa menn. d) Eckiur. e) Allir þrotbiarga buumenn, helst barna meñ. f) Skipbrotsmenn, (þo er mestoll þeirra onnusta komin til Syslumanns med Forord: 1705 21. Martii.)

123. A. Hvad fe leggst fyri þessa Fatækismenn?

B. Fioorduungr allrar Tijundar, Matgiafir, Fimtuungr allrar Helgidaga veidar, hvor helst sem er, eins wr hval þeim sem veiddr eda fiuttr er a Helgidogum, edr wr þeim Fiarhlut sem þa aflaz. Oll tijund þeirra manna, sem minna fe eiga eñ 5 hundr. Koongurinn hefr ogso gefid Fatækum tvo

þridiuunga af ollum þeim bootum, sem Huus-ſaga Forordn: uppaleggr, it. fyrir Helgidagabrot. Sabbaths For: 29. Maii 1744.

124. A. Þw nefnir matgiafir, er þat ecki paapiſka?

B. Þvij verdr ecki neitad at longum tijma fyri Sidaſkiptin var þat i løg leidt, at menn ſkylldu faſta aa viſsum Tijmum. og geſa þann mat faatækum, ſem þeir myndu aňars i þat maal hafa etid, laa ſw Skyllda aa ollum elldri monnum enn 12 vetra og yngri eň 70 vetra, (v: ſupra 95) ſiuukir meň, þuungadar konur, og þær ſem hafa Barn aa brioo-ſti eru þar fraa teknar. Nw er ei nema ein Skylldufaſta aarleg, þat er aa fioorda Foſtudag eptir Paaſka, og fleſtir bindaz matar, þaa þeir eru til Gudsbords; þeſsa maalsverdi aa nw enn i dag at luka faatækum monnum, þo paapiſkar Skylldufoſtur ſieu aftek-nar. Þat er i nockrum Hreppum venia, og ecki oſangiarnleg, at Boondi gefr 1 alin i matgiafir fyri hvorn mann, ſem faſtar aa Bæ hans.

225. A. Enn ef þetta nægir ecki til framfæris Faatækra, hvad ſkal þaa til gera?

B. Sie þaa hverki til Aheit nie Saatta-giafir, ſem hver tveggia maa heimta, hafi nockr loſad þvi, þaa heimta Hreppſtiorar

mannelldi af ollum monnum i Hreppnum, sem se eiga so at fœtœkir aliz þo med einhverju mooti, er sw Regla a mannelldi eptir Rettarboot Hákonar Koongs 1305 at fœtœkr madr einn sie noott a hvorium x. hundrudum, til þess komin eru 1 hundrad hundrada, siidan eina noott a xx. hundrudum hvorium, nema Hreppstioornarmonnum syniz annad sannara. Þar af sierdu, at sa sem a 1 hundrad hundrada elr fœtœkann mann 12 nætur, enn eigi hann ij. hundrud hundrada, þa elr hann þann fœtœka 18 nætur. Svara þessu eins Lavsamenn sem Bœndur.

126. A. Nær a at hallda Hreppskil?

B. Ecki fyrr enn 4 vikur lisa Sumars, og ei siidar enn Tijundum sie skipt, Drottins dag fyrstann i Vetri.

127. A. Þa mun eg verda at skera upp bod, eins og Syslumenn?

B. Bod attu viist upp at skera, og senda þad bodleid um Hreppin undan þer fyrir Hreppstioornar þiingid. Syslumenn lata bera undan ser breidaxar bod, sem merkir þat Koongsvalld, sem þeir hafa, og þvi kallaz þat bod stundum Oxi Koongs, eins og Koongsvalld var stundum kallad sama nafni, þat bod a at bruuka til allra Koongseyrinda, þar sem um Skipan edr Rett Koongs og Þegngilldi er at hondla, so sem til Manntals-

tals- Mandraps-leidar ꝛc. Þijnga. Til allra Kyrkiu-Sooknar funda, Hrepps-navdsynia, og Sveitar-Skila hafa menn ædr bruukad Krossbod. Enn til ad boda Bygdarmönnum Raan, Hernad edr Mañdraap, þaa var skorin upp Ör, sem sendiz giarnan alla vega fraa vetvangi, þat bod skyldi beraz i þaa lijking flioott, sem or flygi, og allir ættu þaa strax at þysia saman, vegna bráðra navdsynia.

128. A. Hvad æ eg fleira at annast?

B. Melracka-veidar, Geldfiaar-rekstra, Fiallgongur, Vegarudninga, og Vezabætur, Þioodgotur, Almenninga, Forumaña Flutning, Hepting Ostilamanna. „ Her vid bæta nyrri Forordningar Umsioon yfir dugnadi og byrgdum Smaabænda, Viñuhiuua halldi, og verkum þeirra hiaa bændum. Tveir elstu Hreppstioorar eiga lijka at vera Stefnuvottar, þegar med þarf, Utanheradsmaña, eptir Stiftamtmanns Skipan 1772.

129. A. Segdu mer Eindaga, æ öllum giolldum Boonda.

B. Eindagi æ Skatti er fyrir Alþijngi.
Tijundum Fimtudag er 4 vikur eru af Sumri.
Giaftolli sem æ Skatti.
Lioostolli fyri Nyaar.
Heytolli Mariumessu sijdari.

Løgmanns Tolli, sem a Skatti.
Fatækra Tijund fyrir Marteinsmessu.
Matgiøfum fyri Paalsmessu a Vetri.
Dyratolli Føstudag i Fardøgum.
Legkavpi sem Tijund.
Lijksavngs eyri sem Tijund.

130. A. Segdu mer lijka Sektir og vidløgur a þessum giølldum?

B.

| | Mk. | | Avr. | |
|---|---|---|---|---|
| a Skatthalldi er Sekt | ; | ; | 6 | |
| a Tijundarh. (vulgo) | 3 | ; | ; | |
| a Giastollsh. dæmt | 4 | ; | ; | dæmt 1591 |
| a Løgmanstollshalldi | 8 | ; | ; | dæmt 1698 |
| a Lioostollshalldi | ; | ; | 3 | |
| a Heytollshalldi | ; | ; | 3 | dæmt 1510 |
| a Dyratollshalldi hædst | | ; | 1 | dæmt 1680 |
| a Legkavpshalldi | ; | ; | 3 | |
| a Lijksavngseyris halldi | | ; | 3 | |
| a Landskulldarhalldi | 3 | ; | ; | dæmt 1504 |
| a Bodfalli. Rettarboot E. K. 1294 | ; | ; | 2 | |
| a Kyrkiugards forsom. | | ; | 3 | |
| Ef ei fylgir Lijki til grafar | | ; | 3 | |

131. A. Þetta er mikid wtsvar, og hart vidlagt.

B. Þat vex þer i avgum, sem þw att ødrum at greida, og er þat þo ecki so mikid eptir tiltølu, sem þer þykir. Til dæmis: ættir þw 60 hundr. at tijunda, gæfi þavg af ser

ser ærlega leigu, nw æ þessum Tijmum 10 hundr. Þegar þw sialfr byr vid havg, verdr allt þitt wtsvar, þat er Skattr, Giaftollr, Tijundir, Lioostollr, Heytollr, Logmannstollr og Matgiafir, allt saman ei meir enn frekt 1 hundrad verdavra.

532. A. Samt mæ siæ, æ þessir Skulldatali, hvad harda kosti eg og adrir Bændr hafa, fram yfir hina, sem eckert giallda wt, enn taka Tollaña inn. Menn eru þo af nattuurunni allir jafnir, og sem Stakan forna hlioodar:

Þá Adam gróf enn Eva spann,
eingin þeckti Reysarann.

B. Einginn hlutr er fullsiedr fyrr enn hann er bædumeginn skodadr, þw ælijtr þær hina vinstri Sijdu þinna Kiora þar er þer vex þat eina i avgum, sem mootdrægt er, og spillir ænægiu þinni, enn freistar þijn til ofundar vid adra menn, er þw hyggr þer sællri: gefdu nw gavm at hogum þijnum hægrameginn, þar blæsir vid morg og mikil hægd og Roosemi, sem Hofdingiarnir sæ ecki at niooта, hvad fegnir sem þeir vilia. Einginn madr hefr meira Frelsi; einginn saklavsari og obrygdullri ænægiu, einginn minni hæska og vanda, enn einn duglegr velmegandi Boondi, slijkr sem þw ert: þegar þw ert gudrækinn og truu-

rækinn, hefr þw gooda Samvitsku, og inn-
vortis Anægiu: þegar þw ert goodgiarn vid
granna þijna, þaa syna þeir þer hid sama, og
þw verdr þaa vinsæll: þegar þw ervidar hefr
þw aanægiu, aavinning, gooda heilsu og good
þrif, sem lengia lijf þitt fram̃ til ellinnar, og
huun verdr þer þaa heidarleg, hæg og roo-
leg: þw ert frij fraa oteliandi aahyggium og
sorgum, sem hinir ædri mædaz med alla æfi,
og leggiaz þar fyrir stundum varla midalldra
i Grøsina. Hvad þijna Stiett snertir, þaa
er hana at aalijta, sem undirstodusteina all-
rar þeirrar byggingar, sem kallaz almeñings
gagn; þeir eru at sonnu lagt i byggingunni,
enn þar er huun oll uppaakomin; þeir hagg-
az ecki nie hræraz af nockru Storvidri, og ef
þaa bilar, þaa bilar oll byggingin. Þeñañ
heidr og gagn Boonda-Stettarinnar hafa
vitrir menn og goodgiarnir alltijd þekt, enn
þo er henni nw saa hamingistijmi kominn, sem
alldrei kom fyrr, at sialfr Koongr vor og hans
Hofdingiar taka nw Bændr i Forsvar, locka
þaa med Fyrirheitum til þess sem aadr var
gagn og skyllda Bændana, og unna þeim
Stoorgiafa, og annara Sæmda, sem nock-
urn dugnad syna odrum fremr. Hvad gialld
þitt snertir, þaa huxadu um þat, þw þarft
at laata veria þig fyri Raani og Hernadi, þar
til þarf Strijdsfoolk og mikinn Herbuunad:
þw

þw þarft at læta veria þig fyrir annara þinna landa ægangi og rangsleytni, þartil þarf Doomara, og þat einn ødrum ædri, so þw missir ecki rettar, þo fyrsta Doomara siaiz yfir: þw þarft, eins og allir þeir sem vilia vera dygdugir menn, at Trwarbrogdin sieu brynd fyri þer, enn einkanlega þarftu, fyrst þw ert Kristinn madr, at heyra Guds ord, og bruuka Sacramentiu, og þar til þarf Presta og Biskupa yfir þeim lijka Skoola og lærda menn þar til. Øllum þessum sier Koongurinn fyri bravdi, og mættu skilia, at mikid þurfi til þess at fæda allar þessar Stiettir, og vidhallda þeim, og þat er þeim øllum ætlad, sem nioota Fridar og Frelsis i allri sinni ærlegri hondlan, fyri þessa Koongsinns umsorgun, er þat ecki mikid, sem þw wtilætr at reikna i mooti þeim nædum, sem þw hefr; enn samt þegar allir af þijnu Standi giallda eins, þæ er þat Fodurlandinu Styrkr til at vidhallda goodum fridi, løgum og Truuarbrøgdum. Hvad vidløgur og Sektir æ giolldunum snertir, þæ er þat þer og ødrum sialfskapud viti, ef at þw og þeir vilia ei greida giald sitt, fyrr enn Sektir eru æfallnar, enn hafir þw ei wrrædi at gialllda um sinn, þæ lijda þig good yfirvolld til þess hægiz um fyri þer. Stakan sem þw foorst med vegr vidlijka, og mannjafnadr þiñ, være

ri

ri eingin Synd og illſka i Heiminum, þaa þirſti eckert Herlid, eingin Yfirvolld, og eingvann Þijngapreſt; enn nw eru Kior þijn og annara manna ſo, at þw maatt þacka Gudi fyrir alla þeſſa hans Skickan helſt þegar þw atgætir, hvad veſæll þw værir, ef at þw findir ecki i landinu Frid, Rettvijſi edr Truuarbrogd. Þat er ſatt, at Keyſara nafnid er langtum yngra, enn buunadr þeirra Adams og Evu, enn hefdir þw verid ordinn Boondi, æ oſanverdum Adams alldri, myndu þeir nafnkunnu heliarmenn, ſem þaa vooru farnir at alaz upp, og ſijdan fylltu jordina med ofrijki, ecki lengi hafa myndad ſig til, at giora þer lagt undir hofdi. Sijdan Gud ſtiftadi Keyſaradæmin og Koongdoomana, ſamt onnur yfirvolld, hefr verolldin alldrei ordid ſo vond ſem þaa; enn nw er ſo good Tijd i þeſſum Londum, at med fullum ſanni maa ſegia, at Manndygd og Dugnadr hafi fengid Oſkq Stund at æfa ſig.

## Kap. xxv.

## Verka = Skipan at Mannada Tali.

133. N. Segdu mer nockra Reglu um Verkq=Skipan ærid um krijng. B.

B. Þaa verdr þw at vita Missira Skifti og Maanadatal buuboonda, þvi þar eptir hafa fraa fyrstu Bygging þessa lands verid reiknadar buuskapar reglur, og ber þvi Maanada tali miøg saman vid hlavp Soolarinnar i gegnum hvort Teikn i Soolmerkiahrijngnum, þegar allt aarid er samanreiknad.

1.) Þorri er saa maanadr, aa hvorium Sooliin geingr um Vatsberamerki. Nw er Tijmi til innannbæarverka, enn wtivinnna er nw lijtil, nema grjootdraattr og annara hluta aa Sledasæri, er þat nw heutugt at giora, þvi hvijldartijmi karla er langr þo menn lyiz nockud aa degi. Af þvi þat jarn er deigt i odrum maanudum, sem hart þykir um þessar mundir, so smijda menn ogiarnan Eggjarn i þessum tveim maanudum. Fordastu at vatn standi aa Tuuni þijnu i þessum maanadi, og alldrei fyrr enn vorleysingar koma, fraa þvij frys aa havsti. Allt hvad þw geymir af lifandi aavoxtum innannhuuss, þarf nw meiri voktun enn fyrri part vetrar, og þvi meiri, sem aalijdr, fram til Sumarmaala, at þat skemmiz ecki af Frosti edr hita, slaga edr ofþurk. Til at giora goodann Saadreit, er nw Hænsa skarn besti aaburdr, sie þat borid zia þumlvnga

vnga þykt yfir hann, og rigni þar nidr til Sædtijmans a vori; med Þorrakomu er veturinn halfnadr, enn i Þorralok maa optaz kalla halfnadann foodurtijma penings. Mikil votvidri i þessum maanadi, boda verkullda, og lijtinn grasvoxt. J þessum, og næstfylgiandi maanadi hallda margir best at ala kaalfa og hvelpa.

2.) Góe heitir saa maanadr nær Sool er a hlavpi um Fiska merki, nw er sama at vinna og varaz, sem a Þorra. Nw koma þeir Stoorstravmar, sem kallaz Gooe-ginur, þaa er Skelfiska tekia hæguz, og best Titlingaveidi, sem þaa eru feitari enn med Smaastraum. Lijka er nw goodr Tijmi til Riuupnaveidar. Um þessar mundir bæta menn buusshluti sijna, ambod og onnur ahölld, sem bruukaz þurfa Sumarid eptir.

3.) Einmánudr er Ferd Soolar i gegnum Hruutsmerki, og byriaz hann nalægt jafndægrum. Nw maa draga Foodur vid Navtpening, enn bæta þat vid Asavd, þvij elldid gengr a hañ. Navt og Hestar geldaz um þessa Tijma. Sie vorgott, er nw hentugr Tijmi at styfla vatn, sem veitaz a yfir land, so vatnid standi þar a, medan vorleysing er mest,

þvi

þvij þat grugg sem setr sig undir leysing ar vatnid, ꝏ medan þat stendr yfir landinu, er betri enn nockr ꝏburdr kañ at vera. Sꝏ sem vill nꝏ griooti upp wr jord, þvij sem upp wr stendr, hann giori þat nw, þegar jord er halfa alin þyd ofan til, edr nockud minna, þꝏ er þat bædi lavsast, og velltr lijka ꝏ klakanum, so ervidid verdr halfu hægra.

4.) Þar um bil byriaz Sumar, er Soolin kemr i Tarfsmerki, enn ꝏ medan huun er þar, hefr Mꝏnadurinn verid kalladr Gavkmánadr edr Harpa; nw er Sꝏdtijmi i fyrstá lagi i kallda jord, med þvi mooti vorgort sie, og er þꝏ betra at sꝏ litlu Salti, med sneṁsꝏnu Fræi, eda at vokva um siñ, med Salt legi eda Sioovatni, þat ver nockud kulda, ofþurki, og lijka kꝏlormum. Frostlavs Snioor, ofan ꝏ nysꝏd Fræ, er betri enn flest ꝏnnur vokvan. Ollu þvi sem undir jord ꝏ at vaxa, mꝏ nw fyrst sꝏ. Seint i þessum mꝏnadi, er tijmi at planta allar lifandi rætur, sem geymder hafa verid i mold eda sandi ꝏ vetri. I hlyu vedri skal pæla þꝏ jord upp sem menn vill frioossom verdi. Hiela og lognfrost eru skadlegri enn frostnædingar, fyrir allar urtir, þvi skal Sꝏdreit

reiti vel þekia þegar hielufall er. Nw er tijd at manskera Hesta. Af þvij Siooarflædi Engiar gefa miog feitt gras, þa þolir Saudfe þat nw ei, og verdr at hallda þvij fra þeim Engium helst er fed er magurt, enn besta beit eru þær Engiar fyri mioolkurkyr, og allañ Stoorfenad.

5.) Eggtid edr Stecktid kallaz sa maanudr, nær Sool er a Ferd um Tvijburamerki; a Strondum nordr kallaz sa maanadr Skerpla. Nw er Saadtijmi þegar seint vorar, i midium þessum maanadi eru Fardagar. Um þat leyti ma grasa villirætur til matar, þvij sijdan þegar gras fer at vaxa wrwr þeim, eru þær lakari. Nw er Tijmi at byggia huus og garda, hreinsa Tuun og Engiar, hylia med mold Flog og Skridur, edr færa þær burt, vinna i Skogie, safna berki og fleirum litunar grosum. Þegar hnaus veltr nw a klaka, er hañ bestr i veggi, þvij þa er jordin eñ laus og ofrio, sijgr sa veggr fliott, eñ verdr vel þiettr og varanlegr. Asavd er þat nw eins ohollt at þijta Tuun, sem adr var sagt um Flædi-Engi af somu rokum. Kyr mioolka þa best af grænum groodri, ef þær eru ei of feitar, og hafi

ad

ǽdr gengit wti nockra stund, med noog-
ri giøf, ǽ noottum.

6.) Sólmánudr heitir sá Tíjmi, er Sool
gengr um Krabbamerki. hann byriaz ǽ
Soolstodum. Fyrst i hønum fara menn
ǽ grasafiall, um þat leytid safna menn
þeim urtum, sem til lækninga eru ǽt-
ladar. Lomb gelda menn nǽlægt Joons-
messu, enn færa fráa viku seina. Engi,
sem madr vill tvisslǽ, se nw slegid i 10du.
viku Sumars. Vili madr upprǽta
Skoog, skal þat nw gioraz, þǽ vex
hann ei aptr. Vel þarf nw at vokva
nyar urtaplontur. Nw er Hvannskurdr
bestr sijdast i þessum mǽnadi,

7.) Heyannir er mǽnudr sá, sem Sool
hleypr um Leonsmerki, nafn þessa mǽ-
nadar synir hvad þǽ skal idia, þvij nw
er komid at þvij ǽbatasamasta verki
her ǽ landi, sem er at afla heys, og
meta þat flestir menn odrum verkum
framar. Slǽttr byriaz veniulegast
med midiu Sumri. Vokva mǽ plon-
tur einusinni i viku med Sioovatni, enn
odru vatni annars, ef miklir þurkar
ganga. Nw mǽ safna Burkna, hann
er goodr at geyma i honum velþurrum,
Egg, Rætur og Epli, sem ei mega
wtspringa, hann er og mocka og fuua,

N lijka

lijka hafa menn bruukad Ðſku hans i Sapu ſtad. Kornſuuru og Cumini maa nw ſafna. Midt i þesſum maanadi er Solva tekin Tijmi, þo fyr hafi legid wti a Sumri, þaa er Tijmi þær liggi inni med hofuddegi.

8.) Tvimánadr er ſaa Tijmi, ſem Sool raaſar um Meyar merki, og er oll hin ſama idn, ſem hinn næſta umlidiñ maanud; nw eru Alftirfiodur ſaarar, og er þvij þeirra veiditijmi. Allr aargroodi lætr nw af at vaxa, og eins Tre i Skoogum. Adalblaaberialing, maa nw bruuka i barkar ſtad, a Skinn og Ledur. Eptir Mikaels mesſu mioolkaz Aſavdr at eins einuſinni a dag. Um þat leyti er Slaatur tijmi Geldneyta og Hruuta, ef ei ſkulu megraz aptr.

9.) Havſtmánudr byriaz nær Jafndægrum, enn Soolin gengr þann tijma um Vigtarmerki, lijka var þesſi maanadr kalladr Gardlags maanadr, þvij þesſi þockti hentugr tijmi at bæta Tuungarda, Engigarda, Haga- eda Skioolgarda, og Grannagarda. Þegar Haa fer fyrſt at viſna, a Tuuni, þaa er tijmi at bera myki a voll, annars brennr undan henni, nema ſie gamallt moltad Savda, eda Hrosſa a Moſa borid og

breidt

breidt yfir um leid, er þvi betra, sem fyrr er giort. aska er til þess litid lakari, og satt er þat fornmæli, at betri se ein havstbreidsla enn 2 vorbreidslur. Nw er tijmi at velta landi þvij, sem saast skal i eitthvad fræ at vori. Vats-veitinga skurdi ꝏ nw at stijnga, so eckert vatn geti stadid yfir landi ꝏ Vetrum, helldr at þat suura vatn fꝏi gott afrensl. Jardar ꝏvexti sem menn vilia geyma nidurgrafna wti edr inni, skal nw upptaka og lꝏta nockud þorna, grafa þꝏ sijdan nidr, hvar frost mꝏ ei at þeim koma. Um þessa Tijma fellir melr fræ, mꝏ nw safna þvi ꝏdr og sꝏ þvij strax i sendid land, og breida mold yfir, kemr upp nærsta vor. Hvanna fræi og Cumini mꝏ nw lijka sꝏ, þar sem menn vilia þær urtir vaxi sijdan. Nw er Ridtijmi Siluunga, og þar fyri good veidi þeirra. Snembærar kyr, sem nw ganga wt ꝏ hielu, lꝏta opt Fangi strax wti i haga. Navtpeningr, helst wngneyti takiz nw inn at goodri giøf, þꝏ þrifst hann betr allann vetr sijdan, enn komiz havst þuustr i hann, þꝏ verdr hann øllum Fioordunngi þyngri ꝏ Foodri sijdan. Felli Skoogr seint lavf, og sie mikil hlyindi i þess-

um mœnadi þa vænta Bændur eptir hordum vetri.

10.) Gormánudr tekr nafn af slœtrun Fenadar, med honum kemr Vetr, og um þat leyti gengr Sool i Spord-dreka merki. Nw mœ safna Vijdir, Hrijsi, og Lijngi fyri Navt, allt hvad onytiz af urta tœgi i gordum gefiz nw Navtum, helst Kalfum. Nw mœ planta villivexti, so sem Birki, Vijdir, Reynir, Hvannir, Netlu ꝛc. lijka skal nw buua um urtir þær, sem wti eiga at standa um vetr, so sem Lavkar, Piparrœtur ꝛc. gioriz þat vel med þvij, at bera hrœtt nytt þang at þeim, enn se þær plantadar at havsti, þa verdr þar at avki, at bera Mold eda Torf ofanyfir þær, annars spijtaz þær upp wr Klakanum, og deya. Nw er gott at bera nyan Þara a Tuun, og er sa Þari bestr, sem rekr med Siovargangi, i hafœtt, enn at Vori beriz hann saman i lag at fuuna, þar verdr hann eñ betri œburdr œrid eptir. Nw mœ sa Persille og Persillerootum, Lavk, gulum Rootum, Pastinacha, þekia Sœdreitinn med wthverfu Torfi, og nyrri heitri Mykiu, ofanyfir, kemr upp at Vori, ef þa er opnad er hlytt vedr er

ko-

komid. Ei verdr þioor oroor, sem u.n þetta mund er geltr. Etiz Hey illa, þaa maa dreifa Saltlegi eda Sævatni i milli laga, i lavpnum, og standi so til þess gefid er.

11.) Frermánudr er saa timi, sem Sool dvelst i Skotmanns merki. Nw þetta menn huus sijn, sem best verdr, og taka þat allt til handargagns, sem brukad var aa Sumri, og nw þarf ei lengr, so þat sie þaa til er vorar. Peningr hafi nooga giøf, og ei maa hann laata havst hold, fyri midiann vetr. Sie þyd jord og hlytt vedr, skal nw pæla upp Aldingard, so aaburdr blandiz og þvæliz vel saman vid moldina aa vetri, þat eydir og nockud Arba.

12.) Mørsugr heitir saa maanadr, sem byriaz nær Vetrar Soolstodum, þaa Soolin kemr i Steingeitar merki. Nw er Penings rækt og innivinna helst til þarfa. Sledafæri maa opt nyta, um þessa tijma, þar sem þess þarf. I 10du. viku vetrar hleypa menn Hruutum til Asavdar, nema menn hafi noog Hey, og vænti eptir goodu Vori, þaa viku fyrri. Nw er Tijmi at bera Torfosku og Bæarskarn allt, eins þvottakorg, aa mogr Engi, edr mosavaxin Tuunpetti, jafnodum

odum og þetta safnaz, þat bætir þavg vel.

134. A. Þarf eg nockud at skipta mer af Tuungls alldri, i Buunadi mijnum?

B. Strax med nyi aattu at planta þær urtir, sem þw villt faa Fræ af. Þaa skal pæla upp Saadjørd og mykia hana. Legg Egg undir Hænu at wnga wt 5 døgum eptir Nyid. Med vaxandi Tuungli skal faa til allra urta, sem ofanjardar vaxa, og sijdan planta þær i sama mund, lijka safna Fræum til Utsaads. Þaa skal slaa, hvar menn ætla at slaa Haana sijdar. Høggdu elldividarhrijs sem þw villt at vaxi aptr. Þaa skal hleypa til Fiaar. Slaatra fenadi med atfalli Siovar, at halfvoxnum maana, verdr kiot drwgara og vardveitiz betr, þvij þeim dyrum blædir betr, sem þaa slaatraz. Kyr sem þaa hafnaz um Flood Siovar hafa ecki ysir, sem hinar er um Fioru hafnaz. Þaa skal rya Savdse.

Med fullu Tuungli: slaadu Hey, sem ei skal rijrna. Planta Lavka. Salta Kiot edr heing þat i reyk. Planta allskyns rætur sem koolsa hafa.

Med mijnkanda Tuungli: pæl upp land, hvar grasrætur eiga at fuuna i. Høgg þaa vid, sem lengi skal vara og ei fuuna, so sem til Klifbera, Hripa, Amboda.

A sijdasta Qvartili Tuungls: sa Næp-
um og ellu roota fræi, lijka vidar Fræi.
Planta villivid a Havsti. Tak upp wr jord
Avexti þa, sem innri skulu geymaz a vetri,
undir nidid sialft, enn bw vel um hina, sem
wti eiga at lifa. Gelda skal þa allar Skep-
nur sem geldaz eiga.

Her at avki taka nockrir menn mark a
þvij hvar Tuungl er i Himinteiknum. Þeir-
ra Regla er þesse:

Þeir sa þvi sem ofanjardar a at vaxa
i Tvijbura, Vigtar og Vatsbera merkium.

Hinu, sem undir jord a at vaxa i
Hruuts, Meyar og Steingeitar merkium.

Heitum Kryddurtum vilia þeir sa, i
Tarfs, Bogmanns og Leons merkium.

J Sporddreka, Krabba og Fiska merk-
ium vilia þeir hvorki sa nie planta.

## Kap. xxvj.

135. **M.** Kantu at segia mier nock-
ur merki, sem viss se, fyri vedrabrygdum?

B. Almennustu Reglur, sem eg hefi tek-
id mark a vid þennann wrkialsa lands, get
eg sagt þer; ei allsaar af þeim eru arid
1649 valdar og wtlagdar wr Donsku Rij-
mi, af Sijra Gisla Biarnasyni Proofasti

i Gullbringu-Syslu, og Presti a Stad i Grindavijk; þar vid hefi eg bætt nockrum Sunnmæra Vedur-Spaam, eptir Hr. Strøm, þykiz eg hafa reynt allar þessar Reglur, at flestar þeirra bregdaz sialdan, enn nockrar þeirra alldrei, þar sem eins stendst a landslagi og her.

  

## A Sólinni má so Vedráttufar marka.

Þegar sialf Soolin er skær, i upp- og nidrgavngu, og loftid allt hreint, i grend vid hana, merkir gott vedr nærsta dag og noott. Fagurt Sky, sem Kooroona yfir henni, nær hunn gengr upp, enn eydiz þegar allt i einu, merkir gott vedr og biart.

Þegar Soolin syniz koma upp i heidbirtu, enn gefr þo ei skært Skin, helldr syniz vera dym̃, merkir Votvidri; Syniz hwn i upp- eda nidr-gavngu gul eda bleik, med vats-litum eda ravdum Skyum um sig, bodar Hreggvidri: sama merkia ravdir geislar, sem ganga i gegnum Sky a Sumrum, og stendr mikill hiti af þeim, fra Soolinni.

Ulfar fyrir og eptir Soolunni, fagrir, eda ravd Sool i nidurgavngu, bodar optaz þurt þravidri.

Sialdan er Gyll fyri goodu, nema Ul-

fi

fr eptir renni, gangi ravdr hali af Sylnum, bodar Stormvidri.

Margir Ulfar krijngum Sool, ravd-grænir at lit, boda Stoorvidri med hreggi eda kafalldi, eptir Arsins Tijma: dockravd-ir og grænleitir hrijngar, i krijngum Sooli-na, vita ꝏ þat sama, hellst þegar huun er i upp- eda nidr-gavngu.

Skær og fagr hrijngr, krijngum Soo-lina, um middegi, i biortu vedri, og standi Ulfar, skærir sem lioos, i þeim hrijngi, Soo-lin lijka skær innann i hrijngnum þydir ætijd Vedrœattu gooda og miuuka. Þat merkir og sama, þegar hrijngar um Sool dragaz af allt i einu, ꝏn þess hlid verdi ꝏ þeim.

Soolir þriœr i avstri, ꝏrla sienar, boda kallt Vedr, enn i vestri ꝏ Qvolldin, blijdvidri.

Vedra hialmr kallaz þegar tveir hrijng-ar eru um Soolina, hvor utan yfir ødrum, og vijda Ulfar i þeim hrijngum, hvijtir, veit ꝏ kallt þrœvidri um hrijd, og stundum til langframa.



Af Túnglinu má so Vedráttufar marka.

Þrijnætt Tuungl ravdt med hvossum horn-um þydir Vind og kullda fram̄ til fyllingar. Bleikt merkir wrkomu, og skært heidbirtu eins lengi.

Ef at hinn myrkvi partr Tuungls sieſt allr, þegar þat er þrijnætt eda fernætt, merkir Storm og wrfelli.

Ef at Blettir œ halfvoxnu Tuungli, ſynaz miøg dockvir, merkir logn og votvidri.

Siœi madr þrijnætt Tuungl, i Sunnan œtt, er brœdum Regns at vænta, ſama merkir, ef annad eda bædi horn þeſs eru ſliòof.

Allir dockleitir hrijngar um Tuungl, helſt ef at fleiri eru enn einn, merkia Vedrabrigdi Storm og hregg eda kafalld; ſama merkia Ulfar um Tuungl.

Einfalldr, biartr og fagr hrijngr i krijngum Tuunglid, med eingvu hlidi œ, og dragiz hann allr i einu af, veit þat œ gott vedr.

* * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * *

## Af Stiørnum má ſo Vedr marka.

Ef Stiørnur tindra miøg, ellegar Stiørnuflug ſiœſt mørg merkir Vind þadan ſem Stiørnuflug kom.

Siœiz Stiørnur fœar, eda ſyniz dymmar i heidbiørtu vedri, þœ er korgr eda miſtr i lopti, og veit þat opt œ wrfelli, eñ ſtundum þrœvidris kullda.

## Af Skýum má ſo Vedr marka.

Raud Sky, ſem uppkoma eptir nidrgang Soolar,

Soolar, er menn kalla Qvolld-Rodina, og oll þav Sky, sem fylgia upprennandi Sool, og eydaz strax af hennar Skini, merkir gott vedr a nærstum dægrum.

Þegar þyck vinda Sky standa vid hafsbrunn, og dragaz oll upp a lopt, fyrir utan alla undirbliku, er þerris-viti.

Sicaiz i votvidri þunn Sky, ravdbleik a jodrum, þat merkir at þorni lopt: sama merkia hvijt Sky, sem sicast um midiann dag, eins og rækir eda hrijslur, er her kallaz þamad eda þanad lopt.

Fylgi myrkbleik Sky, elldravdum Soolar upp- eda nidr-gangi, enn geislar hennar leiptra þo þar um krijng, þa er ecki at tvijla wrkomu og stundum vind lijka.

Oll græn, ravd, vatslitud Sky, og helst hin þyckvu svortu, sem vindr rekr til Nordurs, boda Regn.

Hvijt og lioos-gra Sky eru þurrari, boda Jel a Vetrum, enn a Sumrum Skuura-vedr.

Þegar siest Kloo-Segi a lopti arla dags, þat eru langar, hvass-yddar Skyrækir, þa kemr vindr a þann odda sem fyrr afdroost, og tvijl-lavst a annann hvorn.

Blika, sem dregr a lopt upp um vetr, merkir þa hlaku, ef huun er dockbla, og kemr þo optaz fyrst af henni Snæfiuuk, enn hvijt,

hvijt, med Þoku bodar Snioo.

Blika, sem skioott uppdregr, merkir skam̃vint Regn, enn svo sem ymist gengr upp eda nidr, enn dregst Þó yfir lopt um sijdir, verdr driuuguft, med Hreggvidri og Sumrum, enn Kafalldi og Vetrum.

Vindblika er jafnan Þunn, og Þo dockleit at sioa, gengr ei hoatt og lopt upp, so lengi sem huun stendr, varir kulldi og vindr, og rofar Þoa i hoalopt.

Haf-gall kallaz Geisli mislitr, vid hafsbruun, ei olijkr halfÞrotnu Tuungli, eda nockud ogÞeckr Regnboga fæti, bodar langvint Regn, at Sogn Bænda, ei skemr enn halfann moanud.

Þegar Soolargeislar myndaz i Skyum og vestr lopti, um Soolar uppruna, bodar Regn.

Þegar Nor-rænur ganga, og Skyabackar sioast i avstri og vestri, merkir Þroavidri, og so lengi sem hvorugr Skyabackinn eydiz, og gengr hvorki upp nie nidr, hellst Þinn sami Þurri mootÞrooi.

Þegar tennir og haf-mecki, eda nær sky myndaz Þar, sem Klackar, eda Tenningar, bodar æsing og ofvidri Utsioar, og ofæru farmonnum.

---

## Af Regnboga má so Vedr marka.

Regn-

Regnbogi, i Skyum bodar optast millda og vota vedrættu, og komi hann med Skyum eptir biartvidri, bodar hann varanlegt Regn, hellst ef hann er miog grænn, þegar hann er i avstri.

Miog hvijtr Regnbogi, i þurrum vatslausum Skyum, bodar Kullda, Snioo eda Krapa, eptir Arsins Tijdum.



Af Þoku má so Vedr marka.

Þegar mikil þoka og langsom gengr, þa er vijst at vænta, at eptir hana komi vindar, kulldi og stundum varanlegt Regn.

Lijtil þoka krijngum Sool, þegar huun gengr upp eda nidr, merkir klart vedr. Sama merkir oll sw þoka, sem dregst ofan at jord, þegar fiallatindar eru skijrir, þat kollum ver Dal-lægiu og Sioo-lægiu.

Þoka, sem slær ser upp i lopt fra jord, kemr ofan aptr med Regn a Sumrum, enn Snioo a Vetrum.

Hrijmþoka, sem sveimar upp i lopt af jord, a vetri, kemr aptr med mikilli fannfergiu.

Þoka, sem gengr upp af Siooarfiorum og Bockum a Vetri, þydir komandi frost, enn ef at sw þoka gengr upp i frosti

bod-

bodar varanlegt og hardara froſt, nema þuñ ſie ſem Guſa, þaa er huun Svijunar merki.



## Af Sniofalli má ſo Vedrlag marka.

Miog ſmaar Korn-Snioor, merkir at froſt og kulldi ſe i vexti.

Hagl-Snioor, þyckr i ſer ſem hnoda, og ſo nockud bleikr at liti, merkir milldt lopt, og gott komandi vedr, ſem menn ſegia: Hagl er Heidi næſt.

Sniodrijfa, er ſumir kalla Skæda-drijfu, er nidrfellr ſem ſætlingar, merkir opt biartvidri og heidbirtu i vændum.

Snioo-þoka, hellſt af Nordri og Veſtri, bodar Sniookomu. Kafalld, ſem kemr med Stormi, hellſt aa avda jord, varir ei lengi.

Snioor, veniu framar aaleitin, innum Glugga og Þilia rifur, bodar linvidri lopts.

Snioor, ſem ſtendr aa Sioonum, i fiuuki eda drijfu, hvitr, og bregdr ei liti, merkir kullda mikinn aa eptir i viſsum vonum.



## Af Regni og Vatni má ſo Vedurlag marka.

Froſtrigningr, ſem menn lijka kalla Iſing, bodar optaſt eptir ſig Regn og Vorvidri.

Morg-

Morgun og Qvølld Skuurir ganga jafnan undan þurri Vedrꜳttu.

Hvijtir Regndropar, sem giøra Bools ur ꜳ Vatni, nær þeir nidr falla, boda varandi Regn.

Þat Regn, sem kemr med Uda edá Sudda, verdr driuugara, enn þat sem kemr hastarlega.

Regn, sem þornar af jørdu, fyrir utan vind, vonum fliootara, bodar Stoorregn ꜳ eptir.

Verdi kallt Stødu-vatn, fyrir utan Soolarhita volgara enn vant er, bodar Stoor-regn.

Vats-Ædar, sem wr jørdu koma, nær volgari eru, enn vani er til, og þeirra Edli er, ꜳ vetrum, þat merkir lang-gædt og hart frost og kullda.

## Af Vindi má so Vedr marka.

Vindr sem kemr ꜳ degi, varir lengr eñ sꜳ sem ꜳ noottu kemr.

Eptir langann Sunnan vind, kemr jafnadarlega Regn, og flestir Stormar endaz med Regni.

Hefiz hvaſs vindr i logn-døgg, þꜳ er viſs von, at brꜳdum þorni.

Utnyrdingr sefaz opt um Soolarlag,

þeg

Þegar huun kemr i þaa aatt, enn hægi þaa ecki, merkir horku og lijka þraavidri.

Avstanvindr endaz opt med Hreggi, og þar af er komid Maaltækid: oft kemr ovedr i endadann þey.



## Af Siónum má so Vedr marka.

Þegar brimlavs Sioor i logni gefr hliood af ser, þat merkir Regn og Storm i vændum.

Ef Bylgiur og Brim vaxa i logni yfir Edli, bodar Storm og kullda.

Ef Sioor syniz gruggugr og mooravdr at lit, med moski og ognum i, bodar Storm.

Oveniulegt Stoorflood, i brimlavsu fogru vedri, bodar haf-vidri.

Siaai madr Siooinn ostilltann, gialfmikinn og ufinn, i goodu vedri og logni, þat er vijst merki til roſa og ostillrar vedraattu.

Ef þang frys miog i fioru, eda frostgufa sieſt inn a fiordum bodar mijnkun kullda

## Af Loftinu má so Vedr marka.

Þegar loftid koolnar a Vetrum, eptir þat Nor-rænur og avstrænur hafa gengid, og komi þaa smaar korn-snær, þat merkir varanlega kullda.

Ravdr loft a Morgna boder Storm og Regn, enn a Qvolldin merkir þat þurt og hreint vedr. Qvolld-

Qvolldrodmiñ bætir, Morgunrodmiñ vætir.

Þegar þyckvidri birtir upp af Sydri, þaa er von aa Vindi og Regni wr þeirri att.

Þegar þyckni breytiz i biart lopt, um fiallatinda, merkir þurrvidri.

Þegar þat herad loptsins, i avstnordri, sem menn kalla Jakobs-Veg eda-Stiga, er skært, hvijtt og fagurt aa qvolldin, bodar Skirvidri.

Þegar birtir undir þyckni i Nordri, merkir at Vedr muni þorna; sama merkir lijtill Skyabacki i Nordri og avstri, þegar lopt er heidbiart.

Þegar lopt er ravdt i Sudri bodar Regn, hvort sem þat siest aa noott eda degi.

Þegar Loptid er fullt med rik og mosk, og syniz mooravdt, merkir wrfelli.

Þegar Naattdogg fellr at aftni strax eptir Soolarlag, bodar optaz þurrañ dag eptir aa.

Ef maorilldi siest mikid i Sioo, bodar Sunnan aatt og þeyvid, optast hvassann.

## Af Elldi má so Vedr marka.

Elldr ravdr mioz, merkir Kullda, eñ skær logi og blankandi, merkir Skirvidri.

Þegar lioos logar stilltega, synir stillt vedr, enn þegar þat logar ostodugt, og þegar logi Ellds og Lioosa gefr fraa ser sindrandi gneista, þaa er von aa Hreggvidri og Stormi.

Ellds-

Ellds- eda Liooſs-logi bleikr og myrkr i ſer, bodar wrkomu og vind.

Þegar ſkarp-ſkygnum mañi ſyniz ſem Regn-bogi i kriijngum lioos, bodar Sudda. Vili Elldr ei tendraz, ꝏn orſaka, merkir ſama.

Siꝏi madr Elldflug um loſt, ꝏ Noottu, rockri edr halſ-lyſi, med þyckvum Skyum, merkir Regn: enn ef þꝏ er heidbiart, bodar Snioo af þeirri ꝏtt, ſem Ellflug kom.

Þegar Reykr wr Strompi eda Reykhꝏfi, i lognvedri, leggſt allr ſtrax nidr at jørd, merkir þykt þuungt lopt, eñ ſtandi Reykriñ, ſem ſtrookr i lopt, er ugglavſt goodvidris merki.



Af ſialfum ſer má ſo Vedr marka.

Hver madr, ſem veikr er eda limleſtr i nock-rum lim, og er þo ei at ødru ſiuukr, hann kennir til verkia i þeim veiku limum, undan Stormum og Hriidum.

Þegar ꝏ heilbrigdum mañi koolna wtlimir, og dofna Sinar, ellegar hañ giøriz ſveſnugri eñ at veniu, og ſo þyngri ꝏ ſer, ſamt ogla-dari, bodar kullda og ovedr.

Kulldaboolgu ſꝏ meñ oft i hendur og fætur eptir langvint froſt, þegar fyrſt bregdr vedr-ꝏttu til hlyinda, og er þat goodrar heilſu-merki manns.



Af ymiſum lifandi Qvikindum má Vedr marka.

Þegar

Þegar fiskar og fiska-seydi taka miog uppi, i Sióo eda Votnum, bodar Regn.

Þegar Savdir stangaz miog, med flæstum nøsum, uppi loftid, merkir Storm og wrfelli.

Þegar Kotturiñ sleikir lappir sijnar, og kembir med þeim hofud sitt hals og booga, þat er vætu merki.

Þegar murr heyriz i Hunds-belg, og þegar Hundar grafa ser holu i jord, þa er wrkomu von.

Þegar Mys tijsta meir eñ at veniu, er von a Stormi, Hreggi og Kullda.



## Af Fuglum má so Vedr marka.

Þegar Hrafnar safnaz, og fliuugaz a i lofti, beriandi hver añañ med vængium, þa vita þeir wrfelli nalægt; eñ ef at þeir leika ser i lofti, med litlu og lettu kruunki, merkir gott vedr.

Þegar fuglar, sem jafnan eru a Sioo eda Vatni, setiaz uppa þurt og kroppa sig, þat er merki Hreggvidris eda Sniookomu.

Þegar fuglar leita til Sioofar, eda Stoorvatna, af landi ofan, bodar frost.

Þegar Hani galar optar eñ at veniu, veit hañ a wrkomu: sama veit a Hæna, ef hwn i votvidri fer ei inn, helldr er wti at tijna ser

Þegar Hæns fliuuga seint ofan a vetr, at

morgni, vita þaug a Snioo og kullda; sama merkir þat, ef at þau setiaz upp a qvolldin veniu fyrr.

Þegar fuglar safnaz saman, og bada sig i Sioo edr Am, Votnum edr og so Sorpi, og avsa vatni ysir sig, þa er vijs wrkoma.

Þegar Sioo-fuglar sirraz Sioo, og flivga uppa land, kemr wrfelli og Stormr.

Þegar my safnaz saman i stoorum hoopum, lijtid fra jordu, eptir Soolarlag, bodar hlytt vedr og gott at morgni.

Af ymsum hlutum má so Vedr marka.

Þegar fioll synaz oveniulega ha, ellegar synaz bleik eda bla, er bodi vinda og votvidri; heyriz dunr eda nydr til þeirra, merkir hid sama.

Þegar Eyar hyllir uppi, eda þær twær synaz þar sem ein er, og stærri ein helldr enn ravnar er, bodar wrkomu, og stundum storm.

Lœrest, sem wr vatni er tekid, er þa veniu stysara, ef von er a frosti eptir.

Þegar snarkar i lioosi, sem logar af hreinni feiti, med sindrandi gneistum wt wr, þa kemr regn a eptir.

Gongu-looar vesir mikk'r um haga, vita jafnan a logn og votvidri.

Þegar madr heyrir brak eda hliood i Tre-byggingum, bodar Storm i vændum.

Þegar

Þegar Kluknahliood. er veniu skærara, boðar þat þykt þungt loft og sijðan regn.

Þegar Skruusa eda lok á Tre-Smijdi er þrengra en at veniu, bodar hid sama.

Þegar rifa á þili, sem' ádr sá igegnum lykr sig, merkir hid sama.

• Þegar Olarbelti þrengiz af sialfu ser merkir allt hid sama.

Þegar betr enn at veniu ser grunn Siooar i læd eydu, hellst hvar Sandr er undir, bodar miuukt og milldt vedr þegar i nænd.

Þegar fylu leggr upp af Siooar-vogum, eda Bæa forum, meir enn at veniu, er þeyvidris m:rki.



## Vetrar-far má so marka.

Drijfi Snioor á fioll og bygd i Septembr. vænta menn sniooliijtid verda muni til Soolhvarfa.

Leggiz Vetr at med frostum og fonnum um Soolhvorf, helst þat fram á Gooi.

Drægi grænar blikur uppá lopt, strax eptir Soolhvorf, bodar vetrar-rijki.

Stijgi hrijmþoka jafnan upp i lopt á öndverdum vetri, bodar langvinna fannkomu.

Hiadni Hrijmþoka vid jörd, og fari ei uppi loptid aptr, bodar Snioominni vetr.

Standi opt Þoku-Sky á fiollum, um vetr, og hyli fiallatir[illegible], merkir vetrar-rijki.

Siaaiz fiallatindar klaarir og Sky-lausir sndvardann vetr, og fram̃ um Jool, bodar milldann vetr.

Syniz Soolin opt ravd, eptir Sool-hvorf a Vetrum, bodar frostasaman̄ og vindsvalann vetr. Þat sama merkia dock-vir og grænir hrijngar um Soolina, snd-verdann vetr. Þat sama merkir græn̄ eda gulleitr litr Soolar, og þo hellst at vetr muni snyfinn og vindsvalr verda.

  

*Allt þetta er ei annad, enn naturlegar Loptsins Verkanir, sem hvor hygginn madr ma skilia.*



# Registur
þessa
# Bæklings.

* * * * *

